er honū a sabbatunum / ad hañ take
ecke til hañs og lypte honū upp?
12 Hvad miklu betre er nu ein mañeske-
ia eñ eitn saudur? * Þar fyrer ma mad
ur giøra gott a sabbatunum.
* Marc. 3/4.
13 Þa sagde hañ til þess mañs: ut-
rett þyna hønd / Og hañ riette hana
ut / og hun vard heilbrigd sm̃ hin oñur.
14 Eñ pharisæarner * geingu ut / og
hielldu raad i giegn honum / hvørneñ
þeir kyñu ad fyrerkoma honum.
* Marc. 3/6. Luc. 6/11.
15 Eñ er Jesus merkte þad / veik hañ
þadañ / og margt foolk filgde honum
epter / og hñ læknade þa alla.
16 Og * hañ forbañade þeim / ad þeir
skyllde openbera hañ. * c. 9/30.
17 Uppa þad þad skyllde fullkomnast /
sem er * talad fyrer spamañeñ E-
saiam / er seiger: * c. 42/1. etc.
18 Sia / miñ þion / sem eg hefe utval-
ed / miñ Elskulege / * a hvørium mijn
sal hefur velþocknan / ** Eg vil set-
ia miñ Anda yfer hañ / og hañ skal
kuñgiøra heidingiunum doomeñ.
* C. 3/17. ** Es. 11/2.
19 Hañ mun ecke kyfa og ei kalla og
þar mun ecke nockur heyra hñs raust a
gøtunum.
20 Hañ mun ecke sundurbrióta þañ
marda reir / og ei utslockva þañ riukan
de hør / þar til hñ utfærer doomeñ til
sigurs.
21 Og heidingiarner munu vona a hñs
nafn.
22 Þa var eirn * diøfuloodur hafdur
til hañs / sem var blindur og mallaus /
og hañ læknade hañ / so ad sa blinde og
mallause bæde talade og sa. * c. 9/31.
23 Og allt foolked * undradest z sagde:
er ecke þesse sa son Davids? * c. 9/33
24 Eñ er pharisæarner þad heyrdu /
sagdu þeir: * þesse rekur diøfla ecke
ødruvyse ut / eñ þ beelzebub diøflahøfd-
ingia. * c. 9/34. Marc. 3/22. Luc. 11/15
25 Eñ er Jesus vissi þeirra huganer /
sagde hñ til þeirra: * hvørt ryke / sem
verdur sundurþyckt iñbirdes / leggst i
eyde / Og hvør borg edur hus / sm̃ verdur
sundurþyckt iñbirdes / mun ecke verda
stadfast. * Luc. 11/17.
26 Og ef satan utrek satanam / er hñ
sundurþyckur i giegn sier sialfū / hvørn-
eñ mun þa hañs ryke verda stadfast?
27 Og ef eg utrek diøfla fyrer beelze-
bub / fyrer hvørn reka þa ydar børn þa
ut? þar fyrer munu þau vera ydrer
doomarar.
28 Eñ ef eg utrek * diøfla fyrer Guds
Anda / er vissulega Guds ryke komed til
ydar. * 1. Joh. 3/8.
29 Edur / hvørneñ kañ nockur iñgan-
ga i eins øflugs hus / og * ræna hañ
hañs bushlutum / nema hañ adur binde
hiñ øfluga / og sydañ ræne hañ hañs
huse? * Es. 49/24.
30 * Hvør sem ecke er med mier / er i
mote mier / Og hvør sm̃ ecke safnar
med mier / sundurdreifer. * Luc 11/23.
31 Þar fyrer seige eg ydur. * øll synd
og lastan mun fyrergiefast møñunū / eñ
lastan i mote Andanū mun ** ecke fyr-
er giefast møñunum. * Marc. 3/28.
Luc. 12/10. ** Ebr. 6. 4/6. C. 10/26.
32 Og hvør sm̃ talar * nockud i mote
Mañsens Syne / þad mun fyrergiefast
honum / eñ hvør sem talar i mote þeim
Heilaga Anda / honū mun þad ecke fyr-
ergiefast / hvørke i þessum heime / ec
helldur i þeim tilkomande. * c. 13/55.
33 Læted * añadhvørt tried vera gott /
z godañ avøxt þar a / edur læted tried
vera vont / og vondañ avøxt þar a /
þvi ** tried þeckest af avextenum.
* C. 7/17. ** Luc. 6/44.
34 Þier nødruækyn / hvørneñ kuñed
þier ad tala gott / med þvi þier erud
vonder? þvi af * gnægd hiartans mæler
muñureñ. * Luc. 6/45.
35 Eirn goodur madur af goodum
sioodi hiartans / fram̃ber gooda hlute / og
eirn vondur madur af þm̃ vonda siood /
fram̃ber vonda hlute.
36 Eñ eg seige ydur / ad meñ hlioota
ad giøra reikningskap a deige doom-
sens af hvøriu hæfeingu orde / sem
tue

Þeir hafa talad.
37 Þvi af þÿnum ordum muntu riett-
lætast/og * af þÿnū ordum muntu for-
dæmast. * Joh. 15/ 6.
38 Þa svørudu nockrer a medal þeirra
skriftlærdu og pharisæañа/og søgdu:
Meistare / * vier villum siaa teikn af
þier. * C. 16/ 1. Marc. 8/ 11.
39 Eñ hañ * svarade og sagde til
þeirra : þad vonda og hoorunarsama
kyn leitar epter teikne / og þvi mun eck-
ert teikn giefast/nema teikn Jonæ spaa-
mañs. * C. 16/ 4. Luc. 11. 29/30.
40 Þviad eins sem * Jonas var þriu
daga og þriaar nætur i hvalfiskseñs
kvide / so mun Mañsens Son verda
þriu daga og þriaar nætur midt i
jørdu. * Jon. 2. 1/ 2.
41 Þeir meñ af Ninive munu upprÿsa
i doomenum moote þessare kynslood / og
fordæma hana/þvi * þeir umvendu sier
vid Jonæ predikun / Og sia / hier er
meir eñ Jonas. * Jon. 3/ 5.
42 Drottningeñ af sudre mun upprÿsa
i doomenū moote þessare kynslood / og
fordæma hana/þvi * hun kom fra jardarenar
endemørkum / ad heyra Salo-
mons speke / Og sia/ hier er meir eñ
Salomon. * 1. Kong. 10/ 1. etc.
43 Nær sa * ohreine ande er utfareñ
af mañenum / reikar hañ um þurra
stade / leitar hvÿldar og fiñur hana
ecke. * Luc. 11/ 24.
44 Þa seiger hñ: eg vil snua aptur til
mÿns huss/ sem eg foor ut af / Og nær
hañ kiemur/ fiñur hañ þad tomt/soop-
ad og fægad.
45 Þa fer hañ burt/ og tekur siø adra
anda til sÿn/ sem eru verre eñ hñ sialf-
ur/ og nær þeir koma þar iñ/ bua þeir
þar/ og verdur þad * sÿdasta þess sama
mañs / verra eñ þad fyrsta / So mun
þad og gaanga þessare vondu kynslood.
* 1. Pet. 2/ 20.
46 Eñ sem hañ eñ nu talade til folk-
sens/sia/* hañs mooder og hañs brad-
ur stoodu u e fyrer / sem villdu naa ad
tala vid hañ. * Marc. 3/31. Luc. 8/19.
47 Þa sagde eirn til hañs: sia / þÿn
mooder og þÿner brædur standa ute fyr-
er/sem vilia naa ad tala vid þig.
48 Eñ hañ svarade/ og sagde til hñs
sem sagde honum (þad:) hvør er mÿn
mooder? og hvørier eru mÿner brædur?
49 Og riette sÿna hønd ut yfer sÿna
læresveina/ og sagde: sia/ mÿn mooder
og mÿner brædur.
50 Þvi * hvør sem giører mÿns Fød-
urs vilia / sem er a himnū / hañ er miñ
brooder / og syster / og mooder.
* C. 7/ 21. Joh. 6/ 40.

## XIII. Capitule.

### Christur kieñer i Epterlijkingum.

Eñ þañ sama * dag/ gieck Jesus
ut af husenu/og sette sig nidur
vid sioonñ. * Marc. 4/ 1.
Luc. 8/ 4.
2 Og margt foolk safnadest til hañs/
so ad hañ stie a skip / og sat / og allt
foolked stood i fioruñe.
3 Og hañ * talade margt til þeirra i
epterlÿkingum/og sagde: sia/eirn saad-
madur gieck ut ad saa. * Marc. 4/ 2.
4 Og i þvi hañ saade/ fiell nockud hia
veigenum / og fuglar komu / og atu
þad upp.
5 Eñ nockud fiell a grÿtta jørd/þar s̄
þad hafde ecke mikla jørd/og vox fliott
lega upp/þvi þad hafde ecke diupa jørd.
6 Eñ er sooleñ rañ upp/brañ þad af/
og af þvi þad hafde ecke root / vis-
nade þad.
7 Eñ nockud fiell a medal þyrna/ og
þyrnarner spruttu upp/og kiæfdu þad.
8 Eñ nockud fiell i goda jørd/ z bar aa-
voxt/sumt hundradfalldañ/eñ sumt sex
tugfalldañ / eñ sumt þrÿtugfalldañ.
9 Hvør sem hefur eyru ad heyra (med/
hañ) heyre.
10 Og * læresveinarner geingu til hñs/
og søgdu: hvi talar þu til þra i epter-
lÿkingum? * Marc. 4/ 10. Luc. 8/ 9.
11 Eñ hañ svarade/ og sagde: af þvi
þ er * ydur giefed/ad underskanda leynd-
ardooma himnarÿkes / eñ þeim er þad
ecke giefed. * C. 11/ 25. J. 16/ 17.

12 Þvi hvør sem hefur/honum mun giefast/* og hann mun hafa yferfliootanlega/
Enn hvør sem ecke hefur / fra honum
mun og takast/þad hann hefur.
* C. 25/ 29. Marc. 4/25. Luc. 8/18.
13 Þar fyrer tala eg til þeirra i epter-
lijkingum/þvi þeir sia ecke med siaande
augum/og heyra ecke med heyrande eyrum
og skynia ecke helldur.
14 Og a þeim uppfillest Esaias spaa-
doomur/er * seiger: med heyrnenne munud
þier heyra / og aungvann veigenn skynia /
og siaande munud þier sia / og aung-
vanveigenn vita. * Es. 6. 9/ 10.
Luc. 8/ 10. etc.
15 Þvi þessa foolks hiarta er orded for
herdt / og þeir hafa heyrt þunglega
med eyrunum/ og tilbirgt sijn augu/so ad
þr skylldu ecke eitt sinn sia med augun-
um/og heyra med eyrunum/og skynia med
hiartanu/og umvenda sier/og eg mætte
lækna þa.
16 Enn * sæl eru ydar augu / ad þau
sia/og ydar eyru/ad þau heyra.
* Luc. 10/ 23.
17 Þvi sannlega seige eg ydur / ad *
marger spamenn og riettlaater girntust
ad sia hvad þier siaed / og sau (þad)
ecke/Og ad heyra hvad þier heyred/ og
heyrdu (þad) ecke. * Luc. 10/ 24.
18 So * heyred nu þa epterlijking um
saadmannenn. * Marc. 4/ 14.
19 Nær nockur heyrer rijkesens ord / og
understendur (þad) ecke / (þa) kiemur
sa vonde og hripsar i burtu þad/sem er
saad i hans hiarta / Þad er sa/ sem er
saadur hia veigenum.
20 Enn þad/ sem er saad a grijtta jørd/
er sa/sem heyrer orded/ og medtekur þad
strax med glede/
21 Enn hefur ecke * root i sier/helldur
varer vid um stundar saker / Enn nær
þreinging edur offsokn skiedur fyrer ordsens
saker/hneixlast hann strax. * Eph. 3/17.
22 Enn þad/ sem er saad * a medal þyr-
na / er sa / sem heyrer orded / og þessa
heims ** aahyggia og rijkedæmesens
svikseme kiæfer orded/ og hann ber ecke
aavøxt. * Jer. 4/3. ** 1. Tim. 6/9.
23 Enn þad/sem er saad i gooda jørd/ er
sa/ sem heyrer orded/ og skyniar (þad)
og giører z eirnenn aavøxt/ og sumt ber
hundradfalldann / enn sumt sextugfalld-
ann/enn sumt þrijtugfalldann.
(Evang. V. S. D. epter Þrett.)
24 Hann sette þeim fyrer eina adra
epterlijking/og sagde: himnarijke
er lijkt einum manne / sem sæde goodu sæde
i akur sinn/
25 Enn þa menn svaafu/kom hans fiand
madur/og sæde illgrese midt a medal
hveitesens / z for i burt.
26 Enn þegar grooduren voox/ og bar
aavøxt/þa sast ogso illgresed.
27 Þa geingu þienararner til hussbond
ans/ z søgdu til hans: herra/ sæder þu
ecke goodu sæde i akur þinn ? hvadan
hefur hann þa illgresenn?
28 Enn hann sagde til þeirra: þad hef-
ur eirn frandmadur giørt. Þa søgdu
þienararner til hans: villtu þa/ad vier
skulum fara burt og lesa þau ur.
29 Enn hann sagde: ney/uppa þad þier
skuled ecke under eins upprætta hveited/
þar sem þier lesed illgresed burt.
30 Latted þau bæde vaxa til samans
allt til kornskierunnar / og nær þad er
tijme til kornskierunnar/vil eg seigia til
kornskieru-mannanna/safned fyrst illgres
inum til samans/og binded þau i bind-
ene til ad uppbrenna þau/ enn safned
hveitenu i mijna korn-hlødu.)
31 Hann setle þeim fyrer eina adra ept
erlijkingu/ z sagde: *himnarijke er lijkt
einu mustards korne / sem eirn madur
took/og sæde i akur sinn. *Marc. 4/31.
Luc. 13/ 19.
32 Hvørt ed er hid minnsta a medal alls
sædes/enn nær þad vex upp/er þad stærst
a medal matar-jurta/z verdur eitt trie/
so ad himensens fuglar kome/ og giøre
hreidur a medal greinanna a þvi.
33 Hann * sagde þeim enn adra epterlijk-
ingu: himnarijke er lijkt einu surdeige /
hvørt ein kona took/og liet i þria mæl-
era miøls/ þar til þad vard ølldunges
sijrt. * Luc. 13/ 21.

34 Jesus talade þetta * alltsamañ til
foolksens i epterlijkingū / og fyrer ut-
añ epterlijkingar talade hañ eckert til
þeirra. * Marc. 4/ 33.
35 Ad þad skyllde fullkomnast / sem er
* sagt fyrer spámañeñ / er seiger: eg
vil uppláta mitt muñ i epterlijkingum/
eg vil uttala (þad/ sem hefur vered) hul
ed fra upphafe veralldar. * Ps. 78/2.
36 Þa liet Jesus foolked fra sier / og
kom i hused/og hñs lærisveinar geingu
til hañs og sogdu : utþyd þu oss þessa
epterlijking um̄ illgresed a akrenum.
37 Eñ hañ svarade og sagde til þra :
Hañ sem sáer þui gooda sæde er Mañ-
sens Son.
38 Eñ akureñ er heimureñ / eñ þad *
gooda sæde eru rijkesens børn/ Eñ illgres
ed eru børn þess vonda : * 1. Cor. 3/9.
39 Eñ fiandmadureñ/ sem þeim sáde/
er dioefulleñ/ Eñ * kornskierañ er ender
veralldareñar / Eñ kornskieru-meñ-
erner eru einglarner. * Openb. 14/15.
40 Hvar fyrer/eins sem illgreseñ safn
ast og uppbreñast i ellde / so mun þad
og skie i enda veralldareñar.
41 Mañsens Son mun * utsenda sij-
na eingla / og ** þeir munu safna ur
hañs rijke øllum hneixlunū / og þeim /
sem giora oriett. * c. 24/ 31.
** C. 25/31.
42 Og munu kasta þm̄ i elldsens ofn /
þar mun * vera grátur og taña gnijst-
ran. * c. 8/ 12. c. 22/ 13. c. 24/ 51.
43 Þa * munu þeir riettláatu lioma
sm̄ sool i rijke Fodurs þeirra. Hvør
sm̄ hefur eyru ad heyra (med/ hñ) heyre.
* Dan. 12/3. Spek. 3/7. 1. Cor. 15. 41/42.
44 Eñ aptur er himnarijke lijkt einū
fiesiood/ foolgnum i einum akre/ hvørn
eirn madur fañ og falde / og gieck burt
af glede / er hañ hafde af høñū / og *
selde allt þad hañ atte/og keypte þañ
akur. * c. 16/ 24. Phil. 3/ 7.
45 Eñ aptur er himnarijke lijkt einū
kaupmañe/er leitade epter goodū perlū.
46 Og þa hañ fañ eina kostulega *
perlu/ gieck hañ burt/ og selde allt þad
hañ atte/ og keypte þa somu.
* Ordsk. 8. 10/11.
47 Eñ aptur er himnarijke lijkt einu
vørpu-nete / sem er varpad i sioeñ/ og
sem safnar af allskins.
48 Nær þad er fullt / draga þeir þad
upp i fioruna/ og sitia og safna þeim
goodu til samans i kier/ eñ þeim vondu
kasta þeir ut.
49 So mun þad gañga til i enda ver-
alldar. Einglarner munu utfara / og
skilia * þa vondu fra þeim riettlátu.
* C. 25/32.
50 Og kasta þeim i ellds-ofneñ / þar
mun vera grátur og taña gnijstran.
51 Jesus seiger til þeirra: understood-
ud þier þad alltsamañ ? þeir seigia
til hañs: já Herra. Eñ hñ sagde til
þeirra:
52 Þar fyrer er sierhvør skriftlærdur/
mentadur til himnarijkes / eins sem
eirn madur/(sem er) eirn husboonde/ er
fram̄ber af sijnum fiesiood nyia og gam-
la hlute.
53 Og þad skiede / * þa Jesus hafde
endad þessar epterlijkingar / gieck hañ
þadañ. * Luc. 4/14. etc.
54 Og kom i sitt fødurland / og kiende
þeim i þeirra samkundu huse/ so ad þr
forundrudu sig miøg/og søgdu: hvadañ
hefur þesse slijka speke og kraptaverk ?
55 Er * hañ ecke sa timburmañs son?
heiter ecke hñs mooder Maria? og hañs
brædur/ Jakob og Joses/ og Simon og
Judas. * Luc. 4/ 22. etc.
56 Og hañs systur/ eru þær ecke all-
ar hiá oss? hvadañ hefur hñ þa þetta
alltsamañ?
57 Og þeir hneixludust a hønū. Eñ
Jesus sagde til þeirra : * eirn spámad-
ur er ecke foraktadur/nema i sijnu fød-
urlande z i sijnu huse. * Joh. 4/44. etc
58 Og hañ giørde þar ecke mørg krap
taverk vegna þeirra vantruar.

## XIV. Capitule.

Christur mettar Foolked i Eydemørk
eñe/ Geingur a Vatnenu.

A * þeim tijma heyrde Herodes
fiordungs høfdinge rikted Je
su. * Marc. 6/14. Luc. 9/7.
2 Og ſagde til ſiña þienara:
þeſſe er Johañes ſkijrare / hañ er upp.
riſeñ fra þeim daudu/ þar fyrer tiaa ſig
ſlijk kraptaverk i hønum.
3 Þvi * Herodes hafde fangad Johañ
em/ og bunded hañ / og ſett i fangelſe
fyrer Herodias ſijns broodurs Philippi
huſtrur ſaker. * Marc. 6/17. etc.
4 Þvi Johañes ſagde til hañs: þad *
ſoomer þier ecke ad hafa hana.
* 3. Moſ. 18/15.
5 Og hañ hefde giarnañ ſleiged hañ i
hel/ eñ ottadeſt fyrer foolkenu/ * þvi þr
hielldu hñ ſm eirn ſpamañ. * c. 21/26
6 Eñ þa Herodes hiellt ſiñ fædingar.
dag / danſade Herodias dootter frame
fyrer þeim/ og þad þocknadeſt Herodi.
7 Þar fyrer lofade hañ med einu eyde/
ad giefa heñe / hvad hun beidde.
8 Eñ er heñe var adur undervijſad af
ſiñe moodur/ ſagde hun: gief mier hijng.
ad Johañis ſkijrara høfud a einu fate.
9 Og konungureñ vard hriggur / þo
vegna þeirra eyda/ og fyrer þeirra ſak.
er/ ſem ſatu med hønum til bords/ baud
hañ ad (þad) giæfeſt (heñe.)
10 Og ſende (burt) og hals hioo Jo.
hañem i fangelſenu.
11 Og hañs høfud var bored a einu
fate/ ꝛ giefed ſtulkuñe/ ꝛ hun bar (þad)
til ſiñar moodur.
12 Þa * komu hañs læreſveinar / og
toku lijkamañ / og jordudu hñ/ og komu
og kuñgiordu Jeſu (þad.)
* Marc. 6/29.
13 Og * þa Jeſus (þad) heyrde / veik
hañ þadañ a einu ſkipe / til eins eyde
ſtadar afſijdes / Og er foolked (þad)
heyrde/ filgde þad hønu a fæte ur ſtød
unum. * Marc. 6. 31/ 32. Luc. 9/10.
14 Og Jeſus gieck afram / og leit
margt foolk/ og ſa aumur a þeim / og
læknade þeirra ſiuka.
15 Eñ * er þad var komed kvølld/ gein
gu hañs læreſveinar til hñs/ og ſøgdu:
þetta er eirn eydeſtadur / og tijmeñ er
lideñ / laat foolked (fra þier) ad þeir
kuñe ad fara burt i þorpeñ og kaupa
ſier ſialfum fædu. * Joh. 6/ 5. etc.
16 Eñ Jeſus ſagde til þeirra: þeir
hafa ecke þørf ad ganga i burt/ * gief
ed þeim ad eta. * Luc. 9/ 13
17 Eñ þeir ſeigia til hañs: vier høfu
hier eckert/ nema fim braud ꝛ tvo fiſka.
18 Eñ hañ ſagde: færed mier þau
hijngad.
19 Og hañ baud foolkenu ad ſetia ſig
nidur a graſed/ ꝛ * tok þau fim braud/
og þa tvo fiſka / leit upp til himens/
og bleſſade og braut þau/ og fieck ſijnu
læreſveinum braudeñ/ eñ læreſveinarner
folkenu. * Joh. 6/ 11. Marc. 6/ 41.
20 Og þeir * atu aller ꝛ urdu metter/
og þeir tooku upp / þad er þar var af
gangs af leifunum toolf karfer full.
ar. * Marc. 6. 42/ 43.
21 Eñ þeir ſem atu/ voru hierum fim
þuſunder mañs / fyrer utañ kviñur og
børn.
22 Og jafnſnart * neidde Jeſus ſijna
læreſveina til/ ad þeir geinge a ſkip/ ꝛ
fære yferum undañ hønu a hina adra
ſijdu/ þar til hañ feinge ſlept foolkenu
(fra ſier.) * Marc. 6/45. Joh. 6/17.
23 Og þegar hañ hafde lated foolked
(fra ſier) gieck hñ alleirn uppa * eitt
fiall ad bidiaſt fyrer. Eñ er þad var
komed kvølld/ var hañ alleirn þar.
* Luc. 6/ 12. C. 9/ 18. Joh. 6/ 15.
24 Eñ ſkiped var þa midt a ſioonum/
og hrakteſt af bilgiunum/ þviad vind.
ureñ var þeim i mooke.
25 Eñ a þre fiordu vakt um nottena
kom Jeſus til þra/ ꝛ gieck a ſioonum.
26 Og er læreſveinarner ſau hañ gan
ga a ſioonu/ urdu þr hrædder/ ꝛ ſøgdu:
þad er * ein vofa/ og kølludu upp af
hrædſlu. * Luc. 24/ 37.
27 Eñ Jeſus talade ſtrax til þra/ ꝛ ſag
de: vered hughrauſter/ þ er eg/ otteſt ecke.
28 Eñ Petur ſvarade hønu / ꝛ ſagde:
Herra/ ef þu ert þ/ (þa) biood mier ad
koma til þijn a vatnenu.

29 Eñ hañ sagde: kom/ Og Petur stie
af skipenu/ og gieck a vatnenu/ ad hañ
kiæme til Jesum.
30 Eñ sem hañ sa eirn sterkañ vind/
vard hañ hræddur/ og took ad sockva/
hroopade & sagde: Herra/ hiælpa mier.
31 Og Jesus utriette jafnsnart hond
ena/ og took til hañs/ og seiger til hñs:
Þu lijteltruadur/ hvi efadest þu?
32 Og er þeir stigu iñ i skiped/ stillte
vindeñ.
33 Eñ þeir/ sem (voru) i skipenu/ komu
og fiellu fram̃ fyrer honū/ og søgdu:
* Þu ert sañarlega Guds Sonur.
C. 16/ 16.
34 Og * fooru yferum̃ og komu til
Genezarets lands. * Marc. 6/ 53.
35 Og er foolked i þm̃ sama stad vard
vart vid hañ/ sendu þeir ut um̃ allt þad
land/ allt i kriñg/ og færdu alla/ sem
siuker voru/ til hañs.
36 Og bædu hañ/ ad þeir mætte ad
eins * snerta falldeñ a hñs klædum/ Og
aller þeir/ sem snertu (þar vid/) urdu
heilbrigder. * C. 9/ 21.

## XV. Capitule.

Christur rekur til baka Mañа-Lærdom/
Freistar þeirrar Cananversku Kviñu/
Mettar foolked.

Þa * komu skriftlærder og phari-
sæarar af Jerusalem til Je-
sum/ og søgdu: * Marc. 7/ 5.
2 Hvi yfertroda þijner læri-
sveinar ølldungañа skickan: þvi þr þvo
ecke sijnar hendur/ nær þr eta braud.
3 Eñ hñ svarade og sagde til þeirra:
hvi yfertroded þier og Guds bod fyrer
ydar skickunar saker?
4 Þvi Gud hefur boded/ seigiande:
* Þu skallt heidra fødur og moodur/ og
** hvør sem bølvar fødur edur mood-
ur/ skal vissulega deyia.
* 2. Mos. 20/ 12. ** 3. Mos. 20/ 9.
5 Eñ þier seiged: hvør sem seiger til
fødur eda moodur: þad er ein gæfa/ sm̃
þier af mier skyllde vera hiælpad med/
hañ hyggur sier ecke ad heidra siñ fød-
ur edur sijna moodur.
6 Og hafed ad aungvu gjørt Guds
bod fyrer ydar skickunar saker.
7 Þier hræsnarar/ * Esajas spaade
vel um̃ ydur/ og sagde: * C. 29/ 13.
Marc. 7/ 6.
8 Þetta foolk nalægest mig med sijnū
muñe/ & heidrar mig med vorunum/ eñ
þeirra hiarta er langt fra mier.
9 Eñ þeir dijrka * mig forgiefens/ &
þvi þeir kieña (þvilijka) lærdooma/ sem
eru mañаña bodord. * 5. Mos. 4/ 2.
10 Og * hañ kallade foolked til sijn/ og
sagde til þeirra: heyred til og skynied.
* Marc. 7/ 14.
11 Þad sem * iñgeingur i muñeñ/ van-
helgar ecke mañeñ/ eñ þad sem utgeing-
ur af muñenum/ þad vanhelgar mañ-
eñ. * P. G. 10/ 14.
12 Þa geingu hañs lærisveinar fram̃/
& søgdu til hñs: veitstu/ ad phariseear-
ner hafa hneixlad sig/ þegar þeir heyr-
du þessa rædu?
13 Eñ hñ svarade og sagde: øll plan-
tan/ sem miñ himneskur Fader hefur
ecke plantad/ mun med root upprijckiast.
14 Lated þa (fara/) * blinder eru blind-
ra leidtogar/ eñ nær eirn blindur leider
eirn blindañ/ falla þr bader i grøfena.
* Luc. 6/ 39. Rom. 2/ 13.
15 Eñ Petur svarade & sagde til hñs:
utþijd oss þessa eptirlijking.
16 Eñ Jesus sagde: erud þier og eñ
(so) skilningslauser?
17 Skynied þier ecke eñ nu/ ad allt þad
sem iñgeingur i muñeñ/ geingur i mag-
añ/ og verdur ut-rudt fyrer þa nattur-
legu raas?
18 Eñ þad sem * utgeingur af muñ-
enum/ kiemur af hiartanu/ og þad van-
helgar mañeñ. * Jak. 3. 6/ 10.
19 Þvi * af hiartanu koma vondar hux-
aner/ mañdrap/ hoordomar/ frillulijfe/
þioofnadur/ falsker vitnesburder/ last-
aner. * 1. Mos. 6/ 5. C. 8/ 21. Jer. 17/ 9.
20 Þetta eru þeir hluter/ sm̃ vanhelga
mañeñ/ eñ ad eta med ohveignum hond-
um/ vanhelgar ecke mañeñ.
(Ev. II. S. D. i Føstu. Reminiscere.)

21 Og Jesus * gieck ut þadan / og
foor burt i lands alfur Tyri og
Sidonis. * Marc. 7/ 24.
22 Og sia ein Cananeisk kona gieck ut
af þeim sømu takmørkum/ ⁊ hroopade
epter hønum/ og sagde: æ Herra/ Son-
ur Davids/ myskuna þig yfer mig/ mijn
dootter kuelst illa af dioflenum.
23 En hn̄ svarade henne ecke einu orde.
Þa geingu hans læresveinar til hans/
badu hn̄/ og sǫgdu: lattu hana fara/
þvi hun hroopar epter oss.
24 En hann svarade og sagde: eg er
ecke utsendur / nema til * þeirra for-
tøpudu sauda af huse Israels.
* C. 10/ 6. P. G. 13/ 46.
25 En hun kom ⁊ tilbad hn̄ og sagde:
Herra/ hialpa mier.
26 En hn̄ svarade ⁊ sagde: Þ er ecke
* fallegt / ad madur take braudid fra
børnunum og kaste (þvi) fyrer hvelpana.
* Marc. 7/ 27.
27 En hun sagde: ja Herra/ hvelpar-
ner eta þo ⁊ af þeim molum/ sem falla
af borde drottna þeirra.
28 Þa svarade Jesus/ og sagde til henn-
ar: o kvinna / * stoor er þijn tru/ verde
þier so sem þu villt. Og hennar dotter
vard heilbrigd fra þre sømu stundu.)
* C. 8/ 10.
29 Og * Jesus gieck þadan framleing-
ra/ ⁊ kom til þess Galilæiska siafar/ ⁊
gieck uppa fialled/ (⁊) settesig þar nidur.
* Marc. 7/ 31.
30 Og margt foolk kom til hans/ sem
høfdu med sier * hallta/ blinda/ mal-
lausa/ vanada/ og marga adra/ ⁊ køst-
udu þeim fyrer fætur Jesu/ og hn̄ lækn-
ade þa. * c. 11/ 5. Es. 35/ 5. Luc. 7/ 22.
31 So ad foolked forundrade sig / þeg-
ar þeir sau/ ad þeir mallausu malltu/
vanader voru heilbrigder / hallter gein-
gu / og blinder sau/ Og þeir prijsudu
Gud Israels.
32 En Jesus * kallade sijna læresveina
til (sijn/) ⁊ sagde: mig aumkar yfer folked/
þvi þr hafa nu þria daga beded hia mi-
er/ ⁊ hafa eckert ad eta/ ⁊ eg vil ecke la-
ta þa fastande (fra mier/) uppa þad
þeir skule ecke vanmegnast a veigen-
um. * Marc. 8/ 1.
33 Og hans læresveinar seigia til hans:
hvadan skulum vier fa so mikid braud
i eydemørku/ ad vier kunnum metta so
margt foolk?
34 Og Jesus seiger til þeirra: hvad
mørg braud hafed þier? en þeir sǫgdu:
siø/ og faeina smafiska.
35 Og hann baud foolkenu ad setiast
nidur a jordena.
36 Og hn̄ took þau siø braud/ og fisk-
ana/ þackade/ braut þau / ⁊ fieck sijnum
læresveinum þau / en læresveinarner
foolkenu.
37 Og þeir neittu aller/ og urdu mett-
er/ og þeir tooku upp siø karfer fullar
af þeim leifum / sem afgeingu.
38 En þr/ sem høfdu neitt/ voru fiorar
þusunder manna/ þ utan konur og børn.
39 Og þegar * hann hafde lated foolk-
ed (fra sier/) stie hann a eitt skip / og
kom til Magdala endemarka.
* Marc. 8/ 10.

## XVI. Capitule.

Christur giefur Petre Himnarijkes
Lukla/ Seiger Læresveinunum fyrer sijna
Pijnu og Dauda.

Og * pharisæar og saduceæar
geingu fram /freistudu hans/
og beiddust/ ad hann villde sijna
þeim eitt teikn af himne.
* Marc. 8/ 11.
2 En hann svarade ⁊ sagde til þeirra:
* um aptanenn seiged þier: þad verdur
eirn fagur dagur/ þvi himenenn er raud-
ur. * Luc. 12/ 54.
3 Og um morgunenn: þad verdur stoorm-
vidre i dag / þvi himenenn er raudur og
dimmur/ Þier hræsnarar/ himensens a-
sijnd kunne þier ad dæma/ kunne þier ecke
ogso * (ad dæma) tijmanna teikn?
* C. 11/ 4.
4 Þesse * vonda ⁊ hoorunarsama kyn-
slood beidest teikns / og henne skal eckert
teikn giefast / nema ** teikn Jonæ
spamanns. Og hn̄ forliet þa/ ⁊ gieck i
burt. * c. 12. 39/40. Luc. 11. 29/ 30.
** Jon. 2/ 1.

5 Og * er hñs læresveinar voru farn-
er yferum / høfdu þeir gleimt ad taka
braud (med sier.) * Marc. 8/ 14.
6 Eñ Jesus sagde til þeirra : * siaa-
ed til/ z taked ydur vara fyrer ** sur-
deige pharisæaña og saducæaña.
* Marc. 8/ 15. Luc. 12/ 1. ** Gal. 5/ 9.
1 Cor. 5/ 6.
7 Þa þeinktu þeir med sialfum sier/ og
søgdu: (þad er þad) ad vier tooku ecke
braud (med oss.)
8 Eñ sem Jesus þad visse / sagde hañ
til þra: * þier lyteltruader/ hvi þeink-
ed þier med sialfū ydur/ ad þier tookud
ecke braud (med ydur? ) * c. 6/ 30.
9 Skynied þier ecke eñ nu? koma ydur
ecke helldur i hug þau * fim braud a med
al þeirra fim þusunda/ og hvad marg-
ar karfer tookud þier (þa upp?)
* C. 14/ 17. Joh. 6/ 9.
10 Ecke helldur þau * sio braud a med
al þeirra fiøgra þusunda / og hvad
margar karfer tooku þier (þa upp?)
* C. 15. 34/ 37
11 Hvørneñ skynied þier (þa) ecke/ ad
eg seige ydur ecke um braud / (nær eg
seige : ) taked ydur vara fyrer surdeige
pharisæaña og saducæaña?
12 Þa understoodu þeir / ad hañ hefde
ecke sagt : ad þeir skylldu vakta sig fyr-
er braudsens surdeige/ helldur fyrer lær-
doome pharisæaña og saducæaña.
13 Eñ er * Jesus var komeñ til Cæ-
sareæ/ Philippi (borgar) endemarka /
spurde hñ syna læresveina ad/ og sag-
de : hvørn seiger foolked mig ad vera/
(sñ er) Mañsens Son? * Marc. 8/ 27.
Luc. 9/ 18.
14 Eñ þeir søgdu : sumer (seigia) Jo-
hañem skyrara/ adrer Eliam/ eñ adrer
Jeremiam/ edur eirn af spaamøñunum.
15 Hañ seiger til þra: eñ þier/ hvørn
seiged þier mig ad vera?
16 Þa svarade Simon Petrus og sag-
de : þu * ert Christus Sonur þess lif-
anda Guds. * Joh. 1/ 49. etc.
17 Og Jesus svarade og sagde til hā-
ñs : sæll ert þu Simon Jonæ son/ þvi
holld og blood hefur ecke opinberad þier
(þad/) helldur miñ Fader / sem er a
himnum.
18 Eñ eg seige þier og so/ ad * þu ert
Petrus / og a þeñañ hellustein vil eg
byggia miñ søfnud / og port helvytes
skulu ecke faa magt yfer honum.
* Joh. 1/ 42.
19 Og eg vil giefa * þier lykla himna-
rykes/ og hvad sē þu fær bunded a jørd
uñe/ þad skal vera bunded a himnum /
Og hvad sem þu fær leist a jørduñe /
þ skal vera leist a himnū. * c. 18/ 18.
20 Þa * baud hañ synum læresveinū/
ad þeir skylldu aungvum seigia/ ad hañ
være Jesus sa Christus. * c. 17/ 9/
21 Fra * þeim tyma took Jesus ad
giefa synum læresveinū til vitundar/ ad
hønum byriade ad gaanga til Jerusa-
lem/ z margt ad lyda af ølldungunum z
yppurstū prestum/ og skriftlærdum/ og
ad lyflaatast/ og a þridia deige upp ad
rysa. * c. 17/ 22.
22 Og Petur took hañ til (syn/) foor
ad aavyta hañ / og sagde : Herra /
þyrm sialfū þier/ þad hende þig a ung-
vañ vergeñ.
23 Eñ hañ snerest vid / og sagde til
Peturs : vyk mier til baka satan / þu
ert mier til hneixlunar / þvi þu skilur
ecke/ hvad Gude tilheyrer/ helldur þad/
sem møñunum tilheyrer.
24 Þa sagde Jesus til siña læresveina :
* vilie nockur koma epter mier/ hañ af-
neite sier sialfum / og take siñ kross og
filge mier. * c. 10/ 38. Marc. 8/ 34.
Luc. 9/ 23.
25 Þvi hvør sem * vill frelsa sitt lyf/
mun tyna þvi / eñ hvør sem tyner sy-
nu lyfe fyrer mynar saker / mun fiña
þad. * Luc. 17/ 33. etc.
26 Þvi * hvad gagnar þad mañenū/
þo hañ aviñe allañ heimeñ / eñ fææ
skada a siñe saal? edur hvørt andvirde
(kañ) ein mañeskia giefa fyrer syna saal.
* Marc. 8/ 36. Luc. 9/ 25.
27 Þvi Mañsens Son mun koma i dyrd
syns Fødurs med synum einglum / og
þa mun hñ * giallda sierhvørīū epter

ſijnu verke. * Rom. 2/ 6. etc.
28 Sannlega ſeige eg ydur : * hier ſtanda
nockrer/ ſem ecke munu ſmacka daudann/
adur enn þeir ſiaa Mannſens Son koma
i rijke ſijnu. * Marc. 9/ 1. etc.

## XVII. Capitule.

Chriſtur ummyndaſt a Fiallenu/ Kunn-
giører apfur ſinn Dauda.

(Ev. VI. S. D. epter Þrettanda.)
(Edur XXVII. S. D. epter Trinit.)

Og * ſex døgum þar epter took
Jeſus Petrum z Jakobum /og
hanns broodur Johannem til
ſijn/ z hafde þa affijdes uppa
eitt hatt fiall. * Marc. 9/2. Luc. 9/28
2 Og ummyndadeſt fyrer þeim. Og
hanns aſiaana lioomade ſem ſoolenn / enn
hanns klæde urdu biørt ſem liooſed.
3 Og ſiaa/ Moſes og Elias openberud
uſt fyrer þeim/og tøludu vid hann.
4 Þa ſvarade Petur/ z ſagde til Jeſu:
Herra / hier er oſſ gott ad vera / viljer
þu/ þa viljum vier giøra þriaar tialld-
buder/ þier eina/og Moſi eina / og E-
liæ eina.
5 Þegar hann enn nu talade/ſiaa/eitt biart
ſkij yferſkygde þa / Og ſiaa / ein rødd
(kom) ur ſkyenu/ſem ſagde: * Þeſſe er
minn Sonur ſaa elſkulege/ a hvørium eg
hefe velþocknan/ heyred hønum.
C. 3/ 17. etc. Marc. 1/ 11. C. 9/ 7.
Luc. 9/ 35.
6 Og er læreſveinarner heyrdu (þad/)
fiellu þeir fram a ſijna aſioonu / og
ottuduſt harla miøg.
7 Og Jeſus gieck ad/ took a þeim/ og
ſagde: ſtanded upp/og otteſt ecke.
8 Enn er þier upplijftu ſijnum augum/
ſaau þeir aungvann/nema Jeſum alleina.
9 Og er þeir geingu ofann af fiallenu/
* baud Jeſus þeim / og ſagde: Þier
ſkulud aungvum ſeigia þeſſa ſijn/ fyrr
enn Mannſens Sonur er uppriſenn fra
daudum.) * C. 16/ 20.
10 Og hanns læreſveinar ſpurdu hann/
og ſøgdu: hvad ſeigia þa þeir ſkrift-
lærdu/ ad * Eliæ byrie fyrre ad koma?
* Luc. 1/ 16/ 17.
11 Enn Jeſus ſvarade / og ſagde til
þeirra: Elias kiemur ad ſønnu fyrſt/ z
mun leidrietta alla hlute.
12 Enn eg ſeige ydur / ad Elias er nu
komenn/ og þeir þecktu hann ecke/ helldur
giørdu vid hann hvad þeir villdu/ So mun
ogſo Mannſens Son lijda af þeim.
* C. 14/ 9. etc.
13 Þa underſtoodu læreſveinarner / ad
hann hefde talad til þeirra um Johann-
em ſkijrara.
14 Og er þeir komu til foolkſens / *
gieck eirn madur til hanns/og fiell hønum
um til foota/ * Marc. 9/17. Luc. 9/38.
15 Og ſagde: Herra/ myſkuna þig yf-
er minn ſon/ þvi hann er tunglſiukur/ og
kvelſt þunglega / þvi hann fellur opt a
elld og opt i vatn.
16 Og eg leidde hann til þinna læreſveina/
og þeir gaatu ecke læknad hann.
17 Enn Jeſus ſvarade og ſagde : o þu
vantruada og fraaſnuna kynſlood/ hvad
leinge ſkal eg vera hiaa ydur: hvad leinge
ſkal eg lijda ydur: færed mier hann hijngad.
18 Og Jeſus haſtade a hann/og diøfull-
enn foor ut af hønum/og ſveinenn vard
heill fra þeirre ſømu ſtundu.
19 Þa geingu Jeſu læreſveinar til
hanns heimuglega/og ſøgdu: hvi gaatum
vier ecke utreked hann?
20 Enn Jeſus ſagde til þeirra : fyrer
ydar vantruar ſaker / þvi ſannlega *
ſeige eg ydur: ef * * þier hafed tru/ſem
eitt muſtards korn / meiged þier ſeigia
til þeſſa fialls: flyt þig hiedann þaang
ad (i burt/) ſo mun þad flytia ſig/ og yd
ur mun eckert vera omøgulegt.
* Luc. 17/ 6. * * Matth. 21/ 21.
21 Enn þetta kyn fer ecke ut/nema fyr
er bæn og føſtu.
22 Enn er þeir høfdu umgeingne i Ga-
liliæa/ſagde Jeſus til þeirra: * Mann-
ſens Son mun ofurſeltaſt i mannanna
hendur. * C. 20. 17/18. Marc. 9/ 31.
Luc. 9/ 22. C. 18/ 31. etc. C. 24/ 7.
23 Og þeir munu lijflaata hann/ og hann
mun uppriſa a þeim þridia deige. Og
þeir urdu miøg hriggver.
24 Enn þa þeir komu til Capernaum/
geingu

geingu þeir til Peturs/ ꝫ tooku(skatt-)
peninganna(ut/)og sogdu: gielldur ydar
Meistare * (skatt-)peninga?
* 2. Mos. 30/ 13.
25 Hann sagde: ja. * Og er hann kom i
hused/kom Jesus fyr enn hann/og sagde:
hvad lijst þier Simon/ af hvorium taka
konungar a jordunne toll edur skatt? af
sijnum bornum edur af framande?
* C. 22/ 25. Rom. 13/ 7.
26 Petur seiger til hans: af framan-
de. Jesus sagde til hans: þa eru born-
enn frij.
27 Enn * uppa þad vier skulum ecke
hneixla þa/þa gack burt til siafarens/
kasta ut einum aungle/og tak þann fyr-
sta fisk / sem kiemur upp / og nær þu
lijkur hans munne upp / muntu finna einn
stater/ tak þann sama/ ꝫ gief þeim fyr-
er mig og þig. * Luc. 23/ 2.

## XVIII. Capitule.

Christur aminner Lærisveinana umm
nockrar sierdeiles Dygder.

(Evang. a St. Michaels Messu.)

A þeirre samu stundu / geingu
lærisveinarner til Jesum/og
sogdu: hvor er mestur i rijke
himnanna? * Marc. 9/34. etc.
2 Og Jesus * kallade eitt barn til sijn/
og setti þad midt a medal þeirra.
* Marc. 9/ 36.
3 Og sagde: sannlega seige eg ydur/ ne-
ma þier umvended ydur/og * verded sem
born/komed þier ecke inn i rijke himnanna
* C. 19/ 14. Marc. 10/ 14. 1 Cor. 14/20.
4 Þar fyrer/ hvor sem sig siálfann lijte-
lækar / sem * þetta barn / hann er sa
meste i rijke himnanna. * 1. Pet. 5/ 6.
5 Og hvor sem medtekur þvilijkt eitt
barn i mijnu nafne/medtekur mig.
6 Enn hvor sem * hneixlar eirn af þess-
um smáu/ sem trua a mig/ honum er
þad betra / ad þar være heingdur eirn
milnu-steirn umm hans hals / og honum
være sokt i diup siafarens.
* Marc. 9/ 42. Luc. 17/ 1.
7 Vei heimenum fyrer hneixlaner/Þvi
* þad hlijtur ad skie/ad hneixlaner sku-
le koma/ þo vei þeim manne/fyrer hvorn
ad hneixlanenn kiemur. * 1. Cor. 1/19.
8 Enn ef * þijn hond edur þinn footur
hneixlar þig / (þa) hogg þau af / og
kasta fra þier. Þad er þier betra / ad
þu gangir hallfur inn i lijfed/edur van-
fær / helldur enn ad þu hafer tvær
hendur edur tvo fætur/ og kastest i þann
eilijfa elld. * C. 5/30. Marc. 9/43
9 Og ef þitt auga hneixlar þig/(þa)
slijt þad ut/ og kasta fra þier. Þad er
þier betra/ad þu gangir inn i lijfed med
eitt auga/ enn ad þu hafer tvo augu/og
kastest i helvijtes elld.
10 Siaed til/ad þier ecke hneixled eirn
af þessum smáu / þvi eg seige ydur:
þeirra einglar a himnum siá jafnann
mijns Fodurs auglit/sem er a himnum.)
11 Þvi * Mannsens Son er komenn/ ad
giora þad hoolped / sem var fortapad.
* L. 9/ 13. Luc. 19/ 10. 1. Tim. 1/ 15.
12 Hvad virdest ydur? ef * eirn madur
hefde hundrad sauda / og eirn af þeim
villtest? yfergiefur hann ecke þa niju og
nijutijge/og fer a fioll upp/og leitar ept-
er þeim/ sem villtest? * Luc. 15/ 4.
13 Og ef so skier/ad hann finnur hann/sann-
lega seige eg ydur/ad hann gledur sig yfer
honum framar / enn yfer þeim niju og
nijutijge / sem ecke villtust.
14 So er * ecke ydar Fodurs vilie/sem
er a himnum/ad eirn af þessum smáu
skule fortapast. * 2. Pet. 3/ 9.
15 Enn ef þinn brooder syndgar a moote
þier/gack burt/og * straffa hann i mill-
um þijn og hans alleina/ heyre hann þier/
þa hefur þu aunned þinn broodur.
* 3. Mos. 19/ 17. etc.
16 Enn heyre hann ecke / þa tak enn nu
eirn edur tvo med þier/ uppa þad * ad
i munne tveggia votta edur þriggia verde
stadfast allt mælefne. * Joh. 8/17. etc.
17 Enn heyre hann þeim ecke/þa seig þu ad
samkundunne. Enn heyre hann ecke sam-
kundunne/ þa hallt hann fyrer eirn heid-
ingia og tollheimtumann.
18 Sannlega seige eg ydur: * hvad hellst
þier binded a jordunne/ skal vera bunded


a himne/

a himne / og hvad helſt þier leyſed a
jørduñe/ ſkal vera leyſt a himne.
* C. 16/ 19. Joh. 20/ 23.
19 Eñ aptur ſeige eg ydur/ ad ef tveir
af ydur verda ſamtaka a jørdu / * um
hvad þad er / ad þeir vilia bidia / þad
mun veitaſt þeim af mijnū Fødur/ ſem
er a himnum. * Marc. 11/ 24.
20 Þvi hvar tveir edur þrijr eru ſam-
añſafnader i mijnu nafne / * þar er eg
midt a medal þeirra. * c. 28/ 20.
21 Þa gieck Petur fram til hañs / og
ſagde: Herra / hvad opt ſkal eg fyrer-
giefa mijnū broodur/ſem ſyndgar i moo
te mier? er þad noog * ſiø ſiñum?
* Luc. 17/ 4.
22 Jeſus ſeiger til hañs: eg ſeige þier
ecke allt til þeſſ ſiøſtiñum / helldur allt
til þeſſ ſiøtijguſtiñum ſiøſiñum.

(Evang. XXII. S. D. epter Trinit.)

23 Þar fyrer er himnarijke lijkt ein-
um mañe/ſem var eirn konungur/
ſem villde hallda reikning vid þioona
ſijna.
24 Eñ er hañ took til ad reikna/ kom
eirn fyrer hañ / ſem var ſkylldugur um
tiju þuſund punda.
25 Eñ er hañ hafde ecke til ad betala
med/baud herrañ ad hñ ſkyllde ſeliaſt /
og hñs huſtru og børn / og allt þad hñ
ætte/ ad betala med.
26 Eñ ſa þioon fiell fram / og tilbad
hañ/og ſagde: herra/vertu polenmood-
ur vid mig / og eg vil betala þier allt-
ſamañ.
27 Þa aumkadeſt þeſſ þions herra yf
er hañ/og gaf hañ lauſañ / og uppgaf
hønum ſkulldena.
28 Eñ ſa ſame þion gieck ut / og fañ
eirn af ſijnum ſamþionū/ſem var høn
um ſkylldugur um hundrad peninga / og
hñ handtook hñ/og villde kirkia hañ/ z
ſagde: gialld þad þu ert mier ſkylldugur.
29 Þa fiell hañs ſamþion (nidur) fyr
er hñs fætur / og bad hañ / og ſagde:
vertu þolenmoodur vid mig / eg vil be-
tala þier alltſamañ.
30 Eñ hñ villde ecke/helldur gieck burt
z kaſtade hønum i fangelſe/ þar til hñ
betalade þad hñ var ſkylldugur.
31 Eñ er hñs ſamþionar ſau þad/ſm
ſkied var/ urdu þeir miøg hriggver/ og
komu / og openberudu ſijnum herra allt
þad/ ſm ſkied var.
32 Þa kallade hñs herra hñ fyrer ſig/
og ſeiger til hñs: þu vonde þion / alla
þa ſkulld uppgaf eg þier / af þvi þu
badſt mig.
33 Hvørt bar * þier og ecke ad myſku
na þig yf* þiñ ſamþion/eins ſ eg h:fe
myſkunad mig yfer þig? * Jak. 2/13.
34 Og hañs herra vard reidur/og of-
urſellde hñ kvølurunū/þangad til hañ
betalade alltſamañ/ þad hañ var høn-
um ſkylldugur.
35 So * mun og miñ himneſkur Fader
giøra vid ydur/ ef þier ecke fyrergiefed
af ydar hiortum hvør eirn ſijnum brod
ur þeirra miſgiørder.) * c. 6/ 15.
Marc. 11/ 25.

## XIX. Capitule.

Chriſtur andſvarar Phariſæunum um
Hiona-ſkilnad.

Og * þad ſkiede/ſem Jeſus haf
de endad þeſſe ord / ferdadeſt
hañ ur Galilæa/og kom i Ju
dææ endemerkur hinumeigeñ
Jordanar. * Marc. 10/ 1.
2 Og margt foolk filgde hønū epter/
og hañ læknade þa þar.
3 Og phariſæarner geingu til hñs ſm
freiſtudu hñs/z ſøgdu til hñs: ma eirn
madur ſkilia eina huſtru vid ſig / fyrer
hvøria ſem eina ſøk?
4 Eñ hñ ſvarade / z ſagde til þeirra:
hafed þier ecke * leſed/ad ſa/ ſm giørde
þau af upphafe / giørde þau mañ og
kviñu? * 1. Moſ. 1/ 27. etc.
5 Og ſagde: * þar fyrer ſkal madur
forlaata fødur z modur/ og hallda faſt-
lega vid ſijna huſtru/ og þau tvø ſkulu
verda ad einu hollde. * 1. Moſ. 2/24.
Marc. 10/ 7. 1. Cor. 6/ 19. Eph. 5/31.
6 So eru þau ecke leingur tvø/ helldur
eitt holld. Þar fyrer hvad Gud hefur
ſamteingt/ ſkal madureñ * ecke adſkyl-
ia

la. * 1. Cor. 7/ 10.
7 Þa seigia þeir til hn̄s: hvar fyrer*
baud þa Moses ad giefa eitt skilnadar
bref / og skylia hana vid sig?
* C. 5/ 31. etc.
8 Han̄ seiger til þeirra: Moses leifde
ydur ad skylia ydar hustrur vid ydur /
fyrer ydvars hiarta hardud/ en̄ af upp
hafe hefur þad ecke so vered.
9 En̄ eg seige ydur / ad hvør * sem
skilur sijna hustru vid sig/ nema þ͛ hor-
doom/ og tekur eina adra til egta/ han̄
drijger hoor/ & hvør sem tekur eina fræ
skilda til egta/ han̄ drijger hoor.
* C. 5. 31/ 32. etc.
10 Hans lærefveinar seigia til hn̄s:
ef so er hattad man̄sens mælefne vid
konuna / þa er þad ecke gott ad gyp-
ta sig.
11 En̄ hn̄ sagde til þeirra: * þetta ord
grijpa ecke aller / helldur þeir/ sm̄ þad
er giefed. * 1. Cor. 7. 7/ 17.
12 Þvi þar eru giellдingar/ sem so eru
fædder af moдurlijfe/ Og þar eru giell-
dingar/ sem eru gielldter af møn̄um /
Og þar eru gielldingar / sem * hafa
gielldt sig siælfa fyrer himnarijkes sak
er. Hvør þad fær griped/ han̄ grijpe
(þad.) * 1. Cor. 7. 32/ 34.
13 Þa * voru smæbørn høfd til hn̄s/
ad han̄ skyllde leggia hendur yfer þau/
og bidiast fyrer / en̄ lærefveinarner æ-
toldu þa. * Luc. 18/ 15.
14 Þa * sagde Jesus: læted þau
(smæu) børn kyrr/ & ban̄ed þeim ecke
ad koma til mijn/ þvi þvilijkum tilheyr
er himnarijke. * C. 18/ 2.
15 Og han̄ lagde hendur yfer þau / og
foor þadan̄.
16 Og siæ / eirn gieck fram̄ / og sagde
til han̄s: goode Meistare / hvad gott
skal eg giøra / ad eg meige hafa ei-
lijft lijf?
17 En̄ han̄ sagde til han̄s: hvi kallar
þu mig goodan̄? eingen̄ er goodur nema
eirn/ sm̄ er Gud/ * en̄ vilier þu in̄gæanga
til lijfsens/ þa halltu bodorden̄.
* Luc. 10. 26/ 28.

18 Han̄ seiger til hn̄s: hvør helldst? en̄
Jesus sagde: þetta/ * þu skallt ecke i
helsiæ/ Þu skallt ecke drijgia hoor/ Þu
skallt ecke stela/ Þu skallt ecke bera falsk
an̄ vitnesburd. * 2. Mos. 20/ 12. etc.
5. Mos. 5. 5/ 17. etc.
19 Heidra þin̄ fødur og moodur/ Og
þu skallt elska þin̄ næunga sem þig
siælfan̄.
20 Þa seiger sa unge madur til han̄s:
þad hefe eg hallded allt saman̄ fra mijn
um ungdoome/ Hvad brestur mig en̄ nu?
21 Jesus sagde til hn̄s: vilier þu vera
fullkomen̄ / þa gack burt / sel hvad þu
ætt/ og gief fætækū(þad/) og þu munt
hafa * fiærsiood a himne/ og kom/ filg
mier epter. * C. 6/ 20. Luc. 12/ 33.
22 En̄ er sa unge madur heyrde þad
ord/ gieck han̄ hriggur i burt/ þvi han̄
hafde miked goots.
23 Þa sagde Jesus til sin̄a lærefveina:
san̄lega * seige eg ydur / ad eirn rijkur
kiemst traudlega in̄ i himnarijke.
* Marc. 10/ 23. Luc. 18/ 24.
24 En̄ aptur seige eg ydur: * þad er
audvelldara / ad eirn ulfallde gæange i
giegnū eitt nælar-auga/ en̄ ad eirn rijk-
ur komest in̄ i Guds rijke. * Luc. 8/ 25.
25 En̄ er hn̄s lærefveinar heyrdu þad/
urdu þeir miøg ottaslegner / og søgdu:
hvør kan̄ þa ad verda hoolpen̄?
26 Þa leit Jesus a þa / og sagde til
þeirra: hiæ møn̄unum er þad omøgu
legt / en̄ hiæ Gude eru aller huter
møguleger.
27 Þa svarade Petur/ & sagde til hn̄s:
* siæ / vier høfum yfergiefed alla hlu-
te / og filgt þier/ hvad skulum vier þa
hafa? * Marc. 10/ 28. Luc. 18/ 28.
28 En̄ Jesus sagde til þeirra: san̄-
lega seige eg ydur / ad þier sem hafed
epter filgt mier/ i endurfædingun̄e/ nær
Man̄sens Son mun sitia a stoole sin̄ar
dijrdar/ skulud þier og sitia a tolf stool-
um / og dæma þær tolf kynkvijsler
Israels.
29 Og hvør sem forlætur hus / edur
brædur/ edur systur/ edur fødur / edur

 moodur /

moodur / edur hustru / edur børn / edur
akra fyrer mÿns nafns saker / mun faa
þad hundradfallt / og erfa eilÿft lÿf.
30 Eñ * marger/sem eru fyrster/munu
verda sÿdaster / og þeir sÿdustu hiner
fyrstu. * c. 20/ 16. Marc. 10/ 31.
Luc. 13/30.

## XX. Capitule.

Christur framsetur eina Epterlÿking
um Verkmeñena i Vÿngardenum.

(Ev. I. S. D. i Nÿju V. F. Septuag.)

Hvi himnarÿke er lÿkt einum
mañe/(sem var)eirn husboon-
de/ er utgieck snemma um morg-
uneñ/ad * leigia verkameñ i siñ
vÿngard. * c. 21/ 33.
2 Eñ er hañ vard æsættur vid verk-
meñena um eirn pening um dageñ/sende
hañ þa i siñ vÿngard.
3 Og gieck ut nær um þridiu stund/ og
leit adra standa a torgenu ydiulausa.
4 Og sagde til þeirra : fare þier og
burt i vÿngardeñ / og eg vil giefa ydur
hvad riettvÿst er.
5 Eñ þeir geingu burt / Hañ gieck eñ
aptur ut nær um siøttu og nÿundu
stund/ og giørde slÿkt hid sama.
6 Eñ nær um þa elleftu stund gieck
hañ ut/ og fañ adra standa ydiulausa/
og seiger til þeirra : hvi standed þier
hier þañ allañ dag ydiulauser?
7 Þeir seigia til hñs: þvi eingeñ hef-
ur leigt oss. Hañ seiger til þeirra: far-
ed þier og so burt i vÿngardeñ/ og hvad
riettvÿst er/ skulud þier faa.
8 Eñ er þad var kvølld/ seiger vÿn-
gards herrañ til sÿns raadsmañs: kalla
verkmeñena / og gialld þeim verdkaup-
ed / og tak til a þeim sÿdustu allt til
hiña fyrstu.
9 Og þeir komu/ sem voru leigder nær
um þa elleftu stundu/ og fieck hvør siñ
pening.
10 Eñ er þeir fyrstu komu/meintu þr/
ad þeir munde faa meira/og þeir feingu
og hvør siñ pening.
11 Eñ þegar þeir feingu hñ/møgludu
þeir i moote husboondanum/
12 Og søgdu : þesser seinustu hafa
(ecke nema) eina stund erfidad / og þu
hefur giørt þa jafna vid oss / sem høf-
um bored þunga dagsens og hita.
13 Eñ hañ svarade & sagde til eins af
þeim: vinur / eige giøre eg þier orietti/
ertu ecke æsattur orden vid mig um
eirn pening?
14 Tak hvad þitt er og far burt. Eñ
eg vil giefa þessū hinum sÿdasta/ eins
og þier.
15 *Eda hefe eg ecke valld til ad giøra
af mÿnu hvad eg vil? eda er þitt auga
(þar fyrer) vont/ af þvi eg er goodur?
* Rom. 9/21.
16 So munu * þeir seinustu verda hin
er fyrstu / og þeir fyrstu þeir seinustu/
þvi marger eru kallader/eñ fær utvald
er.) * c. 19/ 30.
17 Og Jesus * for upp til Jerusalem/
og took þa tolf læresveina utaf til sÿn
a veigenum/ og sagde til þeirra :
* c. 17/ 22. etc.
18 Siaa / vier førum upp til Jerusa-
lem/ & Mañsens Son mun ofurseliast
þeim yppurstu prestum og skriftlærdū/
og þeir munu fordæma hañ til dauda:
19 Og * ofurselia hañ heidingium/ til
ad spotta hañ og hudstrÿkia/og kross-
festa / og a þridia deige mun hañ upp-
rÿsa. * Luc. 18/ 32.
20 Þa * gieck mooder þeirra Zebedæi
sona til hañs med sÿnum sonū / fiell
fram/ og bad hañ um nockud.
* Marc. 10/ 35.
21 Eñ hñ sagde til heñar: hvad villt
þu? hun sagde til hañs : seig/ad þesser
mÿner tveir syner sitie/sa eine hiaa þiñe
hægre / og sa añar hiaa þiñe vinstre
(sÿdu) i rÿke þÿnu.
22 Eñ Jesus svarade og sagde : þier
vited ecke hvørs þier bidied / Gieted
þier * drucked þañ kaleik / sem eg mun
drecka/ og skÿrst med þeirre skÿrn / sem
eg mun skÿrast med? þr seigia til hñs:
vier gietum. * Joh. 18/ 11.
23 Og hañ seiger til þeirra : miñ ka-

leik munud þier ad søñu drecka/ og med
þeirre skijrn / sem eg mun skijrast med /
munud þier skijrast / Eñ ad sitia hia
miñe hægre og miñe vinstre(sijdu/) er
ecke mitt ad giefa/nema þeim/ sem̃ þad
er fyrerbued af mijnum Fødur.
24 Og er þeir tiju þad heyrdu/reiddust
þeir vid þa tvo brædur.
25 Eñ Jesus kallade þa til sijn / og
sagde: þier vited/ad * heidingiañ a høfd
ingiar drottna yfer þessũ / og þeir stoo-
ru hafa magt yfer hinum.
* Marc. 10/42 Luc 22/25. etc.
26 * So skal þad ecke vera a medal yd
ar / helldur hvør sem vill a medal ydar
stoor vera/skal vera ydar þienare.
* 1. Pet. 5/3.
27 Og hvør sem vill a medal ydar vera
sa ypparste/ skal vera ydar þienare.
28 Lijka so sem Mañsens Son er ecke
komeñ ad laata sier þioona / helldur *
til ad þioona / og ad giefa sitt lijf til
eins endurlausnar ( betalings ) fyrer
marga. * Phil. 2/7.
29 Og er þeir geingu ut af Jericho /
filgde honum margt foolk epter.
30 Og sia/* ad tveir blinder saatu vid
veigeñ/ꝛ þa þeir heyrdu ad Jesus gieck
framum̃/hroopudu þeir og søgdu: mysk
uña þig yfer ockur/Herra/ Sonur Da-
vids. * Luc. 18/35. etc.
31 Þa hastade foolked a þa / ad þeir
skyllde þegia/Eñ þeir hroopudu þvi
meir ꝛ søgdu: myskuña þig yfer ockur/
Herra/Sonur Davids.
32 Og Jesus stood vid / og kallade a
þa/og sagde: hvad vilied þid/ad eg sku-
le giøra ydur?
33 Þeir søgdu til hañs: Herra/ad ock-
ar augu mættu upplukast.
34 Eñ Jesus komst vid / og ahrærde
þeirra augu. Og strax urdu þeir augu
siaande / og þeir filgdu honum epter.

## XXI. Capitule.

Christur iñrijdur i Jerusalem / og
fram̃setur tvær Epterlijkingar.
(Evang. 1. Suñudag i Adventu/
og a Palma Suñudag.)

Og er * þeir nalgudust Jeru-
salem/ꝛ voru komner til Bet-
phage til oliu-fiallsens / þa
sende Jesus tvo sijna læresvei-
na/ * Marc. 11/1. Luc. 19/29.
Joh. 12/14.
2 Og sagde til þeirra : ganged burt i
þad þorp / sem er gagnvart ydur/ og
strax munud þid fiña eina øsnu bund-
na/ og folañ med heñe/ Leysed þau/ og
leided til mijn.
3 Og ef nockur seiger nockud til ydar /
þa seiged / ad Herrañ hafe þra þørf /
so mun hañ strax senda þau.
4 Eñ þetta skiede allt saman / ad þad
skyllde fullkomnast / sem sagt er fyrer
spamañeñ/ er seiger:
5 Seiged * doottureñe Zion: sia/ þiñ
Konungur kiemur til þijn hoogvær/ og
rijdur einne øsnu/ꝛ fola einnar under-
okadrar. * Zach 9/9.
6 Eñ læresveinarner geingu i burt/og
giørdu so sem Jesus baud þeim/
7 Og sooktu øsnuna og folañ/og løg-
du sijn klæde a þau / og hañ sette sig
þar uppa.
8 Eñ þeir flestu af foolkenu breiddu
sijn klæde a veigeñ / eñ adrer hiuggu
greiner af trianum / og dreifdu a veig-
eñ.
9 Eñ þad foolked sem gieck undañ og
filgde a epter / * hroopade og sagde:
hosaña þeim Syne Davids / lofadur
vere sa/ sem kiemur i nafne Drottens/
hosaña i upphædum.) * Joh. 12/13. etc
10 Og er hñ foor iñ i Jerusalem/ upp-
vægdest su giørvalla borg / og sagde:
hvør er þesse?
11 Eñ foolked sagde: þad er Jesus sa
spamadur / sa af * Nazareth Gali-
lea. * Joh. 1/45.
12 Og * Jesus gieck iñ i musterid Guds/
og utrak alla þa/sem selldu og keyptu i
musterenu/ og hratt um̃ koll vexlara-
mañañ bordum / og dufna-seliara stool-
um. * Marc. 11/15. etc.
13 Og seiger til þeirra: Þar er * skrif-
ad/ mitt hus skal kallast bæna hus/ eñ
þier

Þier hafed giørt þad ad * * ræningia
bæle. * Es. 56/7. etc * s. Jer. 7/11 etc
14 Og þar geingu blinder og hallter
til hñs i musterenu / og hñ læknade þa.
15 Eñ er þeir yppurstu prestar og
skrifftlærder sau þau furduverk er hañ
giørde / og ad børneñ hroopudu i must-
erenu / og søgdu : hosaña þeim Syne
Davids/urdu þeir reider/
16 Og søgdu til hñs: heyrer þu hvad
þesser seigia? eñ Jesus seiger til þra :
Ja / hafed þier alldrei lesed / ad * af
muñe smæ-barna og briooztmilkinga
hefur þu tilreidt lofgiørdena * Ps. 8/3
17 Og hañ forliet þa / og gieck ut af
borgeñe til Bethania / og dvalde þar.
18 Eñ * er hañ um̃ morguneñ gieck til
borgareñar aptur/ hungrade hañ.
* Marc. 11/12.
19 Og hañ sa eitt fijkiutrie vid veig-
eñ/ og gieck þar ad/og * fañ eckert þar
a / nema bladeñ einasta / og seiger til
þess: (nu)vaxe alldrei meir avøxtur a
þier. Og fijkiu-tried visnade strax.
* Luc. 13, 6/7.
20 Og er lærisveinarner sau þad /
forundrudu þeir sig og søgdu: hvørn-
eñ visnade fijkiu-tried so fliootť?
21 Eñ Jesus svarade / og sagde til
þeirra: sañlega seige eg ydur/ * ef þier
hafed tru og ecke efed/(þa)munu þier
ecke alleina giøra slijkt vid fijkiu-tried/
helldur ef þier z seiged til þessa fialls:
lipt þier upp/ z fleig þier i siooeñ/(þa)
mun þad skie. * c. 17/ 20.
22 Og * allt þad þier bidied um̃ i bæn-
eñe/ef þier trued/(þa) munud þier fa
þad. * Marc. 11/ 24. etc.
23 Og sem * hñ kom i mii stered/gein-
gu til hñs/ i þvi hañ kende/þeir ypp-
urstu prestar ogølldungarner a medal
foolksens/ og søgdu: af hvøriu vallde
giører þu þetta? og hvør hefur gifed
þier þetta valld? * Marc. 11/ 27. etc.
Luc. 20/1.
24 Eñ Jesus svarade og sagde til
þeirra : eg vil og spyria ydur ad einu
orde/ ef þier seiged mier þad/ vil eg og
seigia ydur / af hvøriu vallde eg giø-
re þetta.
25 Skijrn Johañis hvadañ var hun?
af himne/edur af møñum/ eñ þeir hugs-
udu med sialfum sier/ z søgdu: seigium
vier/ af himne / þa seiger hañ til vor :
þvi trudud þier hønum þa ecke?
26 Eñ seigium vier/ af møñum/ ott-
umst vier fyrer foolkenu / þvi þeir *
hielldu aller Johañem fyrer eirn spa-
mañ. * c. 4/ 5.
27 Og þeir svørudu Jesu og søgdu :
vier vitum(þad)ecke. Þa sagde hañ til
þeirra : so seige eg ydur ecke helldur /
af hvada vallde eg giøre þetta.
28 Eñ hvad lijst ydur? eirn madur haf-
de tvo sonu/ og hñ gieck til hins fyrsta/
og sagde: sonur/ far burt/erfida i dag i
mijnum vijngarde.
29 Eñ hañ svarade og sagde : eg vil
ecke. Eñ þar epter angrade hañ þad/
og hañ gieck i burt.
30 Og hñ gieck til þess añars/ z sagde
eins. Eñ hñ svarade/ og sagde: herra/
ja/ og gieck ecke burt.
31 Hvør af þm̃ tveimur giørde fødur-
sens vilia? þeir seigia til hañs: hiñ fyr-
ste. Jesus seiger til þeirra: sañlega
seige eg ydur / ad * tollheimtarar og
skiækiur ganga undañ ydur iñ i rijke
Guds. * Luc. 3. 12/ 13.
32 Þvi Johañes kom til ydar a riett-
lætesens veige / og þier trudud hønum
ecke/ eñ tollheimtarar og skiækiur trudu
hønũ/ Eñ jafnvel þoot þier(þ) sæud/
þa angrade ydur þad(samt)ecke þar ept-
er/so þier kyñud ad hafa truad hønum.
33 Heyred eina adra epterlijking. Eirn
madur var eirn * hussboonde/sem hafde
plantad eirn vijngard / og giort eina
girding þar um̃ kring / og grafed eina
vijn-þrugu þar i/ og bygt eirn turn/ og
feck hañ vijngardsmøñum/og ferdadest
i øñur lønd. * Marc. 12/ 1. etc.
34 Eñ er avaxtar tijmeñ kom / sende
hañ sijna þioona til vijngardsmañaña/
til ad medtaka hañs avexte.
35 Þa tooku vijngards meñerner hañs
þioona

eitt þorp Samverſkra/ ad tilreida høn-
um (herberge.) * Joh. 4. 4/ 9.
53 Og þeir medtooku hañ ecke/ af þvi
hñs aaſiaan var (ſnueñ til) ad ferdaſt
til Jeruſalem.
54 Eñ þegar þad ſaau hñs læreſvein-
ar Jakobus og Johañes / ſøgdu þeir:
Herra/ villtu/ad vier ſkulum ſeigia/ ad
elldur ſkule falla af himne/og fortæra
þeim/eins z * Elias gierde?
* 2. Kong. 1. 10/ 12.
55 Eñ hañ ſnere ſier vid og ſtraffade
þa/og ſagde: þier vitedecke hvørs anda
þier erud.
56 Þvi * Son Mañſens er ecke kom-
eñ/ mañaña ſaalū ad fyrerfara/ helldur
ad frelſa. Og þr geingu til eins añars
þorps. * Joh. 3/17 c. 12/ 47.
57 Eñ þad ſkiede/er þeir geingu a veg
enū / ſagde eirn til hñs: Herra / eg vil
filgia þier epter/ hvørt ſem þu fer.
* Matth. 8/ 19.
58. Og Jeſus ſagde til hñs: refar hafa
grene / z fuglar himenſens hreidur/ eñ
Son Mañſens hefur ecke / hvar hañ
faae ſijnu høfde adhallad.
59 Eñ hañ ſagde til eins añars: filg
þu mier epter. Eñ hñ ſagde: * Herra/
leif mier/ ad eg gaange fyrſt i burt / ad
greftra fødur miñ. * Matth. 8/ 21.
60 Eñ * Jeſus ſagde til hñs: laat þa
daudu greftra ſijna enu daudu / eñ þu
gack burt/ og boda rijke Guds.
* Matth. 8/ 22.
61 Eñ eirn añar ſagde og: Herra / eg
vil filgia þier epter / eñ leif mier fyrſt
ad kvedia þa/ ſm̄ heyra til mijnu huſe.
62 Eñ Jeſus ſagde til hñs: eingeñ /
ſem leggur ſijna hønd a ploogeñ/ z lijt-
ur til þeirra hluta/ſem eru til baka/ er
hæfur til Guds rijkes.

## X. Capitule.

### Chriſtur utſender þa Siøtiju/ z ſeig er ſijna Læreſveina ſæla.

Eñ þar epter tilſkickade z Drott
eñ adra ſiøtiju/og ſende þa ut/
tvo til ſamans fyrer ſiñe aug-
ſijn/til hvørrar borgar og ſtad-
ar/ ſem hñ villde ſiaalfur koma til.
2 Hvar fyrer hñ ſagde til þra: * korn-
ſkierañ er ad ſøñu mikel / eñ verkameñ-
erner faaer/ ** Bidied þar fyrer Herr-
añ kornſkieruñar/ ad hñ utſende verka-
meñ i ſijna kornſkieru. * Joh. 4/ 35.
** Matth. 9. 37/ 38.
3 Gaanged burt/ ſiaa / * eg ſende ydur/
ſem lømb / midt a medal ulfa.
* Matth. 10/ 16.
4 * Bered aungvañ pung/ei teſku/og
ei ſkoo/ z heilſed aungvum a veigenum.
* Matth. 10/ 9. etc.
5 J hvørt þad hus ſem þier iñkomed/
þa ſeiged fyrſt: fridur ſie med þeſſu
huſe.
6 Og ef þar er eirn ſonur fridarens /
þa ſkal ydar fridur hvijla yfer honum /
Eñ ſie þad ecke / ſkal hñ hverfa til yd-
ar aptur.
7 Eñ bijded i þvi ſama huſe / eted og
drecked / hvad af þeim (verdur fram-
bored/) þvi * verdur er verkamadureñ
ſijns verdkaups/ Þier ſkulud ecke gaanga
hus af huſe. * 5. Moſ. 24/ 14.
Matth. 10/ 10. 1. Cor. 9. 14. 1. Tim 5/18.
8 Og * iñ i hvøria borg er þier komed/
z þeir medtaka ydur / eted hvad fyrer
ydur verdur framſett. * Matth. 10/11.
9 Og lækned þa ſiuku / ſem þar eru /
og ſeiged þeim: rijke Guds er komed
naalægt ydur.
10 Eñ iñ i hvøria borg er þier kom-
ed/ og þeir medtaka ydur ecke / gaanged
ut a heñar gøtur/og ſeiged:
11 Eirneñ þad * dupt/ ſm̄ lodde a oſſ/
ur ydvarre borg/ burtþurkū vier ſaker
ydar/ þo ſkulud þier vita/ad rijke Guds
var ydur naalægt. * Matth. 10/ 14.
12 Eñ eg ſeige ydur: þad * Sodomitum
mun a þeim deige gaanga bærelegar eñ
þeirre borg. * Matth. 11/ 24.
13 Vei þier * Chorazin/vei þier Beth
ſaida / þvi ef i Tyro og Sidon være
ſoddañ kraptaverk ſkied / ſem eru ſkied
hiaa ydur mundu þær hafa fyrer laun-
gu i ſeck og øſku ſeted/ og giørt ydran.
* Matth. 11/ 21.
14 Þo mun þad Tyro og Sidon bære-

legar

legar gønga a doomenum/ eñ ydur.
15 Og þu Capernaum/ sem ert til him
ens upphafeñ / þier nær verda nidur·
hrunded allt til helvijtes.
16 * Hvør sem ydur heyrer / heyrer
mig/ og hvør sm̄ ydur forsmaaer / hañ
forsmaaer mig / eñ hvør sem mig for·
smaaer/ hñ forsmaaer þañ/ sem mig ut·
sende. * Matth. 10/40. Joh. 13/20.
27 Eñ þeir sietiju komu aptur med
glede/ og søgdu: Herra/ dioflarner eru
oss og undergiefner i þijnu nafne.
18 Eñ hañ sagde til þeirra: eg sa
* satanam so sem ellding af himne
falla. * Openb. 12. 8/ 9.
19 Sia/ eg gief ydur magt ad * foot·
troda høggorma z scorpiona / og yfer
øllum krapte ovinarens/ og eckert skal
ydur granda. * Ps. 91/ 13.
20 Þo skulud þier ecke glediast þar af/
ad andarner eru ydur undergiefner/ helld
ur gledied ydur framar/ ad * ydar nøfn
eru skrifud a himnū. * Phil. 4/3. etc.
21 A þre somu stundu * gladdest Je·
sus i anda/ z sagde: eg prijsa þig Fad·
er/ Drottiñ himens og jardar/ ad þu
hefr huled þssa hlute þ spekingū z vit·
ringū / z openberad þa smælingiū / ja
Fader/ þvi þ var so poknanlegt þ þi·
*. * Matth. 11/ 25
22 * Aller hluter eru mier i hendur
feingner af Fødur mijnū / og * eingeñ
veit hvør Sonureñ er/ nema Fadereñ/
og hvør Fadereñ er/ nema Sonureñ/ og
hvørtū Sonureñ vill þad opeñbera.
* Matth. 11/ 27. Joh. 1/ 18. C. 6/ 46.

(Evang. XIII. S. D. ept. Trinit.)

23 Og hañ snere sier til sina læresvei·
na/ z sagde sier i lage: * sæl eru
þau augu / sem sia / þad þier siaed.
* Matth. 13/ 16.
24 Þvi eg seige ydur/ ad marger spa·
meñ z kongar villdu sia / þad þier sia·
ed/ z hafa þad ecke sied / og heyra þad
þier heyred/ og hafa þad ecke heyrt.
25 Og sia / eirn * løgvitringur stood
upp/ og freistade hans/ z sagde: Meist·
are/ hvad skal eg giøra / ad eg kuñe ad
erfa eilijft lijf? * Matth. 22/ 35.
26 Eñ hñ sagde til hñs: hvad er skrif
ad i løgmaalenu/ hvørneñ les þu?
27 Eñ hañ svarade/ og sagde: elska *
skalltu Drottiñ Gud þiñ/ af øllu hiar
ta þijnu/ z af allre saalu þiñe/ og af øll
um mætte þijnum/ og af øllu hugskote
þijnu/ og * * þiñ naunga sm̄ þig sialf·
añ. * 5. Mos. 6/ 5. ** 3. Mos. 19/ 18.
Marc. 12. 30/ 31.
28 Þa sagde hañ til hñs: þu svarader
riett/ * giør þad/ og muntu lifa.
* 3. Mos. 18/ 5. Ezech. 20/ 11.
29 Eñ hñ villde rietklæta sialfañ sig/
og sagde til Jesu: og hvør er þa miñ
* naunge? * 2. Mos. 11/ 2.
30 Eñ Jesus svarade/ z sagde: madur
nockur foor ofañ fra Jerusalem til Je
richo/ og fiell a medal ræningia/ hvør·
ier ed klædflettu hñ/ og lemstrudu hañ
saarum/ geingu burt/ og lietu hañ epter
liggia haalfdaudañ.
31 Eñ þad skiede af hendingu/ ad prest
ur nockur foor ofañ þañ sama veg / z
þegar hñ sa hañ/ gieck hñ fram hia.
32 Somuleides z Leviteñ / þa hñ var
nærre þeim stad/ kom hñ og sa (hañ/)
og gieck fram hia.
33 Eñ eirn Samaritan ferdadest um̄/
z kom til hñs / og sem hñ sa hañ / *
hrærdest hañ af medaumkan.
* Ezech. 16/ 6.
34 Og gieck ad hønū/ og batt um̄ saar
hañs / og hellte þar i oleo og vijne/ og
liet hañ uppa siñ eigeñ eyk / z flutte til
herberges/ og gaf giætur ad honum.
35 Og añars dags/ þa hñ reiste burt/
took hñ upp tvo peninga / z fieck hus·
boondanum / og sagde til hñs: haf þu
gaat a hønū/ z ef þu kostar meiru til /
vil eg/ nær eg kiem aptur / betala þier.
36 Hvør þessara þriggia sijnest þier
ad hafa vered hñs naunge sem falleñ
var a medal ræningia?
37 Eñ hñ sagde: sa sem giørde myskun
semena vid hñ. Hvar fyrer Jesus sag·
de til hñs: far/ z giør þu somuleides.)
38 Eñ þad skiede/ þa þeir ferdudust /
gieck

gieck hn̄ inn i eitt þorp/ enn þar var ein
* kuinna/ sem hiet Martha/ hun medtook
hn̄ i sitt hus. * Joh. 11/ 1. c. 12. 2/ 3.
39 Og atte eina systur / er hiet Ma-
ria/ hun * sette sig ogso vid fætur Je-
su/ og heyrde hn̄s rædu. * P. G. 22/ 3.
40 Enn Martha giørde sier hyngad ꝛ
þangad omak med mikelle þionkan /
Þa gieck hun ad/ ꝛ sagde: Herra/ hyrd-
er þu eckert um̄ / ad syster myn læt-
ur mig einsamla þiena ꝛ seig henne þo/ ad
hun take til hende med mier.
41 Enn Jesus svarade/ og sagde til henn
ar: Martha/ Martha/ þu ert æhyggiu
full/ ꝛ mæder þig med morgu/ enn * eitt
er naudsynlegt / So hefur Maria þann
gooda partenn utvaled/ ſ ecke skal takast
fra henne. * Ps. 27/ 4. Matth. 6/ 33.

XI. Capitule.

Christur kienner sijnum Læresveinum ad
bidia/ ꝛ hroopar vei yfer Phariseunum.

Og þad skiede/ þa hn̄ var i nock
rum stad/ ꝛ badst fyrer/ ad þa
hn̄ liet af / sagde eirn af hn̄s
læresveinum til hans : Herra /
kienn þu oss ad bidia / eins og Johannes
kiende sijnum læresveinum.
2 Þa sagde hann til þeirra : nær þier
bidied/ þa * seiged: Fader vor/ þu sem
ert a himnum/ helgest þitt nafn / Kome
þitt ryke/ Verde þinn vilie/ sem a him-
ne / so og a jørdu: * Matth. 6/ 9.
3 Vort daglegt braud gief oss hvorn
dag.
4 Og fyrergief oss synder vorar / þvi
vier ꝛ fyrergiefum sierhvørium sem oss er
skylldugur/ Og innleid oss ecke i freistne/
helldur frelsa oss fra þvi vonda.
5 Og hann sagde til þra: hvør af ydur/
sem hefde eirn vin / og villde gannga til
hn̄s um̄ midnætte / ꝛ seigia til hans :
kiære/ laana mier þriu braud.
6 Med þvi minn vinur er komenn til
myn af veige / og eg hefe eckert ad setia
fyrer hann
7 Og hann sem innefyrer er/ svarade og
segde: giør mier ecke omak / dyr eru nu
luktar/ ꝛ myn (smaa) born eru hia mier
i (sængur-) herbergenu/ eg giet ecke upp
staded ad giefa þier.
8 Eg seige ydur : ꝛ ef hn̄ ecke stendur
upp/ og giefur hønum/ af þvi hn̄ er hn̄s
vinur/ so stendur hn̄ þo upp fyrer sak-
er hn̄s * oskammfeilne/ og ann hønum so
margra/ sem hn̄ hefur þørf. * c. 18/ 5.
9 Og eg seige ydur: * bidied / og mun
ydur giefast/ leited/ og þier munud finna/
klapped uppa / og ydur mun upplæked
verda. * Marc. 11/ 24. etc.
10 Þvi hvør sem bidur/ hn̄ medtekur /
ꝛ hvør sem leitar/ hn̄ finnur/ ꝛ fyrer þm̄/
sem klappar uppa/ mun upploked verda.
11 Enn * bæde nockur sonur sinn fødur
a medal ydar um̄ eitt braud/ munde hn̄
giefa hønum eirn stein? og ef (hann bæde)
um̄ eirn fisk/ munde hn̄ fyrer fiskenn gie-
fa hønum eirn hoggorm? * Matth. 7/ 9.
12 Edur ꝛ/ ef hn̄ bæde hn̄ um̄ eitt egg/
munde hn̄ giefa hønum eirn scorpion.
13 Med þvi þier þa / sem erud vonder/
vited ad giefa goodar gæfur bornum ydo-
ar / hvad miklu framar mun Faderenn/
sem er af himne/ giefa þeim Heilagann
Anda/ sem hn̄ bidia.
(Evang. III. S. D. i Føstu/ Oculi.)
14 Og * hn̄ rak eirn diøful ut/ og hn̄
var dumbe/ enn þad skiede/ þegar
diøfullenn var utfarenn/ talade hinn mals-
lause/ og foolked undradest.
* Matth. 12/ 22.
15 Enn nockrer af þm̄ søgdu : * fyrer
beelzebub høfdingia diøflanna utrekur
hann diøflana. * Matth. 12/ 24. etc.
16 Enn hiner adrer freistudu (hans/) og
* leitudu af hønum teikns af himne.
* Matth. 16/ 4. etc.
17 Enn er hn̄ fornam þeirra hugarer/
sagde hn̄ til þeirra: * hvort ryke sem i
sialfu sier verdur sundurþyckt / verdur
eydelagt / og eitt hus fellur yfer ann-
ad. * Matth. 12/ 25. Marc. 3/ 24.
18 Sie þa satan og i sialfu sier sund-
urþyckur / hvørnenn man hans ryke þa
standast ? af þvi þier seiged mig fyrer
beelzebub ad utreka diøflana.
9 Og ef eg fyrer beelzebub utrek diøfl
ana/

ana / fyrer hvorn utreka þa ydar syn-
er þa? þar fyrer skulu þeir verda ydrer
doomendur.
20 Eñ ef eg * fyrer fingur Guds ut-
rek dioflana/ saññlega er þa Guds ryke
komed til ydar. * 2. Mos. 8/ 19.
21 Nær eirn sterkur hervopnadur vard
veiter syna hóll/ er allt i fride/ s hñ a.
22 Eñ * nær eirn hoñu sterkare kiem-
ur uppa/ og yfervinnur hñ/ tekur hañ øll
hñs herlÿge a hvør hñ treyste/ z skipter
hñs herfange. * Col. 2/ 15.
23 Hvør sem * ecke er med mier / er i
moote mier / Og hvør sm ecke saman-
safnar med mier/ sundurdreifer.
* Matth. 12/ 30.
24 Nær * sa ohreine ande fer ut af
mañenum / reikar hñ um þurra stade /
leitar ad hvyld og fiñur ecke Þa seiger
hñ : eg vil hverfa aptur i mitt hus /
hvadañ eg foor ut. * Matth. 12/ 43.
25 Og nær hñ kiemur / fiñur hñ þad
soopad og prydt.
26 Þa fer hañ burt/ og tekur siø adra
anda til syn/ sier sialfum verre/ og nær
þeir eru iñkomner/ bua þr þar/ z verd
ut þad sÿdasta * þess sama mañs verra
hinu fyrra. * Joh. 5/ 14.
27 Eñ þad skiede/ þa hñ talade þetta/
upphoof kona nockur utaf foolkenu sÿ-
na raust/ og sagde til hans: sæll er sa
kvidur / sem bar þig/ z þau brioost/ sem
þu saugst.
28 Eñ hñ sagde: Ja/ sæler eru þeir/ sm
heyra ord Guds / z vardveita þad.)
29 Eñ er foolked flyktest ad/ took hañ
ad seigia: þesse kynslood er vond/ hun
* leitar teikns/ z heñe skal eckert teikn
giefast / nema teikn Jonæ spamañs.
* Matth. 16. 4. etc.
30 Þvi eins sem Jonas var eitt teikn
þm Ninivitum / so mun z Son Mañ-
sens verda kynslood þessare.
31 * Drottningeñ af sudre mun upp-
rysa fyrer doomenum med moñu þessar
ar kynsloodar/ z mun fordæma þa/ af
þvi hun kom fra endemerkum jardar-
eñar/ til ad heyra speke Salomons/
Og sia/ hier er meir eñ Salomon.
*1 Kong. 10/1. 2. Kron. 9/1. Matth 12/42.
32 * Þeir meñ af Ninive munu upp
rysa fyrer doomenu med þessare kyn-
slood/ z fordæma hana/ þvi þeir sneru
sier vid predikun Jonæ/ og sia / hier er
meir eñ Jonas. * Jon. 3/ 5.
Matth. 12/41. etc.
33 Eingeñ * kveiker liioosed/ z setur þ
i leine/ ei helldr undr eirn mæleask/ helld
ur a lioosastiakañ/ so ad þeir/ sem gan
ga iñ/ siae byrtuna. * Marc. 4/21. etc.
34 * Lioos lÿkamans er augad/ Þar
fyrer nær þitt auga er einfallt/ er allur
þiñ lÿkame biartur / eñ sie þad vondt/
er z þiñ lÿkame dymur. * Matth. 6/22
35 Sio sia til/ ad þad lioos/ sem i þier
er/ sie ecke myrkur.
36 Hvar fyrer/ ef þiñ lÿkame er allur
biartur / so ad eingeñ partur þar af er
dymur/ þa blyfur hañ allur biartur/ so
sem nær lioosed med leiptraneñe upp-
lyser þig.
37 Eñ þa hñ var ad tala/ bad nockur
pharisæare hañ / ad hañ æte middags
verd hia sier/ z hñ gieck iñ/ og sette sig
til bords.
38 Eñ er pharisæareñ sa þad / und-
radest hañ/ * ad hñ hefde ecke þveiged
sier fyrer maaltÿdena. * Matth. 15/2.
39 Þa sagde Drotteñ til hñs : * Þier
pharisæarar hallded nu hid ytra bikur-
um z fotum hreinu/ eñ þad/ sem er hid
iñra i ydur / er fullt af rane og illsku.
* C. 18. 11/12. Matth. 15/3. C. 23/ 25.
40 Þier darar/ er eige so/ ad sa ed giør
de hid ytra/ hñ giørde eirneñ hid iñra?
41 * Giefed þo ølmusu af þvi / sem
er iñvortes/ og sia/ aller hluter eru yd-
ur hreiner. * Es. 58/ 7.
42 Eñ vei ydur pharisæis/ ad * þier
tÿunded myntu og rutu/ og allslags mat
ar-jurter/ og * * sneided hia doomenum
og kiærleika Guds. Þetta byriade ad
giøra/ og hitt ecke ad forsooma.
* Matth. 23/ 23. ** 1. Sam. 15/ 22.
43 Vei ydr pharisæis/ * ad þier elsked
hid ypparsta sæte i samkundu husum/
og

og kvediur a torgum. * Matth. 23/6.
Marc. 12/30. Luc. 20/46.
44 Vei ydur skriftlærdū og phariseis/
þier hræsnarar/þviad * þier erud sem
þra (daudu) oþeckiañlegar grafer / og
meñ sem ganga þar yfer/ þeckia þad
ecke. * Matth. 23/27.
45 Eñ þa svarade eirn af logspeking
unū/ ꝛ sagde til hās: Meistare/med þvi
þu seiger slijkt/ smanar þu ogso oss.
46 Enn hañ sagde: vei yd: ꝛ so logspeking
um/ þvi * þier þijnged meñ mz byrdū/s
þr torveldlega geta bored/ ꝛ sialfer þier
mz eirnū af ydar fijngrū snerted þær byrd
er ecke. * Matth. 23/4. P.G. 15/10.
47 Vei ydur / þvi þier * uppbygged
grafer spamañaña/eñ fedur ydar lijf-
letu þa. * Matth. 23/29.
48 So vitned þier / ꝛ samþicked verk
ydra fedra / þvi þeir aflijfudu þa ad
søñu/eñ þier uppbygged þra grafer.
49 Þar fyrer sagde og spekeñ Guds: * eg
vil senda til þra spamueñ ꝛ postula/ og
þeir munu lijflata (nockra) af þeim/og
offækia. * Matth. 10/16.
50 Uppa þad ad krefiest blood allra
spamaña sem er uthellt/fra grundvall
an veralldareñar / af þessare kynslood/
51 Fra * bloode Abels/allt til * * bloods
Zachariæ/ sem var yferfalleñ i millum
altaresens ꝛ hussens/Ja eg seige ydur:
þad skal krefiast af þessare kynslood.
* 1. Mos. 4/ 8/etc. * * Matth. 23/ 35/ etc.
52 Vei ydur logspekingum/þviad þier
hafed teked likel vitskuñar/* Þier kom-
ud ecke þar iñ / og hømludud þeim/sem
vilia koma þar iñ. * Matth. 23/13.
53 Eñ þegar hañ sagde þesse ord til
þra / tooku þeir skriftlærdu ꝛ pharisæi
ad giefa sig akaflega epter honū / og
ad veida ordeñ ut af hans muñe um
marga hlute.
54 Og þeir * tooku vara a honum/ og
leitudust vid/ef þr kyñu ad veida nock-
ud af hās muñe/ so ad þeir kyñu ad a-
klaga hañ. * Spek. 2/12.

XII. Capitule.

Christur Raadleggur ad vara sig fyrer
Phariseaña Lærdoome.

I þvi folked hafde safnast hoop
um saman i mørgū þusundū /
so ad þeir traadu hvorier ad-
ra under/hoof hañ ad segia til
siña læresveina: fyrst og fremst * taked
ydur vara fyrer surdeige phariseaña /
sem er hræsne * Matth. 16/6. etc.
2 Þvi * eckert er huled/ sem ecke skule
openberast/ꝛ heimuglegt/sem madur sku
le ecke faa ad vita. * Matth. 10/26. etc
3 Fyrer þvi þr hluter/hvoria þier seig
ed i myrkre/munu i lioosenu heyrast/og
hvad þier hvijsled i eyra i herbergiunū /
mun predikast a þekiunum.
4 Eñ eg seige ydur/ vinum mijnū: *
ottest ecke fyrer þeim/sem aflijfa lijkam
añ/ ꝛ epter þad faa þeir ecke meira adgiort.
* Matth. 10/28.
5 Eñ eg vil sijna ydur / fyrer hverium
þier skulud hrædast/Hrædest fyrer hon
um/sem epter þad hañ hefur lijflated/
þa hefur hañ magt ad kasta i helvijte /
Ja eg seige ydur: ottest fyrer honum.
6 Seliast ecke fim titlingar fyrer tvo
penninga? og ecke er einum af þeim gleimt
fyrer Gude.
7 So eru og ydar høfud haar øll tal-
eñ / þar fyrer ottest ecke / þier erud
morgum titlingum dijrmætare.
8 Eñ eg seige ydur: * hver sa/sem med
kieñer mig fyrer møñunū/ þañ mun og
Son Mañsens medkieña fyrer einglum
Guds. * Matth. 10/32.
9 Og * hver mier afneytar fyrer møñ-
unum / honū mun afneytad verda fyrer
einglum Guds. * 2. Tim. 2/12.
10 Og hver sa / * sem talar eitt ord i
moote Mañsens Syne/ honū mun þad
fyrergiefast/eñ hver sem talar hædug-
lega i moote þeim Heilaga Anda/honum
mun þad ecke fyrergiefast.
* Matth. 12/31. etc.
11 Eñ nær * þr leida ydur fyrer samkund
ur ꝛ yfervalld/og þa megtugu/þa verid
ecke hugsiuker um/ hverneñ/ eda hveriu
þier skulud svara fyrer ydur / eda hvad
þier skulud seigia. * Marc. 13/11. etc.

12 Þvi sa Heilage Ande mun kienna ydur a þeirre sømu stundu/ þad hlute/ sem ydur byriar ad tala.
13 Þa sagde eirn af foolkenu til hans: Meistare/ seig broodur mijnum/ ad hann skipte vid mig arfe.
14 Enn hann sagde til hans: Þu madur/ hver hefur sett mig til doomara eda skiptamanns yfer yckur?
15 Og hann sagde til þra: siaed til / og vared ydur * vid ágyrne/ þvi ** einkes lijf er innefaled i hans velgeingne / i þvi hann hefur noog. * 1. Tim. 5/ 10.
** Matth. 4/ 4.
16 Enn hann talade eina epterlijking til þra/ og sagde: Þar var eirn rijkur madur/ hvørs land hafde vered frioofsamt.
17 Og hann hugsade med siálfum sier / og sagde: hvad skal eg tilgiøra? eg hefe ecke þad / hvar eg kunne i safna ávøxtum mijnum.
18 Og hann sagde: þetta vil eg giøra / eg vil niđurrijfa mijnar kornhløđur/ og uppbyggia stærre/ og eg vil safna þangad øllu þvi/ sem mier hefur vaxed / og audæfum mijnum.
19 Og eg vil seigia til sálar minnar: * sála/ þu hefur mikel giæde til forda i mørg aar / hvijl þig / et / dreck/ vertu glød. * Syr. 11/ 23.
20 Enn Gud sagde til hans: þu dááre/ a þessare nottu krefia þeir þinnar sálar af þier / enn þad sem þu hefur tilreidt / hvørs verdur þad þa?
21 So er sá/ sem safnar sier fiársioodum/ og er ecke i Gude rijkur.
22 Enn hann sagde til sinna læresveina: Þar fyrer seige eg ydur / * syrged ecke þ ydru lijfe/ hvad þier skulud eta/ ecke helldur fyrer ydar lijkama /hvørtu þier skuled klædast. * Matth. 6/ 25. etc.
23 Lijfed er meir enn fædann/ og lijkamenn helldur enn klædnadurenn.
24 Hygged ad * hrøfnunum / þeir sá ecke / og uppskiera ecke/ þeir hafa ecke kiallara/ og ei kornhløđu/ og Gud fæder þá (samt/) Hvad miklu erud þier ædre fuglunum. * Ps. 147/ 9.
25 Enn hvør * er a medal ydar / sem med sinne hugsyke kunne ad auka vid sijna stærd eirnrar alnar (leingd?)
* Matth. 6/ 27.
26 Ef þier orked þa ecke hinu minsta / hvi syrged þier fyrer hinu ødru?
27 Hygged ad liliunum / hvørnenn þær vaxa/ þær vinna ecke nie spinna / enn eg seige ydur / ad ecke jafnvel Salomon i allre sinne dijrd/ var skrijddur / so sem ein af þeim.
28 Enn ef Gud skrijder þa so grased/ sem i dag stendur a akre/ og a morgun verdur i ofn kastad/ hvad miklu framar ydur/ þier lijteltruader?
29 Þar fyrer hirded ecke og um hvad þier skuled eta / eda hvad þier skuled drecka/ og vered ecke hvarflande.
30 Þvi * epter øllu þessu stunda heidnar þiooder i verølldunne / enn ydar fader veit/ ad þier hafed þess þørf.
* Matth/ 6/ 32
31 Leited helldur Guds rijkes/ og þetta allt mun ydur tilleggiast.
32 Ottastu ecke / þu lijtel hiørd / þvi þad er þocknanlegt * Fødur ydar ad giefa ydur rijked. * Matth. 11/ 26.
33 Selied hvad þier eiged / og giefed ølmusu. Giøred ydur punga/ sem ecke elldast / * fiár-siood / sem alldrei mijn kar a himnum / ad hvørium eingenn þioofur kiemst/ og eingenn mølur fordiarfar.
* Matth. 6/ 20.
34 Þvi hvar ydar fiársioodur er/ þar mun og ydar hiarta vera.
35 Ydar * lendar sieu umgirdtar/ og ** ydar lioos logande. * 1. Pet. 1/ 13.
** Matth. 25/ 1. etc.
36 Og vered lijker þeim mønnum/ er bijda epter herra sijnum/ nær hann mune koma fra brullaupenu/ uppa þad/ nær hann kiæme/ og klappade uppa/ ad þeir þa strax skylldu luka upp fyrer honum.
37 Sæler eru þeir þioonar / sem herrann finnur vakande/ nær hann kiemur. Sannlega seige eg ydur/ ad hann * mun uppstitta sig/ og setia þa til bords/ og gánga fyrer og þioona þeim. * Joh. 13/ 4.
38 Og ef hann kiemur a annare vakt/ og

kiemur a þeirre þridiu vakt / og finur
(þad) eins/ sæler eru þeir þioonar.
39 Enn þetta skulu þier vita/ ad * ef
hussboondenn vissi / a hvørre stundu ad
þioofurenn kiæmi/vekte hann/og liete ecke
briootast i sitt hus. * 1. Thess. 5/2.etc.
40 Þar fyrer * vered og reidubuner/þvi
a þeirre stund sem þier ecke ætled / mun
SonMannsens koma. * Matth. 24/44
41 Enn Petur sagde til hans : Herra /
seiger þu til vor þessa epterlijking/edur
og til allra?
42 Enn Drottenn sagde : * hvør er þa
sa true og forsiale forsioonar mann/sem
Herrann kann ad setia yfer sitt heimile /
ad giefa þeim i tijma ækvedenn verd?
* Matth. 24/ 45.
43 Sæll er sa þioon / hvørn hans
herra finnur/þa hann kiemur/so giorande.
44 Sannlega seige eg ydur / ad hann mun
setia hann yfer allt sitt gots.
45 Enn ef sa same þioon seiger i hiar
ta sijnu: minn herra dvelur ad koma/Og
tekur til ad sla þionustu pillta og stulk-
ur/og ad eta og drecka/og verda druckenn/
46 Þa mun þess sama þioons herra
koma a þeim deige / sem hann ecke vænter /
og a þeirre stundu/ sem hann ecke veit/og
hoggva hann i sundur / og giefa hønum
hans part med þeim otruu.
47 Enn * sa þioon/sem veit vilia herra
sijns/og tilbioo sig ecke/og giørde ecke ept
er hans vilia/ mun faa mørg høgg.
* Jak. 4/ 17.
48 Enn sa/sem þad ecke veit/enn hefur
þo giort þad/ ad hann er høgga verdug-
ur/mun fa fa høgg. Enn hvørium mik-
ed er veitt/af hønum mun madur mik-
ed heimta/og hvørium sem fyrer miked er
truad/af hønum mun madur meir krefia.
49 Eg er komenn/ad * kasta ellde a jørd-
ena / og hvad villda eg helldur / enn hann
brinne nu þegar! * Matth. 10/ 34.
50 Enn eg hlijt * ad skijrast med eirne
skijrn/ og hvørsu þreingest eg / þar til
þad verdur fullkomnad!
* Matth. 20/ 22. Marc. 10/38.
51 Meine þier/ad eg sie komenn ad giø-
ra frid a jørdu? ney/seige eg ydur/helld
ur tvijdrægne.
52 Þvi hier epter munu fimm verda i
einu huse sundurþycker / þrijr i moote
tveimur/ og tveir i moote þremur.
53 Eirn * fader mun verda sundurþyck
ur i giegn synenum/og sonurenn i giegn fød
urnum/ Ein mooder i giegn doottirenne/
og ein doottir i giegn moodurenne/ Eins
hussboonda mooder i giegn hennar sonar
konu / og sonarkonann i giegn moodur
boonda sijns. * Mich. 7/ 6.
54 Enn hann sagde og til foolksens : nær
* þier siaed skij uppgangna i vestre /
seiged þier strax : þar kiemur regn/ og
þad skiedur so. * Matth. 16/ 2.
55 Og nær þier siaed sunnann vind blaa-
sa / seiged þier : þad verdur heitt / og
þad skiedur.
56 Þier hræsnarar/ ásijnd himensens
og jardarennar kunned þier ad proofa / enn
þvi proofed þier ecke þennann tijma ?
57 Enn hvar fyrer dæme þier og ecke af
ydur sialfum/ hvad riettvijst er?
58 Þvi * ef þu geingur med þijnum moot
stodumanne fyrer yfervallded / þa kost-
giæfdu a veigenum/ ad þu verder kvittur
vid hann/uppa þad hann drage þig ecke fyr
er doomarann/og doomarenn afhende þig
bødlenum/ og bødullenn kaste þier i fang
else. * Ordsk. 25/8. Matth. 5/ 25.
59 Eg seige þier/ þu munt ecke kom-
ast ut þadann / fyrr enn þu betalar hid
sijdasta skarf.

## XIII. Capitule.

### Christur áminner til Ydrunar og Abneitunar sialfs sijns.

Enn a þeim sama tijma / voru
nockrer nærstadder / sem kunn-
giørdu hønum fra þeim Galilæ-
isku / hvørra bloode Pilatus
hafde blandad vid þra foorner.
2 Og Jesus svarade og sagde til þra :
meined þier/ad þeir er Galilæisker være
framar øllum Galilæis synduger / af
þvi þr lidu þvilijkt?
3 Nei/seige eg ydur/ enn ef * þier ecke
giøred

giøred ydran/skulu þier aller eins fyr-
erfarast. * Ps. 7/ 13.
4 Eda þeir atian/ a hvøria turninn i
Silo fiell / z drap þa/meine þier ad þr
hafe sakader vered framar øllum moñ-
um/ sm̃ bua i Jerusalem ?
5 Ney/ seige eg ydur/eñ ef þier giøred
ecke ydran / skulu þier aller eins fyrer-
farast.
6 Eñ hañ sagde þessa epterlijking:
nockur hafde eitt*fijkiutrie i sijnu vijn
garde plantad/ og hañ kom/ og leitade
avaxtar a þvi/og fañ ecke.
* Luc. 21/ 29.
7 Þa sagde hañ til vijngardsmañsens:
sia/ nu i þriu aar er eg komeñ/z leitade
avaxtar a þessu fijkiutrie/ z fiñ ecke /
høgg þad af / hvar fyrer hindrar þad
jordena?
8 Eñ hañ svarade/og seiger til hans:
Herra/lofa þvi ad standa eñ þetta aar/
þar til eg gref um̃ þad / og læt ad þvi
myke/
9 Ef þad villde þa avøxt bera / Eñ
ef ecke/ høgg þad sijdañ af.
10 Eñ hañ kiende i einu af samkundu
husunum a sabbatunum
11 Og sia/þar var ein kviña/ sm̃ hafft
hafde eirn krankleiks anda i atian aar/
og hun var biug/z kuñe øngvañveigeñ
ad lijta upp.
12 Eñ þegar Jesus sa hana/ kallade
hañ (a hana) z sagde til heñar: kviña/
þu ert frij af þijnu veikleika.
13 Og*hñ lagde hendur yfer hana/og
strax riette hun sig upp / og prijsade
Gud. * Marc. 7/ 32.
14 Þa svarade yfermadur samkundu-
hussens/z þicktest vid (þad/)ad Jesus
læknade a sabbatenũ/z sagde til fool-
sens: þar eru sex dagar/a hvørium byr
iat ad vinna / komed þar fyrer a þeim
sømu / og lated ydur lækna / og ecke a
sabbats deige.
15 Þar fyrer svarade Drottiñ hønum/
og sagde: þu hræsnare / * leyser eige
hvør ydar a sabbatenum siñ uxa edur
asna fra stallenũ/ z leider til vatns ?
* 2. Mos. 23/ 5.
16 Eñ byrlade ecke þessare/ sem er A-
brahams dotter / hvørra satan hafde
bunded / sia i atian aar / ad leisast af
þessu bande a sabbats deige?
17 Og sem hñ þetta sagde/ skømmudust
sijn aller/sm̃ stoodu hønum i moote/ og
allt foolked gladdest yfer øllum þeim
dijrdarlegu verkũ/sm̃ giørdust af høñu.
18 Eñ hañ sagde: hverium er Guds
rijke lijkt/z vid hvørn skal eg lijkia þvi?
19 Þad er lijkt * einu mustardskorne/
hvørt eirn madur took / og varpade i
grasgard siñ/ z þad spratt upp/z vard
stoort tre / og fuglar himens biuggu i
þess greinum. * Math. 13/ 31. etc.
20 Og aptur sagde hñ: vid hvørn skal
eg lijkia Guds rijke?
21 Þad er lijkt einu surdeige/hvørt eiñ
kviña took/ og ælde þad i millũ þriggia
mælera miøls/þar til þad vard surt
allt samañ.
22 Og hañ gieck i giegnum borger og
þorp / og kiende / z ferdadest til Jeru-
salem.
23 Eñ þar sagde nockur til hans:
Herra/munu þeir vera fæer/ sm̃ verda
holpner? þa sagde hñ til þeirra:
24 * Kieppest epter / ad inganga um̃
þad þraungva ported/þvi marger mu
nu/seige eg ydur/leitast vid iñ ad koma/
og munu ecke geta. * Matth. 7/ 13.
Phil. 3/ 12.
25 Eñ epter þad husbondeñ er upp-
stadeñ/og hefur dyrnar apturluckt/mu
nu þier taka til ad standa ute/z klappa
uppa dyrnar/ og seigia: Herra/ Herra/
lat upp fyrer oss/og hñ mun svara/og
seigia til ydar : * eg þecke ydur ecke
hvadañ þier erud. * Matth. 7/ 23.
26 Þa munu þier hefia upp ad seigia:
vier atum * hia þier og druckũ/ og a
vorũ strætũ kiender þu. * Math. 7/ 22
27 Og hñ mun seigia : eg seige ydur/
eg þecke ydur ecke hvadañ þier erud/*
fared fra mier aller/þier illgiørdameñ.
* Matth. 25/ 41. etc.
28 Þar * mun vera oop z tañagnijst-
ran/nær þier sæed ad sia Abraham/og
Isaak/

Isaak / og Jakob / og alla spämeñ i
Guds rÿke/ eñ ydur ad vera utrekna.
* Matth. 8/ 12. C. 13/ 42.
29 Og * þeir munu koma fra austre og
vestre / og nordre og sudre / og sitia til
bords i Guds rÿke. * Matth. 8/ 11.
30 Og sia/ * þar eru þr sÿdaster/ sem
verda munu fyrster/ z þar eru þeir fyrst
er/ sem verda munu þeir sÿdustu.
* Matth. 19/ 30. etc.
31 A þeim sama deige / komu nockrer
pharisæi / og søgdu til hans: gack ut/
og far hiedañ / þvi Herodes vill af-
lÿfa þig.
32 Og hñ sagde til þra: gänged burt/
og seiged þm̃ ref: sia/ eg utrek diøfla /
og lækna i dag z a morgun / og a þeim
þridia (deige) fæ eg enda.
33 Þo ber mier ad gänga i dag og a
morgun/ z dageñ þar epter/ þvi þad kañ
ecke ad skie/ ad nockur spämadur fyrer
farest utañ i Jerusalem.
34 * Jerusalem/ Jerusalem/ þu sem
aflÿfar spämeñena / z grÿter þa/ sem
til þyn eru sender / hvørsu opt hef eg
viliad samañsafna børnũ þÿnum/ sem
hænañ sÿnũ ungum under vængena/ og
þier hafed ecke viliad. * Matth. 23/ 37.
35 Sia/ * ydar hus skal ydur eydelæt-
ed verda/ eñ sañlega seige eg ydur: þier
skulud ecke sia mig / þar til þad kiem-
ur/ er þier munud seigia: * * blessadur
sie sa sem kiemur i nafne Drottens.
* Matth. 23/38. Ps. 69/26. * * Ps. 118/26.

## XIV. Capitule.

Christur Læknar/ Kieñer/ Huggar.
(Evang XVII. S. D. ept. Trinit.)

Og þad skiede/ þegar hañ kom i
hus nockurs af høfdingium
pharisæara a sabbate brauds
ad neyta / og þeir * høfdu
vardhalld a hønum. * Marc. 3/ 2.
2 Og sia / þar var eirn vatnssiukur
madur frame fyrer hønum.
3 Og Jesus svarade/ z talade til þra
skriftlærdu og pharisæaña / og sagde:
* leifest nockud ad lækna a sabbaten-
um? * c. 6/ 9.
4 Eñ þeir þøgdu. Og hñ took a høn-
um/ og læknade hñ/ z liet hñ fara.
5 Og svarade / og sagde til þra: hver
er a medal ydar/ hvers uxe edur asne er
fellur i pitt / ad hñ ei jafnsnart drege
hñ upp a sabbats deige?
6 Og þr * gätu hønũ eingvu þar til
svarad. * Matth. 22/ 46.
7 Eñ hñ sagde til þra sm̃ bodner voru
eina epterlÿking / þa hañ formerkte /
hvørneñ þr utvøldu hin fremstu sæte /
og sagde til þeirra:
8 Nær þu * verdur bodeñ af nockrum
til brullaups/ þa sest þig ecke efst/ so ad
ecke/ ef nockur heidarlegre eñ þu verdur
bodeñ af hønum/ * Ordsk. 25. 6/ 7.
9 Og hñ kiemur/ er þier baud z høn-
um/ og seige til þÿn: gief þessũ rum/
hliooter þu þa med kiñroda ad byria ad
halda þañ ysta sess.
10 Eñ nær þu ert bodeñ / far / og sest
þig i hid ysta sæte/ ad nær hñ kiemur/
sem þier baud/ seige hñ til þÿn: vinur/
þoka þier upp betur/ þa mun þier vird-
ing veitast fyrer þeim / sem sitia til
bords med þier.
11 Þvi * hvør sig sialfañ upphefur /
skal nidurlægiast / z hvør sig sialfañ
nidurlæger/ hñ skal upphefiast.)
* Ordsk. 29/ 23. Matth. 23/ 12. etc.
12 Eñ hñ sagde z til þess/ er hønũ haf
de boded: * nær þu giører middags verd
edur kvølldmaltÿd/ biood ecke þÿnũ vin-
um/ ei helldur þÿnum bræd rũ/ ei helldur
þÿnũ frændum/ ei helldur þÿnũ nägrañ
um / sm̃ eru rÿker / uppa þad þeir eige
biode þier aptur einhvørn tÿma / og
þier verde þad endurgiallð.
* C. 6/ 33.
13 Eñ nær þu giører eitt heimbod/
biood fatækũ/ vanudũ/ høltũ/ blindum.
14 Og muntu sæll verda/ þvi þr hafa
ecke til ad giefa þier aptur / þvi þad
skal þier * endurgellded verda/ i upprisu
riettlätra. * Joh 11/ 24. etc.
15 Eñ nær eirn af þeim/ sm̃ satu til
bords / med hønum/ heyrde þad/ sagde
hñ til hans: sæll er sa/ sm̃ etur braud i

Guds ryke.
(Evang. II. S. D. ept. Trinit.)
16 Eñ hñ sagde til hñs: Nockur mad
ur giørde eina * mikla kvølld
mælltijd/ z baud mørgū. * Ordsk. 9/1.
17 Og sende ut siñ þioon um̄ kvølld-
mælltijdar tijmañ/ ad seigia þm̄ bodnu-
* komed/ þvi nu eru aller hluter reidu-
buner. * Ordsk. 9/1.
18 Og þeir tooku aller i señ til ad af
saka sig. Sa fyrste sagde til hñs: akur
keipta eg/ og hefe nandsyn/ ad fara ut
og skoda hañ/ eg bid þig haf mig affsak-
adañ.
19 Og añar sagde: fim̄ pør akneita
keipta eg / og fer burt ad reina þau/ eg
bid þig haf mig affsakadañ.
20 Og eirn añar sagde: konu hefe eg
mier festa / og fyrer þvi ma eg ecke
koma.
21 Og sa þion kom/ og kunngiørde þad
sijnum herra / þa vard husboond-
eñ reidur / og sagde til sijns þions: far
snarlega ut a stræte og gøtur borgareñ
ar/ og leid volada z vanada hallta og
blinda hingad iñ.
22 Og þiooneñ sagde: herra / þad er
giørt/ sem þu skipader/ og þar er eñ nu
rum.
23 Og herrañ sagde til þionsens: gack
ut a þioodbrauter og tungarda / z naud
ga þeim iñ ad ganga / so ad mitt hus
verde fullt.
24 Þvi eg seige ydur/ ad eingeñ þeirra
mañа/ sem bodner voru/ munu smacka
mijna kvølldomælltijd.)
25 Eñ margt foolk gieck med hønum/
z hñ snere sier vid/ og sagde til þeirra:
26 Ef nock: kiemur til mijn/ z * ecke ha
tar fødur siñ og moodur / z kuiñu / og
børn / z brædur / og systur / og þar til
sitt eiged lijf/ hñ fær ecke vered miñ lære
sveirn. * 5. Mos. 33/9.
Matth. 10/37. etc.
27 Og * hvør sm̄ ecke ber siñ kross/ og
filger mier epter/ kañ ecke ad vera miñ
læresveirn. * Matth. 10/38. i 16/24.
28 Þvi hver a medal ydar/ s vill biggia
eirn turn/ sitур hñ ecke adur/ og samañ
reiknar kostnadeñ / hvort hañ hafe ad
fullkomna (þad) med?
29 So ad ef hañ leggur grundvølleñ/
z giekur ecke fullkomnad/ skule ecke all-
er/ sem þad sia/ taka til ad spotta hñ/
30 Og seigia: þesse madur took ad bygg
ia/ z gat ecke fullkomnad.
31 Edur / hvør kongur / sm̄ dregur i
strijd/ ad strijda i moote einum ødrum
konunge / situr hñ ecke adur / og hugar
um̄ med sier/ hvort hañ sie fær/ med tiju
þusunder/ ad mæta þm̄ / sem kiemur i
moote hønū med tuttugu þusunder?
32 Eñ ef eige/ sender hañ bodskap ut/
medañ hiñ er eñ nu fiarlægur/ og bid-
ur um̄ þa hlute/ sm̄ fridnum tilheyra.
33 So og lijka sierhvør af ydur / sem
ecke hafnar øllu þvi hñ a/ kañ ecke ad
vera miñ læresveirn.
34 * Sallted er gott/ eñ ef sallted miss
er siñ krapt/ med hvørtu verdur þat
salltad? * Matth. 5/13 / Marc. 9/50.
35 Hvorke er þad til jardar ne mykiu
þarfliegt/ þr kasta þvi ut. Hvør sm̄ *
hefur eyru ad heyra med/ hñ heyre.
* C. 8/8. Matth. 11/15.

## XV. Capitule.

Christur kieñer i Epterlijkingum/ ad
Madur skule leitast vid ad um̄venda
Syndurunum.

(Evang. III. S. D. ept. Trinit.)

EN * aller tollheimtumeñ og ber-
syndugar nalægdust hñ/ ad hey
ra hønum. * Matth. 9/10.
2 Og pharisæar z skriftlærder
mogludu / og søgdu: * þesse medtekur
syndara/ og * * etur med þeim.
* C. 7/39. ** Matth. 11/19.
3 Eñ hañ sagde þessa epterlijking til
þeirra/ og sagde:
4 Hvør madur er sa af ydur/ sm̄ hefur
hundrad sauде/ og * ef hñ misser eirn
af þm̄ / yfergiefur hñ ecke þa niju og
nijutiju a eydemørku / og fer * * epter
þm̄/ sem glatadest / þar til hañ fiñur
hañ? * Ezech. 34. 11/16.
** Matth. 18/12. Luc. 19/10.

5 Og nær hn̄ hefur funded hn̄/ leggur
hn̄ hn̄ sier a herdar med glede.
6 Og nær hn̄ kiemur heim/sama*kall-
ar hn̄(sijna)vine og nabua/z seiger til
þra: samglediest med mier/þvi eg* hefe
funded min̄ saud/sm̄ glatadur var.
*1 Pet. 2/ 25.
7 Eg seige ydur: ad so mun fognudur
vera a himnum/yfer* einum syndara/sm̄
ydran giører/meir en̄ yfer niju z niutiju
rettlatum / sm̄ ecke þurfa yferbootar
vid. * C. 5/ 32.
8 Edur hvør kvin̄a/sm̄ hefur tiju pen
inga / ef hun tijner einum peningnum/
kveiker hun ecke ljoos / z soopar hused/
og leitar vandlega/þangad til ad hun
finnur(han̄?)
9 Og nær hun hefur funded hn̄ / sam-
ankallar hun (sijnar) * vinkonur og
gran̄konur / z seiger: samglediest med
mier / þvi eg hefe funded þan̄ pening /
hvørium eg tijnda. * C. 1/ 58.
10 So seige eg ydur/ad fognudur mun
vera fyrer einglū Guds yfer einum synd
ara / sm̄ ydran giører.)
11 En̄ han̄ sagde: madur nockur haf-
de tvo sonu.
12 Og sa yngre af þm̄ sagde til fedur
sens: fader/ gief mier þa deild af gots-
enu / sem mier ber / og han̄ skipte med
þeim gotsenu.
13 Og epter faa daga/safnade sa yng-
re son ollu til samans / og reiste langt
burt af landenu / z eydde þar sijnu got-
se i eydslulegum lifnade.
14 En̄ þa han̄ hafde sooad ollu þvi
hn̄ hafde / giordest megnt hungur i þvi
sama lande/ z hn̄ took til ad skorta.
15 Og han̄ gieck burt/og hiellt sig hia
einū borgara þar i landenu/z hn̄ sende
hn̄ ut a sin̄ akur ad fæda svijn.
16 Og han̄ girntest ad sedia sin̄ maga
af drafe/ þvi er svijnen̄ atu/og eingen̄
gaf honum(nockud.)
17 En̄ þa hn̄ kom til sialfs sijns/sag-
de hn̄: hvad marga daglaunara hefur
min̄ fader / sm̄ hafa yferfliootanlega
braud: en̄ eg ferst af hungre.
18 Eg vil standa upp/ z fara til mijns
fodurs/og seigia til hn̄s: fader/eg hefe
syndgad i himenen̄ z fyrer þier.
19 Og er ecke framar verdugur/ad kall
ast þin̄ son/ gior mig sm̄ eirn af þijnū
(dag-)launurum.
20 Og hn̄ stood upp / z kom til fodur
sijns. En̄ sem hn̄ var en̄ langt i burt/
sa hn̄s fader hn̄ / og aumkadest (yfer
honum/) og hlioop / og fiell um̄ hans
hals/ z kyste han̄.
21 En̄ sonuren̄ sagde til hn̄s: fader /
eg hefe syndgad i himenen̄ og fyrer
þier/og er ecke framar verdugur ad kall
ast þin̄ sonur.
22 En̄ faderen̄ sagde til þioona sin̄a:
bered fram̄ þan̄ besta kladnad/ og fær-
ed hn̄ i/ z giefed hring a hn̄s hond/og
skoo a hn̄s fætur.
23 Og sæked þan̄ alda kalf/og slatred
honū/z neytum og verum kaater.
24 Þvi þesse min̄ sonur var daudur /
z er orden̄ lifande aptur/ z var tijndur/
og er funden̄ / z þeir tooku ad glediast.
25 En̄ hin̄ elldre sonur hn̄s var a ak-
re/ z er hn̄ kom nalægt husenu/heyrde
hn̄ samhlioodande saung z dants.
26 Og kallade eirn af þienurun̄ til
sijn/ z spurde/hvad þetta være?
27 En̄ hn̄ sagde til hn̄s: þin̄ brooder
er komen̄ / z þin̄ fader slatrade þeim
alda kalfe / þad han̄ fieck han̄ heilan̄
aptur.
28 Þa vard han̄ reidur / og villde ecke
in̄ganga / Þar fyrer gieck fader hans
ut / z baud honum.
29 En̄ hn̄ svarade/ og sagde til fodur-
sens: sia / so morg ar þioona eg þier/
og hefe alldrei en̄ yfertroded þitt bod-
ord/z mier hefur þu alldrei giefed kid/
ad eg med mijnum vinum mætte glad-
ur vera.
30 En̄ nu þesse þin̄ sonur er komen̄ /
hver ed hefur uppsvelgt þitt gots med
hoorū / slatrader þu honum þeim al-
da kalfe.
31 Þa sagde hn̄ til hn̄s: min̄ son / þu
ert alltijd hia mier / og allt þad / sem
mitt

þætt er / þad er þitt.
32 Enn byriade ad þera lystugur og
glediast / þviad þesse þiñ brooder var
daudur/ꝛ er ordeñ lifande aptur/og var
tyndur/ og er fundeñ.

## XVI. Capitule.

### Christur kieñer um̃ Rijkdoomsens rietta Brukan og Vanbrukan,

(Evang. IX. S. D. epter Trinit.)

EN hañ sagde og til siña lære-
sveina: madur nockur audugur
var sa / sem hafde eirn raads-
mañ/ ꝛ sa var rægdur vid hñ/
ad hñ eydde hñs gotse.
2 Og hñ kallade hñ / ꝛ sagde til hñs:
hvad heyre eg þetta af þier/ giør reik-
ningsskap þiñar raadsmeñsku/ þvi þu
maatt ecke leingur raadsmeñsku hafa.
3 Eñ raadsmadureñ sagde m: sialfum
sier, hvad sk eg giøra/m þvi miñ herra
svipter af mier raadsmeñskuñe? jeg duge
ecke ad grafa/ eg skamast myn ad bidia.
4 Jeg veit hvad eg skal giøra/ nær eg
verd settur af raadsmeñskuñe / ad þeir
medtake mig i syn hus.
5 Og hañ samañkallade eirn og sier-
hvørn skulldamaña syns herra/ ꝛ sagde
til þess fyrsta: hvørsu miked ertu skylld
ugur mynum herra?
6 Eñ hñ sagde: hundrad kuñur vid-
smiørs. Og hñ sagde til hñs: tak þitt
bref / ꝛ setst nidur snarlega/ og skrifa
fim̃tyger.
7 Þar epter sagde hñ til eins añars:
eñ þu / hvørsu miked ertu skylldugur?
eñ hñ sagde: hundrad mælekierølld hvei
tes. Og hañ seiger til hñs: tak þitt
bref/ og skrifa attatyger.
8 Og herrañ lofade þañ ranglaata
raadsmañ / ad hñ hafde giort forsiaal-
lega/ þvi * þessa heims børn eru kiæn-
are sonum liooßens i þeirra kyn-
slood. * Eph. 5/ 8. 1. Theß. 5/ 5.
9 Og eg seige ydur: * giøred ydur vine
af þm̃ ranglætes mam̃on/ ad/ nær yd-
ur þrytur/ þeir medtake ydur i eilyfar
tialldbuder.) * Matth. 6/ 20.
C. 19/ 21. 1. Tim. 6/ 19.

10 Hvør sem er trur * i miñstu/ er og
trur i miklu / ꝛ hvør sem er ranglaatur
i litlu/er og ranglaatur i miklu.
* C. 19/ 17.
11 Ef þier hafed ecke vered truer i
hiñu ranglaata mam̃on/ hvør vill trua
ydur fyrer þañ rietta?
12 Og ef þier hafed ecke vered truer
i þvi añarlega/ hvør mun giefa ydur/
hvad ydvart er?
13 * Eingeñ þioon giefur tveimur
herrum þioonad / þviad añadhvørt
mun hañ hata þañ eina / og elska hitt
añañ / edur adhillast þañ eina/ og for-
smaa hiñ añañ. Þier giefed ecke Gude
þioonad ꝛ mam̃on. * Matth. 6/ 24.
14 Eñ allt þtta heyrdu ꝛ phariseear-
ner/ sem * agiarner voru / og daarudu
hañ. * Matth. 23/ 14.
15 Og hañ sagde til þeirra: Þier erud
þeir/ sm̃ riettlæted ydur * sialfer fyrer
møñum/ eñ Gud * * þecker ydar hiørt-
tu/ þvi hvad haatt er medal maña/
þad er ein svyvirding fyrer Gude.
* C. 18/ 9. * * Ps. 7/ 10. etc.
16 * Løgmaaled og spaameñerner voru
allt til Johañem / Upp fra þvi bod-
ast Guds ryke/ og sierhvør þreinger
sier þar iñ med magt. * Matth. 11/ 13.
17 Eñ liettfelldara er/ ad * himen og
jørd forgange/ eñ ad eirn titell af løg-
maalenu falle. * C. 21/ 33.
Matth. 5/ 18.
18 Hvør * sem syna eigeñkonu forlæt-
ur og giftest añare/ dryger hoor / og
hvør sa sm̃ giftest þeirre/ sem fra
mañe er skileñ/dryger hoor.
* Matth. 5/ 31. etc.

(Evang. I. S. D. ept. Trinit.)

19 EN nockur madur rykur var þar/
og hñ klæddest purpura ꝛ kostuleg
um lyn klædum / og lifde hvørn dag i
vellistingũ kræselega.
20 Eñ þar var eirn faatækur madur/
Lazarus ad nafne/ hvørium kastad var
fyrer hñs dyr/ fullum kauna/
21 Og gyrntest ad mettast af moluñ þm̃/
sm̃ fiellu af borde hins ryka / eñ hundar
komu ꝛ sleiktu hans saar.

22 Eñ þad skiede/ ad hiñ fatæke and-
adest/ og var boreñ af einglunum i fadm
Abrahams/ eñ hiñ rÿke andadest lÿka/
& var greftradur.
23 Og sem hañ upplipte sÿnū augum i
helvÿte/ þegar hñ var i kvølunū/ leit hñ
Abraham ꜳleingdar/ og Lazarum i fad
me hans.
24 Og hñ hroopade/ og sagde: fader
Abraham! myskuna þu mier/ og send
Lazarum/ ad hñ drepe hinu fremsta sÿns
fÿngurs i vatn/ & kiæle tungu mÿna/
þvi * eg kvelst i þessum loga.
* Es. 66/ 24.
25 Eñ Abraham sagde: sonur/ hug-
leid þu/ ad þu medtookst hid gooda i
lÿfe þÿnu/ & Lazarus lÿka hid vonda/
eñ nu huggast hñ/ og þu kvelst.
26 Og yfer allt þetta/ er i millum vor
& ydar * eitt miked gap stadfest/ ad þr
sm̄ vilia hiedañ fara til ydar/ gieta þad
ecke/ og ecke helldur þadañ fra ydur
upp til vor fared. * Es. 30/ 33.
27 Þa sagde hañ: so bid eg þig fader/
ad þu sender hañ i mÿns fødurs hus.
28 Þvi eg hefe fim̄ brædur/ ad hñ skÿre
þeim fra/ so ad þr eige kome i þeñañ
kvalarstad.
29 Abraham seiger til hñs: þeir hafa
* Mose og spameñena/ heyre þeir
þeim. * Es. 8/ 20. c. 34/ 16.
30 Eñ hañ sagde: ney/ fader Abra-
ham/ helldur ef nockur framlideña fæ-
re til þra/ mundu þeir ydran giora.
31 Eñ hañ sagde til hñs: ef þr heyra
ecke Mose og spamøñunū/ munu þeir
ecke helldur trua/ þo nockur upprise af
daudum.)

## XVII. Capitule.

### Christur kieñer og Læknar.

En hañ sagde til læresveinaña:
* omøgulegt er/ ad þar kome ei
hneixlaner/ eñ vei þeim fyrer
hvørn þær koma.
* Matth. 18/ 7.
2 Þad * er hønū þarfara/ ad eirn mil-
nusteirn heingdest um̄ hñs hals/ & høn-
um være kastad i sioveñ/ eñ ad hñ skyllde
hneixla eirn af þessum smæu.
* Matth. 18/ 6. etc.
3. Vakted ydur sialfa. Eñ ef þiñ
brooder syndgar i moote þier/ * straffa
hñ/ & ef hñ snyr sier/ þa fyrergief hm̄.
* 3. Mos. 19/ 17. Matth. 18/ 15.
4 Og þo hñ syndgade siøsiñum a deige
i moote þier/ og snere siøsiñum aptur
til þÿn a deige/ og segde: þad ꜳngrar
mig/ þa skalltu fyrergiefa hønum.
5 Og postularner søgdu til Drott-
ens: * auk þu oss truna. * Marc. 9/ 24
6 Eñ Drotteñ sagde. * ef þier haf-
ed tru/ sem eitt mustards korn/ mættud
þier seigia til þessa morber-tres: rick
þier upp med rootum/ & rootset þig i
sioonum/ og þad munde hlÿda ydur.
* Matth. 17/ 20.
7 Eñ hvør er a medal ydar/ sem hefur
eirn þioon/ er plæger/ edur vaktar fie-
nad/ ad hñ seige til hñs/ nær hñ kiem-
ur heim af akre: far strax/ og set þig
(til bords:)
8 Mun hñ ecke seigia til hñs: bu til
þad er eg skal neyta i kvølld/ & stitt þig
upp/ og þioona mier/ a medañ eg et og
dreck/ & þar epter mættu eta og drecka.
9 Mun hañ þacka þeim sama þioon/
ad hñ giørde þad/ sem hønum var bod-
ed? eg meina ney.
10 Lÿka so og þier/ nær þier hafed
giørt alla hlute/ sm̄ ydur eru bodner/
þa seiged: * vier erum onÿter þioon-
ar/ þvi þad/ sem vier vorū skyllduger ad
giøra/ giørdū vier. * Matth. 25/ 30.

(Evang. XIV. S. D. ept. Trinit.)

11 Og þad skiede/ þa hñ foor til Jeru
salem/ og foor midt i giegnū Sa-
mariam og Galilæam.
12 Og sem hañ kom til eins landsþor-
ps/ mættu hønum tÿu lÿkþraær meñ/
sem stoodu ꜳngt fra/
13 Og upphoofu røddena/ og søgdu:
Jesu/ Meistare/ myskuna þu oss.
14 Og er hañ sa þa/ sagde hañ til
þeirra: * gꜳnged burt/ og sÿned ydur
sialfa prestunum/ og þad skiede/ þa
þeir geingu burt/ urdu þeir hrein-
sader.

sader. * 3. Mos. 13/ 2. c. 14/ 2.
15 Enn eirn af þeim/ þa hann sa/ ad hann
var heill giordur / snere hann apkur/ og
prysade Gud med stoorre raust.
16 Og fiell framm a syna asioonu fyr-
er fætur hans/ og þackade honum/og þesse
var Samverskur.
17 Þa svarade Jesus/ og sagde: eru þier
ecke tyu/ sem voru hreinsader / enn hvar
eru hiner nyu?
18 Fundust (annars) aungver/sem apkur
snere ad giefa Gude dyrdena/nema þesse
utlendingur?
19 Og hann sagde til hans: stattu upp /
gack burt / * tru þijn hefur frelsad
þig.) * c. 7/ 50.
20 Enn sem hann var adspurdur af Phari-
sæis: hvenær kiemur ryke Guds? svar-
ade hann þeim/og sagde: *ecke kiemur ryke
Guds/ (so) ad mann kunne (utvortes) ad
þreifa a þvi. * 1 Cor. 4/ 20.
21 Þeir skulu ecke helldur seigia: *
sia hier / edur sia þar /. þvi sia / ryke
Guds er innvortes i ydur.
* Matth. 24/ 23.
22 Enn hann sagde til læresveinanna: þeir
dagar munu koma/nær þier muned gyrn
ast ad sia eirn af dogum Mannsens
Sonar/og þier munud ecke sia.
23 Og * þeir munu seigia til ydar:
sia hier / edur sia þar / Ganged ecke i
burt/ og epterfylged ecke helldur.
* Matth. 24/ 23. etc.
24 Þvi lijka sem elldingen / sem leipt-
rar fra þeim (eina enda) under himn-
enum/lijser til hins (annars enda) under
himmenum / so mun Son Mannsens vera
a synum deige.
25 Enn *honum ber fyrst margt ad lijda
og utskufast af þessare kynslood.
* Matth 16/ 21.
26 Og sem þad skiede *a dogum Noa/
so mun þad og skie a dogum Mannsens
Sonar. * Matth. 24/ 37. etc.
27 *þeir atu/ drucku/ þeir gyptust/
þær voru gyptar / allt til þess dags er
Noe gieck inn i orkena / og flooded kom
og tortynde ollum. * 1. Mos. 7 /7.
28 Lijka eirnenn sem þad skiede a dogum
Loths/þeir atu/drucku/ keiptu / seldu/
plontudu/bygdu:
29 Enn * a þeim deige er Loth gieck ut
af Sodoma/rignde ellde og brennesteine
af himne/og tortynde ollum.
* 1. Mos. 19. 15/ 16/ 24/ 25. etc.
30 Epter sama hætte mun þad ganga
til a þeim deige/ er Son Mannsens mun
openberast a.
31 A þeim sama deige/* hvor sem er
a þake / og bushluter hans i husenu/
stijge hann ecke nidur/ad taka þa/og hvor
sem er a akre/ snue hann somuleides ecke
apkur til þess/sem til baka er.
* Matth. 24/ 17.
32 Minnest þier * kvinnu Loths.
* 1. Mos. 19/ 26 etc.
33 * Hvor sem leitast vid ad vardveit-
ta syna sal/ mun missa hana/ og hvor
hana misser / mun halda henne vid lijf-
ed. * Matth. 10/ 39. c. 16/ 25.
Marc. 8/ 35. Luc. 9/ 24. Joh. 12/25.
34 Eg seige ydur: * a þeirre somu
noott/ munu tveir vera i eirnre sæng /
sa eine mun verda medtekenn/og sa annar
epterskilenn. * Matth. 24. 40/ 41.
35 Tvær munu mala til samans / su
eina mun verda medtekenn / og su onnur
epterskilenn.
36 Tveir * munu vera a akre/sa eine
mun verda medtekenn / og sa annar epter-
skilenn. * Matth. 24/ 40.
37 Og þeir svorudu/og seigia til hans:
Herra/hvar(þa?)enn hann sagde til þeirra:
* hvar helldst lijkamenn er/ þangad saman
safnast ernerner. * Matth. 24/28. etc.

## XVIII. Capitule.

Christur talar umm Bænena/ og Rijk-
doom/ og seiger fyrer sinn Dauda
og Upprisu.

Enn hann sagde og þar ad auke til
þeirra eina epterlijking / ad *
mann byriade allt yd ad bidia /
og eige þreytast.
* 1. Thess. 5/ 17/ etc.
2 Og sagde: þar var eirn doomare i
nockre borg / sem ottadest ecke Gud / og
skeitte ecke umm nockurn mann.
3 Enn þar var ein eckia i þeirre somu

borg/

borg/ og kom til hans / og sagde : frelsa
mig (med løgum) fra mijnum moot-
stødumanne.
4 Og hann villde leinge ecke/ enn þar epter
þeinkte hann med siálfum sier/ þo eg ottist
ecke Gud / og skeite umm aungvann mann:
5 Þo med þvi þesse eckia giører mier
* mikid onade/ vil eg frelsa hana (med
løgunum/) so hun skule ecke koma ad sijd-
ustu/ og hallmæla mier. * c. 11/ 7.
6 Þa sagde Drottenn: heyred þo/ hvad
sa rangláte doomare seiger.
7 Enn skyllde Gud ecke frelsa sijna ut-
volldu/ sem hroopa til hans dag og noott/
þo hann hafe þolenmæde yfer þeim ?
8 Eg seige ydur: hann mun snarlega frel
sa þa. Þo nær Son Mannsens kiemur/
hvørt mun hann finna tru a jørdu ?

(Evang. XI. S. D. epter Trinit.)

9 Enn hann sagde til nockra/ sem treystu
uppa siálfa sig/ ad þeir være riett
láter / og forsmádu adra / þessa ept-
erlijking:
10 Tveir menn geingu upp til musterē-
sens ad bidiast fyrer/ eirn var Pharisæ-
us/ og sa annar tollheimtumadur.
11 * Pharisæarenn stood ut af fyrer
sig/ og badst so fyrer: eg þacka þier Gud/
** ad eg er ecke sem adrer menn/ ræning
iar/ orietlvijser/ hoordoms menn/ edur og
sem þesse tollheimtumadur.
* Matth 5/ 20. ** Es. 58/ 22.
12 Eg fasta tvisvar i viku / eg tijunda
allt þad eg á.
13 Og tollheimtumadurenn stood langt
fra/ og villde ecke ad sønu upplypta aug-
unum til himens / helldur barde sier a
brioost/ og sagde : * Gud vertu mier synd
ugum nádugur. * Ps. 51/ 3.
14 Eg seige ydur : þesse foor riettlætt-
ur ofann i sitt hus/ framar hinum/ þvi *
hvør sig siálfann upphefur / skal nidur-
lægiast/ enn hvør sig siálfann nidurlæger/
skal upphefiast.) * Matth. 23/ 12. etc.
15 Enn þeir * báru og ungbørn til
hans/ ad hann snerte þau / enn er þad sáu
læresveinarner / ávijtudu þeir þa.
* Matth. 19. 13/ 14. Marc. 10/ 13.
16 Enn Jesus kallade þa til sijn / og
sagde: leifed þier * smábørnunum ad
koma til mijn / og bannid þeim þad ecke /
þvi þvilijkra er rijke Guds.
* Matth. 18/ 3.
17 Sannlega * seige eg ydur : hvør sem
ecke medtekur rijke Guds/ sem eitt ung-
barn/ hann mun ecke innkoma i þad.
* Marc. 10/ 15.
18 Og * eirn af þeim yppurstu spurde
hann ad/ og sagde: goode meistare/ hvad
skal eg giøra / ad eg kunne eilijft lijf ad
erfa? * Matth. 19/ 16. Marc. 10/ 17.
19 Þa sagde Jesus til hans: hvi kallar
þu mig goodann? eingenn er goodur/ nema
eirn/ (sem er) Gud.
20 Bodordenn veitst þu: * Þu skallt ecke
hoordoom drijgia/ Þu skallt ecke slá i hel/
Þu skallt ecke stela / Þu skallt ecke bera
falskann vitnesburd/ Heidra fødur þinn
og moodur þijna. * 2. Mos. 20/ 12. etc.
21 Þa sagde hann: þesse hefe eg øll hallld-
ed fra barnæsku minne.
22 Enn er Jesus þad heyrde / sagde hann
til hans : enn nu brestur þig eitt/ sel allt
þad þu átt/ og gief fátækum/ og þu mu-
nt hafa * fiársiood a himne / og kom /
fylg mier epter. * Matth. 6/ 20.
23 Enn er hann þad heyrde / vard hann
miøg hriggur/ þvi hann var miøg rijkur.
24 Enn er Jesus sá / ad hann var miøg
hriggur/ sagde hann : * hvad torvelldlega
munu þeir / sem hafa audæfe/ komast i
rijke Guds. * Marc. 19/ 23. etc.
25 Þvi þad er audvelldara/ ad eirn ul-
fallde gange i giegnum nálar-augad /
helldur enn ad eirn rijkur komest inn i rijke
Guds.
26 Enn þeir søgdu / sem (þad) heyr-
du : og hvør kann (þa) ad verda hoolp-
enn ?
27 Enn hann sagde: hvad sem er * omøgu
legt hiá mønnum / þad er møgulegt hiá
Gude. * Job. 42/ 2. Jer. 32/ 17.
28 Þa sagde Petur : * siá/ vier høfum
yfergiefed allt / og fylgt þier epter.
* Matth. 19/ 27. etc.
29 Enn hann sagde til þra: sannlega seige

eg ydur : þar er * eingen̄ / sem hefur
yfergiefed hus / edur forelldra / edur
brædur / edur kvinnu / edur børn vegna
rijkes Guds/ * 5. Mos. 33/ 9.
30 Sem ei skule medtaka þad * marg-
falldt aptur a þessum tijma/og i tilkom
ande verølldu eilijft lijf. * Job. 42/ 2.
31 En̄ hañ took til sijn þa tolf / og
sagde til þra: sia/ vier gaungum upp til
Jerusalem / og aller þeir hluter skulu
fullkomnast / sm̄ eru skrifader af spa-
mønnunum um̄ Son Mañsens.
* Matth. 17/ 22. etc.
32 Þvi hañ mun * ofurseliast heiding-
ium/og spottast og hædast og spijtast.
* Matth. 27/ 2.
33 Og þeir munu hudstrijkia z lijfla-
ta hn̄/og * a þridia deige mun hn̄ upp
rijsa. * Joh. 2/ 19.
34 En̄ þr underst oodu eckert þar af/
og su ræda var hulen̄ fyrer þeim / og
þr underst oodu ecke þad/sem var sagt.
35 En̄ þad skiede / þa hañ nalgadest
Jericho/ * sat eirn blindur hia veigen-
um/og bad ølmusu.
* Matth/ 20. 29/ 30. Marc. 10/ 46.
36 En̄ er hn̄ heyrde til foolksens / sm̄
gieck fram̄ hia / spurde hañ/hvad þad
være?
37 Þa kun̄giørdu þeir hønū/ ad Jesus
Nazarenus geinge þar fram̄ um̄.
38 Og hn̄ hroopade/z sagde: Jesu/ *
Sonur Davids/ miskuna þu mier.
* Matth. 15/ 22.
39 Og þeir/ sm̄ geingu undañ høstudu
a hn̄/ad hn̄ skyllde þeigia/en̄ hn̄ hroop-
ade miklu meir: Sonur Davids/ misk-
una þu mier.
40 Þa stood Jesus vid/z baud ad leida
hañ til sijn / en̄ er hañ var komen̄ hart
nærre hønum/ spurde hañ hañ ad/
41 Og sagde: hvad villtu/ ad eg skule
giøra þier: en̄ hañ sagde: Herra / ad
eg meige sia.
42 Og Jesus sagde til hn̄s: verktu sia-
ande/ * þijn tru hefur frelsad þig.
* Matth. 9/ 22.
43 Og strax vard hn̄ siaande/ z filgde
hønū epter / og dijrkade Gud / z allt
foolked/sm̄ þad sa/prijsade Gud.

## XIX. Capitule.

Christur snijr Zacchæo / og hreinsar Mustered.

Og hañ foor ofañ / og gieck i
gegnum Jericho.
2 Og sia / eirn madur / sem
hiet Zacchæus/og hn̄ var for
inge tollheimtumañaña/ z var rijkur.
3 Og hañ * gyrntest ad sia Jesum/
hvør hn̄ være/ og gat eige fyrer foolk-
enu/þvi hañ var lijtell vexte.
* Joh. 12/ 21.
4 Og hañ hlioop fram̄ undañ/ og stie
upp i eitt morberia trie/ ad hn̄ kiñe ad
sia hañ / þvi hañ atte ad fara þar
fram̄ um̄.
5 Og er Jesus kom til þess stadar/ leit
hn̄ upp/og vard var vid hañ/ og sagde
til hans: * Zacchæe / flijt þier z stijg
ofañ / þviad þad byriar mier i dag ad
vera i þijnu huse. * Joh. 10/ 3.
6 Og hn̄ flijtte sier/z stie ofañ/z took
vid hønum med glede.
7 Og þeir/ sm̄ þad sau/møgludu all-
er/ z søgdu/ad hn̄ være in̄ til herberg-
es til eins bersyndugs mañs.
8 En̄ Zacchæus stood / og sagde til
Drottens: sia/ Herra/helftena af mij-
nu gotse gief eg fatækum/z ef eg heft
nockurn prettad um̄ nockud/ * þad gief
eg ferfallt aptur. * 2. Mos. 22/ 1.
Es. 58. 6.
9 Þa sagde Jesus til hans: i dag hef-
ur veitst hialpræded þessu huse/ med
þvi hañ er og eirn Abrahams sonur.
10 Þvi * Son Mañsens er komen̄ ad
leita epter og hoolped ad giøra þad
fortapada. * Matth. 9/ 13.
C. 18/ 11. 1. Tim. 1/ 15.
11 En̄ er þr høfdu heyrt þetta/ hiellt
hn̄ afram̄/ og sagde eina epterlijking /
af þvi ad hañ var nærre Jerusalem/og
þr meintu/ ad rijke Guds munde snar-
lega openberast.
12 Hvar fyrer hn̄ sagde: * madur nock-
ur edalboren̄ ferdadest i eitt fiarlægt
land/ad afla sier rijkes/og ad koma apt
ur.

ur. * Matth. 25/ 14. Marc. 13/ 34.
13 Eñ hñ kallade a tÿu ſÿna þioona/
og feck þm̃ tÿu pund/ z ſagde til þra:
verſled/ þar til eg kiem.
14 Eñ hñs borgar meñ høtudu hañ /
og ſendu bod epter hønū / z letu ſeigia
hønū : vier vilium ecke/ad þeſſe ſkule
rÿkia yfer oſſ.
15 Og þad ſkiede / þegar hñ kom apt-
ur / epter þad hñ hafde under ſig teked
rÿked/ baud hñ/ad ſømu þioonar ſkÿll-
du kallaſt til ſÿn/ hvøriū hñ hafde feing
ed giallded/ad hañ kyñe ad vita / hvad
hvør hefde verſlad:
16 Þa gieck ſa fyrſte fram̃ / z ſagde:
Herra/ þitt pund hefur auked tÿu pund
17 Og hañ ſagde til hñs: * vel þu
goode þion/ med þvi þu varſt trur i þvi
hinu minſta / ſkalltu hafa valld yfer
tÿu borgum. * Matth. 25/ 21.
18 Og ſa añar kom/ z ſagde: Herra /
þitt pund hefur giort fim̃ pund.
19 Eñ til hñs ſagde hñ eirneñ: og þu
ſkallt vera yfer fim̃ borgum.
20 Og eirn añar kom/ z ſagde: Herra/
ſiaa þitt pund / hvørt eg hefe lagt i
eirn klut.
21 Þvi eg ottadeſt fyrer þier / þvi þu
ert eirn ſtrangur madur/ þu tekur þad
upp/ ſm̃ þu ecke nidurlagder / og upp-
ſker þad/ ſm̃ þu ecke ſaader.
22 Eñ hñ ſeiger til hñs: * af þÿnum
muñe dæme eg þig/ þu vonde þioon/ þu
viſſer/ad eg er eirn ſtrangur madur/ ſm̃
tek þad upp/ er eg ecke nidurlagde/ z upp
ſker/ þad eg ecke ſaade. * 2. Sam. 1/ 16.
23 Og hvi lietſtu ecke miñ pening a
(verdſlunar-)borded/ z nær eg hefde kom
ed/ hefde eg krafed hñs med abata?
24 Og hñ ſagde til þeirra ſem ſtoodu
hia: taked þad pund fra hønū/ z giefed
þad hønū/ ſem tÿu pund hefur.
25 Og þr ſøgdu til hñs: Herra/ hñ hef
ur tÿu pund.
26 Eñ eg ſeige ydur/ad * hvøriū þm̃/
ſem hefur/ honum mun giefaſt/ eñ fra
þeim/ ſem eckert hefur/ mun teked ver-
da ogſo þad ſem hañ hefur.
* Matth. 13/ 12. etc.

27 Þo þa mÿna ovine / ſem ecke villdu
laata mig rÿkia yfer ſier/ leided hingad
og deyded frame fyrer mier.
28 Og ſm̃ hñ þetta ſagde/ foor hñ a-
fram̃/ z reiſte upp til Jeruſalem.
29 Og * þad ſkiede/ þo hñ nalægdeſt
Bethphage z Bethanien til þeſſ fialls/
ſm̃ kallaſt oliufiall / ſende hañ tvo af
ſÿnū læreſveinum. * Matth. 21/ 1. etc.
30 Og ſagde: gaanged burt til þeſſ þor-
ps / ſm̃ gagnvart ydur er / og nær þid
komed þar iñ/ munud þid fiña eirn fola
bundeñ/ a hvøriū alldrei hefur eñ nockur
mañа ſeted / leyſed hañ / og leided hañ
hingad.
31 Og ef nockur ſpyr ydur ad/ þvi leyſ-
ed þid hñ: þa ſeiged ſo til hñs/ þviad
Herrañ hefur hñs þørf.
32 Og þr fooru burt/ ſm̃ utſender vo-
ru/ z fundu eins ſm̃ hñ hafde ſagt þm̃.
33 Eñ er þeir leyſtu folañ/ ſøgdu hñs
drottnar til þra: hvi leyſed þid folañ?
34 Eñ þeir ſøgdu: Herrañ hefur
hans þørf.
35 Og þr * leiddu hñ til Jeſu/ z løg-
du ſÿn klæde a folañ / og ſettu Jeſum
þar uppa. * Joh. 12/ 14.
36 Eñ er hñ ferdadeſt afram̃/ breiddu
þr ſÿn klæde a veigeñ.
37 Eñ er hñ nalgadeſt þar / ſm̃ mad-
ur ferofañ af oliu-fiallenu/ took giør-
vallur hoopur hñs læreſveina gladvær
ad lofa Gud med ſtoorre rauſt / vegna
allra þra kraptaverka/ er þr høfdu ſied.
38 Og ſøgdu: * bleſſadur ſie ſa ſem
kiemur eirn kongur i nafne Drottens /
** fridur a himne / og dÿrd i hæſtum
hædum. * Joh. 12/13 etc. ** Luc. 2/14.
39 Og nockrer af phariſæis af ſkar-
anum ſøgdu til hans: Meiſtare/ ſtraffa
þÿna læreſveina.
40 Og hañ ſvarade og ſagde til þra:
eg ſeige ydur / ad ef þeſſer þegdu/ mun
du ſteinarner hroopa.

(Evang. X. S. D. epter Trinit.)

41 Og þa hañ kom nær / og ſaa borg-
ena/ griet hñ yfer heñe/
42 Og ſagde: * ef ad þu z viſſer/ z ad

sœmi nu a þessum þinum deige þad hlu-
te/ sem til þijns fridar heyra / z eñ nu er
þad huled fyrer þijnum augum.
* 5. Mos. 32/ 29. Os. 14/ 10.
43 Þvi þeir dagar munu koma yfer
þig/ad þijner oviner munu byggia * her
virke i kringū þig/ z umkringia þig/og
þreingia ad þier a allar sijdur.
* Ezech. 21/ 22. C. 23/ 14.
44 Og þr munu þier i gruñ kollkasta/
og þijnum bornū i þier/ * og ecke epter-
læta i þier stein yfer steine/ af þvi þu
þeckter ecke þiñ vitiunar tijma.
* 1. Kong. 9/7. Mich. 3/12. Matth. 24/2.
Marc. 13/ 2. Luc. 21/ 5.
45 Og hñ gieck iñ i musteréd/og * took
til ad utreka þa / sem þar iñe seldu og
keyptu. * Marc. 11/ 15. etc.
46 Og sagde til þra : þar * er skrifad:
mitt hus er bæna hus/ eñ ** þier haf-
ed giort þad ad ræningiabæle.
* Es. 56/ 7. ** Jer. 7/ 11. etc.
47 Og hñ kiende daglega i musterenu.
Eñ * þeir yppurstu prestar og skrift-
lærder/og þeir hellstu a medal foolksens
leitudust epter ad fyrerkoma honum.
* Marc. 11/ 18.
48 Og * fundu ecke hvad þeir skilldu
giora/ þvi allt foolked hnie ad honum
og heyrde honum.) * P. G. 4/ 21.

## XX. Capitule.

Christur bevijsar Upprisuna fra daud
um/ z sijnar tvær Naatkurur.

Og * þad skiede a einū af þm
dogum/ þa hañ kiende foolk-
enu i musterenu / z priedikade
evangelium / komu þeir ypp-
urstu prestar z skriftlærder med olldung
unū uppa(hañ/) * Marc. 11/ 27. etc.
2 Og toludu til hans / og sogdu: seig
oss/ * af hvoriu vallde giorer þu soddañ
hlute? edur hvor er sa/ sm hefur gief
ed þier þetta valld? * P. G. 4/ 7.
3 Eñ hñ svarade og sagde til þeirra:
eg vil z spyria ydur ad einum hlut / og
seiged mier hañ:
4 Skijrn Johañis/var hun af himne/
edur af moñum?
5 Eñ þeir hugudu um med sialfū sier/
og sogdu: seigum vier/ af himne / þa
seiger hñ: hvar fyrer truductu þier hon-
um þa ecke?
6 Eñ seigū vier/af moñum/ þa grijt-
er allt foolked oss/ þvi * þeir eru i þre
meiningu / ad Johañes hafe vered eirn
spamadur. * Matth. 14/ 5. C. 21/ 26.
7 Og þeir svorudu / ad þeir visse ecke
hvadañ.
8 Og Jesus sagde til þeirra: so seige
eg ydur z ecke/af hvoriu vallde eg giore
þessa hlute.
9 Eñ hañ took ad seigia til foolksens
þessa epterlijking: * madur nockur plan
tade eirn vijngard / og leigde vijngards
moñum hañ / og var utañ laungañ tij-
ma. * Marc. 12/ 1/ etc.
10 Og er tijme kom/sende hñ eirn þion
til vijngardsmañana/ad þr giæfe hon-
um af avexte vijngardsens. Eñ vijn-
gardsmeñerner bordu hañ / z lietu hañ
toomhentañ fra sier.
11 Og þar ad auk sende hañ eirn añañ
þioon / eñ þeir bordu z þañ sama/ og
spottudu hñ/ og lietu hañ toomhentañ
fra sier.
12 Og umfram þad / sende hañ þañ
þridia/ eñ þr særdu og þañ/ z ræku
hañ ut.
13 Þa sagde Herrañ vijngardsens: hv
ad skal eg giora? eg vil senda miñ son
þañ elskulega/maske/nær þeir sia hñ/
mune þeir bligdast.
14 Eñ þa vijngardsmeñerner sau hñ/
toludu þr sijn a mille/ z sogdu: * þesse
er erfingeñ/komed/ lætū oss aflijfa hñ/
ad arfureñ verde vor. * Ps. 2/ 8.
Ebr. 1/ 8.
15 Og þr ræku hñ ut af vijngardenū/
og aflijfudu hñ. Hvad mun þa herrañ
vijngardsens giora til vid þa?
16 Hañ mun koma/ z fortijna þessum
vijngardsmoñū / og leigia odrum vijn-
gardeñ. Eñ þa þr þad heyrdu/sogdu
þeir: þar sie langt fra.
17 Eñ hñ horfde a þa/og sagde: hvad
er þa þetta/ sm * skrifad er: sa steirn/
sm biggingarmeñerner burtkostudu/ hñ
er

er ordeñ ad hofde hyrningar.
* Ps. 118/ 22. Matth. 21/ 42. etc.
18 Hvør sm̄ * fellur a þeñañ stein/ verd
ur sundurmoladur/ eñ a hvørn hn̄ fell-
ur/ þañ mun hn̄ sundurmeria.
* Es. 8/ 15.
19 Og þr yppurstu prestar z skriftlærd
er leituduſt vid ad leggia hendur a hn̄ a
þeirre sømu stundu/ og * ottuduſt foolk-
ed/ þvi þr underſtoodu / ad hañ hafde
sagt i giegn þeim þessa epterlijking.
* C. 19/ 48.
20 Og þr tooku vara (a hønū/) og *
utsendu heimuglega kaalsmeñ/ sm̄ hiell-
du sig sialfa ad vera rietlaata / ad þeir
kyñe ad veida (hn̄) i hn̄s rædu/ uppa þad
þr kyñe ad ofurselia hn̄ yfervalldenu og
magt landsstioornarans.
* Matth. 22. 15. etc.
21 Og þeir spurdu hañ ad/ og søgdu:
Meistare / vier vitum/ ad þu talar og
kieñer riett/ z skeiter einkes persoonu/
helldur kieñer Guds veg i sañleika.
22 Meigum vier giefa Keysaranum
skatt edur ei?
23 Eñ sem hn̄ merkte þra flaarskap /
sagde hn̄ til þra: hvad freistie þier mijn?
24 Synied mier peningeñ: hvørs mynd
og yferskrift hefur hn̄? eñ þeir svør-
udu/ og søgdu: Keysarans.
25 Eñ hañ sagde til þra: giefed þar
fyrer hvad keysarans er/ Keysaranum /
z þad Guds er/ Gude. * Rom. 13/ 7.
26 Og þeir kuñu ecke ad straffa hans
ord fyrer foolkenu / z forundrudu sig a
hn̄s andsvare/ og þøgnudu.
27 Þa * geingu nockrer af Saducæis
til hn̄s / hvørier mootþroolanlega seig-
ia / ad þar sie ecke upprisa / og spurdu
hn̄ ad/ * Matth. 22/ 23. etc.
28 Og søgdu: Meistare/ * Moses hef
ur skrifad oss / ad ef nockurs brooder
dæe/ sm̄ hefur eina eigenkonu / og þesse
dæe barnlaus/ ad hn̄s brooder skule taka
eigenkonuna/ z uppvekia sijnum brood-
ur sæde. * 5. Mos. 25/ 5.
Matth. 22/ 24. Marc. 12/ 19.
29 Nu voru þar sio brædur/ z sa fyrste
took eina eigenkonu/ og deyde barnlaus.
30 Og sa añar took eigenkonuna / og
deyde ogso barnlaus.
31 Og sa þridie took hana / eñ lijka
og eirneñ þeir sio lietu ecke epter børn/
og deydu.
32 Eñ sijdast epter þa alla deyde og
konañ.
33 Hvørs þeirra eigenkviña mun hun
þvi verda i upprisuñe? þvi þr sio høf
du hana aller til eigenkvinu.
34 Og Jesus svarade/ z sagde til þra:
børn þessarar veralldar gyplast z laata
gypta sig.
35 Eñ hvørier sem verduger verda ad
ødlast hina adra verølld z upprisuna
fra daudum / giptast hvørke nie laata
sig gipta.
36 Þvi þeir gieta ecke framar dæed /
þvi þeir eru * lijker einglunū / og eru
børn Guds/ med þvi þeir eru upprisuñ
ar børn. * Matth. 22/ 30.
37 Eñ ad þr daudu upprijse/ hefur og
* Moses giefed til vitundar hia þyrne
ruñenum / þa hn̄ kallar Drottiñ þañ
Gud Abrahams/ og þañ Gud Isaaks/
z þañ Gud Jakobs. * 2. Mos. 3/ 6. etc.
38 Eñ Gud er ecke daudra/ helldur lif-
endra (Gud/) þvi þr lifa hønū aller.
39 Eñ þar svørudu nockrer af þeim
skriftlærdu/ og søgdu: * Meistare/ þu
sagder riett. * Marc. 12/ 32.
40 Eñ þeir þordu ecke framar meir
hn̄ ad nockru ad spyria.
41 Eñ hn̄ sagde til þra: * hvørneñ
seigia þeir Christum Son Davids ad
vera. * Matth. 22/ 41. Marc. 12/ 35.
42 Og David sialfur seiger i * psalma
bookeñe: Drottiñ sagde Drottne myn
um/ sit til hægre handar mier.
* Ps. 110/ 1. Matth. 22/ 44. etc
43 Þar til eg legg þijna ovine skør
fooka þiña.
44 So kallar David hañ eirn Drott-
eñ/ z hvørneñ er hn̄ þa son hans?
45 Eñ ad øllu foolkenu aaheyrande /
sagde hn̄ til siña læresveina:
46 * Vakted ydur fyrer þeim skrift-
lærdu/ sm̄ vilia gaanga hier um̄ i sijdum
klædum/

klædū / og læka sier giarnañ heilsa a
torgum/ z sitia giarnañ efst i samkun-
du husū / og sitia efst ad kvølldverdū.
* Marc. 12/ 38. etc.
47 Þeir sē * uppeta hus ecknaña/og
under yferskyne bidiast leinge fyrer/
þesser munu hliota yferfliootanlegre
doom. * Matth. 23/ 14. etc.

## XXI. Capitule.

Christur seiger fyrer Jerusalems og
Veralldarenar Eydelegging.

En hañ leit upp/og * athugade
þa rijku/sem lietu sijnar gaf
ur i musteres kistuna.
* Marc. 12/ 41.
2 Þa sa hñ og eina eckiu fatæka/ sē
liet þangad tvo skarfa.
3 Og hñ sagde: sañlega seige eg ydur/
ad þesse fatæka eckia/ * hefur iñlagt
meir eñ aller. * 2. Cor. 8/ 12.
4 Þvi aller þesser hafa iñlagt af þvi
sē þr høfdu yferfliootañlegt/til Guds
offrana/ eñ hun hefur af sine fatækt
iñlagt alla sijna næring/ s hun hafde.
5 Og er * nockrer søgdu uñ mustered/
ad þad være prijdt med fogrum stein-
um og clenodium/sagde hañ:
* Matth. 24/ 1. Marc. 13/ 1.
6 Hvad þessum hlutum/er þier siaed/
(er vidvijklande/) þa munu þeir dagar
koma/a hvørium * ei mun læten steirn yf
er steine/sē ei skule nidurbriootast.
* Matth. 3/ 12.
7 Þa spurdu þr hñ ad/z søgdu: Meist-
are/nær mun þa þetta verda? z hvørt
er þad teikn nær þetta skal skie?
8 Eñ hñ sagde: siaed til/ad þier verd
ed ecke villter/þvi * marger munu ko-
ma under mijnu nafne/ z seigia/ad þad
er eg / og tijmeñ er nalægur/so ganged
ecke epter þm. * Marc. 13. 6/ 22. etc.
9 Eñ nær þier fæed heyrt uñ strijd
og upphlaup/þa otteft ecke / þvi þessu
byrjar adur ad skie / eñ endereñ er ei
þa strax.
10 Þa sagde hañ til þeirra: ein þiood
mun reisa sig upp i moote eirnre (añ-
are) þiood / og eitt rijke i moote einu
(ødru) rijke.
11 Og þar munu skie storer jardskialf-
tar allstadar/ og hungur z drepsott/z
hrædeleger hluter/z stoor teikn af him-
ne munu skie.
12 Eñ fyrr eñ allt þetta/* munu þr
leggia sijnar hendur a ydur/ z offsækia
(ydur/) z ofurselia (ydur) i samkundu
hus z fangelse / og færa (ydur) fyrer
koninga z høfdingia fyrer mijns naf-
ns saker. * Joh. 16/ 2. etc.
13 Eñ þad mun henda ydur til eins
vitnesburdar.
14 So setied * ydur i hiørtu/ ad þier
ecke adur þeinked ydur uñ/ad forsvara
ydur. * Matth. 10/ 19.
15 Þvi eg vil giefa ydur * muñ z vis-
sku/ hvørre ei skulu gieta i mootemællt
z ei mootstaded aller ydar mootstødu-
meñ. * 2. Mos. 4/ 12.
16 Eñ þier munud z ofurseliast af for-
elldrum og * brædrum/og frændum og
vinum/ og þeir munu (nockra) af ydur
aflijfa. * Mich. 7/ 6.
17 Og þier munud hatader verda af
øllum fyrer mijns nafns (saker.)
18 Og * eitt haar af ydar høfde skal
ecke farast. * c. 12/ 7.
19 * Bijhallded med ydar þoleñmæde yd
rum salum. * 2. Kron. 15/ 7.
20 Eñ nær * þier siaed Jerusalem
uñkringda af einū strijdsher / þa merk-
ed/ad heñar eydelegging er nalæg.
* Matth. 24/ 15. etc.
21 Þeir / sē þa eru i Judæa / flije a
fiøll/ og þeir/ (sem eru) midt i heñe/
vijke ut þadañ/og þeir/sem eru i lands
bygdunū/ kome ecke iñ i hana.
22 Þviad þesser eru hefndar dagar/ad
aller þeir hluter skule fullkomnast sem
skrifader eru.
23 Eñ vei olieklū / og þm/sem giefa
ad siuga a þeim døgum / þvi þar mun
vera stoor neyd a jørdu / og reide yfer
þessu foolke.
24 Og þeir munu falla fyrer bytru
sverde/z færast herlekner til allra heid
ingia/ og Jerusalem mun nidurtrodast
af heidingium/ þar til * fullkomnader
verda

verda kqmar heidingianna. * Rom. 11/25

(Evang. II. S. D. i Adventu.)

25 Og þar munu skie teikn * a soolu
og tungle ⁊ stiornu͂ / og a jordu
þreinging þiooda af ørvinglan / nær
sioor og vatns bilgiur brusa.
* Es. 13/ 10. etc.
26 Ja/ men vanmegnast af hrædslu og
af epterbid þeirra hluta/ sem koma mu-
nu yfer jardrijke/ þvi kraptar himnanna
munu hræraſt.
27 Og * þa munu þr siaa Son Mann-
sens komanda i skyenu med krapte og
mikelle dyrd. * Dan. 7/ 13.
28 En nær þetta tekur ad skie/ þa lijt
ed upp/ ⁊ upphefied ydar høfud/ þviad
* ydar endurlausn tekur ad nalgast.
* Rom. 8. 21/ 23.
29 Og hann sagde þeim eina epterlijk-
ing: * siaed fijkiutried og oll trie.
* Matth. 24/ 32. etc.
30 Nær þau nu bloomgast med bare / ⁊
þier siaed þad/ þa þecked af siaalfu͂ yd
ur/ ad sumared er i nænd.
31 So ⁊ lijka þier/ nær þier siaed þetta
skie / þa vited ad i nænd er rijke Guds.
32 Sannlega seige eg ydur/ ad þesse kyn
slood mun ecke forganga / fyrr en allt
þetta skiedur.
33 * Himen og jørd munu forganga /
en mijn ord skulu ecke forganga.)
* C. 16/ 17. Matth. 5/ 18.
34 En * vakted ydur siaalfa/ ad ecke
nockurn tijma ofþijngest ydar hiorta af
ofaate ⁊ ofdryckiu/ ⁊ med umsorgunum
fyrer næringunne/ ⁊ ad þesse dagur skule
koma hastarlega yfer ydur.
* Rom. 13/ 13. Eph. 5/ 18.
35 Þvi * sem ein snara mun hann koma
yfer alla þa / sem bua a allre jardar
krijnglunne. * 1. Thess. 5/ 6.
36 So vered alltijd vakande/ og bidied/
so þier kunned ad vera verduger til ad
umflija alla þessa hlute sem skie mu-
nu / og standa skøduger framme fyrer
Syne Mannsens.
37 En um daga kiende hann i muster-
enu / en um nætur gieck hann ut / og var
alla nootten a þvi fialle / sem kallast
* oliu-fiall. * Joh. 8. 1/ 2.
38 Og allt foolked took sig ærla upp
til hans i musterid/ ad heyra honum.

## XXII. Capitule.

Christur helldur Paaska / Innsetur
Kvølldmaaltijdena/ Lijdur/ verdur
Spottadur og Fordæmdur.

En * þa var nalæg hatijd þra
osyrdu (brauda/) sem kallast
paaskar. * Matth. 26/ 2.
Marc. 14/ 1. Joh. 13/ 1.
2. Og þeir yppurstu prestar og skrift-
lærder leitudust vid/ hverninn þr giætu *
teked hann af dogum / þvi þeir ottudust
foolked. * Ps. 2/ 2. Joh. 11/ 47.
P. G. 4/ 27.
3. En * satan var farenn i Judam/
sem kalladest Ischarioth/ og var einn
af tølu þra toolf. * Matth. 26/ 14.
Marc. 14/ 10.
4 Og hann gieck burt/ ⁊ talade vid þa
yppurstu presta og høfudsmennena/ hver
nenn hann villde i hendur selia þm hann.
5 Og þeir urdu glader / og lofudu ad
giefa honum peninga.
6 Og hann lofade þm þvi/ ⁊ leitade lags/
ad hann feinge i hendur sellt þeim hann an
upphlaups.
7 En * þa kom dagur hinna osyrdu
(brauda/) a hverium byriade ad slaatra
paaskunum. * Matth. 26/ 17. etc.
8 Og hann sende Petrum og Johannem/
⁊ sagde: ganged burt/ tilbued oss paaska/
ad vier kunnum eta.
9 En þr søgdu til hans: hvar villtu /
ad vier tilreidum þad?
10 En hann sagde til þra: siaa/ nær þier
komed inn i staden/ mun einn madur mæ-
ta ydur/ sem ber eina vatns-krus/ Filged
honum epter i hused/ hvar hann geingur inn/
11 Og seiged til hussboonda hussens:
Meistarenn lætur seigia þier / hvar er
þad herberge / er eg meige paaska eta
med mijnum lærisveinum?
12 Og hann mun vijsa ydur eitt stoorann
tilbuenn sal/ þar tilreided þad.
13 En þeir geingu burt / og * fundu

eins sem han sagde þeim / og tilreiddu
paaska. * c. 19/ 32.
(Evangelium a Skijrdag.)
14 Og þa stunden kom / sette han sig
nidur/ * og þr toolf postular med
hønu. * Matth. 26/20. Marc. 14/18.
15 Og han sagde til þeirra : mig hefur
hiartanlega epterlangad/ ad eta þessa
paaska med ydur / ædur en eg lijd.
16 Þvi eg seige ydur / ad hier epter
mun eg ecke meir af þvi neyta / þar til
þad verdur fullkomnad i rijke Guds.
17 Og hn took kaleiken/giørde packer/
og sagde: medtaked han / og skipted i
mille ydar siælfra.
18 Þvi * eg seige ydur/ad eg mun ecke
drecka af þvi/ sm vex a vijntrie/fyrr en
Guds rijke kiemur. * Matth. 26/ 29.
19 Og han * took brauded/ giørde pack
er/og braut þad/z gaf þeim/og sagde:
þetta er min lijkame / sa sm fyrer ydur
giefst/ Giøred þetta i mijna minning.
* Matth 26/26. Mar 14/ 22. 1. Cor/ 11/23.
20 Sømuleides og kaleiken / epter þad
hn hafde hallded kvølldmaaltijdena / og
sagde: þesse kaleikur er þad nija testa-
mentum i mijnu bloode / sm fyrer ydur
uthellest.)
21 En þo siæd/ * ad hønd þess er mig
svijkur/ er a borde med mier.
* Matth. 26/ 21.
22 Og ad sønu fer Mansens Sonur
epter þvi sm * ællted er/ þo vei þeim
sama mane / fyrer hvørn han verdur
forrædeu. * P. G. 1/ 16.
23 Og þeir toku ad spyria sijn a mille
þar um / hvør af þeim være sa / er
þetta munde giøra?
24 En þar hoofst z ein præta a med
al þeirra þar um / * hvor þra munde
mestur hallden verda. * Matth. 18/1.
Marc. 9/34. Luc. 9/ 45.
25 En han sagde til þra: * konungar
þioodana drottna yfer þeim/z þeir/ sm
hafa magt yfer þeim / kallast naaduger
(herrar.) * Matth. 20/ 25.
Marc. 10/ 42.
26 En þier * eige so / helldur sa meste
a medal ydar/ skal vera sm sa yngste /
og sa sm er eirn yfermadur/z sa er þien
ar. * 1. Pet. 5. 3/ 5/ 6.
27 Þvi hvør er meire ? sa sm situr til
bords/edur sa/sm þioonar? er ecke sa/
sm til bordsens situr? en * eg er a medal
ydar/ sm sa er þienar. * Matth. 20/28
28 En þier erud þeir / hvørier hiaa
mier voru i mijnum freistingum.
29 Og * eg skicka ydur rijked/ lijka sm
min Fader skickade mier. * c. 12/ 32.
30 Ad þier skuled eta og drecka yfer
mijnu borde i mijnu rijke/og sitia a stool
um / og dæma þær toolf Israels kyn-
kvijsler.
31 En Drotten sagde: Simon / Si-
mon/ siaa/ * satan hefur beidst ydar/ad
sigta/ sm hveite. * 1. Pet. 5/ 8.
32 En * eg bad fyrer þier / ad þijn tru
protnade ei / og * * nær þu einusine
snijst//þa styrk bræddur þijna.
* Joh. 17/ 20. ** Ps. 51/ 15.
33 En hn sagde til hns : Herra/eg er
reidubuen med þier i fangelse z dauda
ad ganga.
34 En han sagde: * Petur/eg seige
þier / hanen mun ecke gala i dag/fyrr
en þu hefur þrisvar neitad/ad þu þeck
er mig. * Marc. 14. 30/ 72. etc.
35 Og han sagde til þeirra : * þegar
eg utsenda ydur fyrer utan pung og tø-
sku og skoo/vantade ydur þa nockud? en
þeir søgdu : eckert. * Matth. 10/ 9.
36 Þa sagde han til þra: en nu / hver
sm hefur eirn pung / take sa hn / lijka
z eirnen tøsku/og hver sem ecke hefur/
selie hn kyrtel sin / og kaupe eitt sverd.
37 Þvi eg seige ydur : þad hlijtur en nu
ad fullkomnast a mier/sm * skrifad er :
han er z a medal oboota mana reiknad-
ur/þvi þeir hluter (sem eru skrifader)
um mig/hafa enda. * Es. 53/ 12.
38 En þeir søgdu: Herra / siaa / hier
eru tvø sverd. En han sagde til þra:
þad er noog.
39 Og * hn gieck ut epter vana sijnu
til fiallsens oliveti/en hns læresveinar
filgdu hønum eirnen epter.
* Marc. 14/ 26/ etc.
40 En

40 Eñ þegar hañ kom til þess stadar/
sagde hañ til þra: bidied/ ad þier falled
ecke i freistne.
41 Og hañ sleit sig fra þeim nær einu
steinsnare / og fiell a knie / bad/
42 Og sagde: Fader / ef þu villt tak
þeñañ kaleik fra mier / þo verde * ecke
miñ vilie/ helldur þiñ. * Matth. 26/39.
43 Eñ hoñu birtest engell af himne /
sem stirkte hañ.
44 Og þegar hañ strydde hart (vid
daudañ/) bad hñ ækafslegar / eñ hans
sveite vard sem blooddropar / er fiellu
a jørdena.
45 Og þegar hañ var uppstadeñ af
bæneñe/ kom hñ til siña læresveina/ og
fañ þa sofande af hrigd/
46 Og sagde til þra: hvi sofe þier?
standed upp z bidied/ ad þier falled ecke
i freistne.
47 Eñ þa hñ vareñ nu ad tala/ sia/ *
skareñ og eirn af þeim tolf sem kallad-
est Judas/ gieck fyrer þm/ og nalægdest
Jesum/ ad kyssa hñ. * Matth. 26/47.
Marc. 14/43. Joh. 18/3.
48 Eñ Jesus sagde til hans: Judas/
svyker þu Mañsens Son med kosse?
49 Eñ er þeir sau / sem hia hønum
voru / hvad þar vilde skie / søgdu þeir
til hans: Herra / skulum vier sla med
sverde?
50 Og eirn * af þm sloo þioon presta
høfdingians / og hioo af hans hægra
eyra. * Matth. 26/51.
51 Eñ Jesus svarade / z sagde: læted
(þa þo giora) allt hid frekasta. Og hñ
ahrærde hñs eyra/ og læknade hañ.
52 Eñ Jesus sagde til þra yppurstu
presta/ z høfudsmaña musterесens/ og
olldungaña/ sm voru komner til hñs: *
þier erud utgeingner / sem til eins ill-
virkia med sverdū og staungum.
* Matth. 26/55. Marc. 14/48.
53 Þa eg var daglega hia ydur i must
erenu / * løgdud þier ecke hendur a
mig / eñ þesse er ydar stund / og magt
myrkraña. * Joh. 7/30.
54 Eñ þa þeir høfdu griped hañ/ *
burtfærdu þr hñ z leiddu iñ i hus þess
ypparsta prests/eñ Petur filgde lángt
a epter. * Matth. 26. 57/58. etc.
55 Eñ sem þr høfdu uppkveikt elld
midt i salnū/ og sett sig til samans/sat
* Petur midt a medal þeirra.
* Matth. 26/69. etc.
56 Þa sa ambatt nockur hñ sitia vid
elldeñ/ og starde a hñ / og sagde: þesse
var z med hønum.
57 Eñ hñ afneitade hønū/ og sagde:
kona / eg þecke hñ ecke.
58 Og litlu einu þar epter/sa eirn añ
ar hñ/z sagde: þu ert og af þeim/ Eñ
Petur sagde: madur/ ecke em eg.
59 Og nockru sydar / nær eirnre stun-
du / stirkte eirn añar þad / og sagde:
sañlega var z þesse med hønum / og hñ
er eirn Galileare.
60 Eñ Petur sagde: madur / eg veit
ecke hvad þu seiger. Og strax/ þegar
hañ eñ nu talade/ * gool haneñ.
* Matth. 26/75.
61 Og Drotteñ snere sier vid / z leit
til Peturs/og Petur minntest ords Dro
ttens/ so sm hñ hafde * sagt til hñs:
fyrr eñ haneñ galar / muntu afneita
mier þrisvar. * Marc. 14.30/72. etc.
62 Og Petur gieck ut/z griet beisklega.
63 Og * þeir meñ/ sem hielldu Jesu/
spottudu hñ og sloeu hñ. * Es. 50/6.
64 Og birgdu hñ / z sloou i hñs and-
lit/ og spurdu hñ ad/og søgdu: spadu/
hver er (sa/) sem þig sloo?
65 Og margt añad hadulegt søgdu
þeir vid hañ.
66 Og * er dagur var/ søfnudust sam-
añ olldungar lydsens / og þeir yppurstu
prestar z skriftlærder/og leiddu hñ upp
fyrer sitt rad/ * Matth. 27/1.
Marc. 15/1. Joh. 18/28.
67 Og søgdu: ert þu Christus?
seig oss (þad.) Eñ hñ sagde til þra: ef
eg seige ydur þad / true þier þvi ecke.
68 Eñ spyrie eg og / svare þier mier
ecke/ edur læted mig (lausañ.)
69 Nu * hiedañ i fra mun Son Mañ
sens sitia til hægre handar Guds krapt-
ar.

ar. * Marc. 14/ 64. etc.
70 Eñ aller søgdu: ertu þa sa Guds
Sonur? eñ hañ sagde til þeirra: þier
seiged/ þviad eg em.
71 Eñ þeir søgdu: hvad þurfum vier
framar vitnesburdar vid? þvi vier høf
um siaalfer heyrt þad af hñs muñe.

## XXIII. Capitule.

### Christur verdur Deyddur og Greptradur.

Og * þeirra giørvallur hoop-
ur stood upp/ z leidde hñ fyr-
er Pilatum. * Matth. 27/2.
2 Eñ þeir tooku til ad aakla-
ga hañ/ og søgdu: þeñañ fiñum vier/
ad hñ fraasnyr foolkenu/ og fyrerbyydur
ad giefa keysaranum skatt/ z seiger sig
siaalfañ ad vera konungeñ Christum.
3 Eñ Pilatus * spurde hñ ad/ z sagde:
ertu sa Juda konungur? eñ hñ svarade
hønũ/og sagde: þu seiger þad.
* Matth. 27/11. Marc. 15/2. Joh. 18/33.
4 Eñ Pilatus sagde til þeirra yppur-
stu presta og til foolksens: eg fiñ øng-
va søk med þessum mañe.
5 Eñ þr voru þvi aakafare/ z søgdu:
hñ uppæser foolked/ i þvi hañ kieñer
um alla Judæam/ uppbyriande i Gali-
læa allt hingad.
6 Eñ þegar Pilatus heyrde Galilæ-
am nefnda/ spurde hñ/ hvørt hañ være
eirn Galilæiskur madur.
7 Og þegar hañ fornam/ ad hñ var *
under Herodis vellde/ sende hñ hñ burt
til Herodem/ sm̃ var z siaalfur i Jerusa
lem a þeim sømu døgum. * c. 3/1.
8 Eñ þegar Herodes saa Jesum/ vard
hñ miøg gladur/ þvi hñ * hafde gyrnst
fyrer laungu ad sia hañ/ af þvi hañ
hafde heyrt margt af hønum/ og væn-
te/ ad hñ munde sia nockurt teikn giør
ast af hønum. * c. 9/ 9.
9 Eñ hañ spurde hañ med mørgũ ord-
um/ eñ hñ svarade hønũ aungvu.
10 Og þeir yppurstu prestar og skrift-
lærder stoodu/ z aaklogudu hñ hardlega.
11 Eñ þa Herodes med synu stryds-
folke hafde forsmaad z spottad hñ/ fær
de hañ hañ i eitt hvytt fat/ z sende hñ
aptur Pilato.
12 A þeim deige urdu þeir Pilatus og
Herodes viner syn a mille/ þvi þeir vo-
ru adur hvør añars ovinur.
13 Eñ Pilatus samañkallade þa ypp
urstu presta/ og þa hellstu/ z foolked/
14 Og sagde til þra: þier hafed fært
þeñañ mañ til myn/ sm̃ þañ/ er fraa
snyr foolkenu/ og sia/ eg hefe yferheyrt
hañ fyrer ydur/ og * fiñ øngva af þm̃
søkum hia þessum mañe/ sm̃ þier klag-
ed hañ um. * Joh. 18/ 38. etc.
15 Eñ ecke helldur Herodes/ þvi eg sen
de ydur til hans/ og sia/ þar er eckert
dauda verdugt giørt af hønum.
16 Þar fyrer vil eg refsa hønũ/ og
laata hañ lausañ.
17 Eñ hñ hlaut ad giefa þm̃ eirn laus
añ a hætydeñe.
18 Eñ * giørvallur hoopureñ hroopade
upp/ seigiande: tak burt þeñañ/ eñ gief
oss Barrabam lausañ.
* Matth. 27. 22/ 23.
19 Hvør ed vegna nockurskonar upp-
hlaups/ sm̃ skiede i borgeñe/ og mañ-
draaps/ var settur i fangelse.
20 Hvar fyrer Pilatus hroopade eñ
aptur til þeirra/ og villde laata Jesum
lausañ.
21 Eñ þr hroopudu a moote/ z søgdu:
krossfestu/ krossfestu hañ.
22 Eñ hñ sagde i þridia siñ til þra:
hvad illt hefur þa þesse giørt? eg fiñ
aungva dauda søk med hønũ/ þar fyrer
vil eg refsa hønũ/ og laata hñ lausañ.
23 Eñ þeir stoodu þar fastlega a med
miklum hlioodũ/og beiddust/ ad hañ yrde
krossfestur/ og þra * hliood og høfud
prestaña tooku yfer. * Joh. 19/ 12.
24 Eñ Pilatus dæmde/ ad skie skyllde
þeirra beidne.
25 Eñ gaf þm̃ þañ * lausañ/ sm̃ veg-
na upphlaups z mañdraaps var settur
i fangelse/ um hvørn þr bædu/ eñ Je-
sum framselde hñ/ epter þra vilia.
* Matth. 27/ 26.
26 Og þa þeir leiddu hañ burt/ gripu
þeir

þeir * Simonem nockurn af Cyrene/ sm
kom af mørkene / og þeir løgdu krossen
uppa hn/ ad bera (hn)epter Jesu.
* Matth. 27/32. Marc. 15/ 21.
27 En hønu fylgde a epter mikell fiøl
de foolks og kvenna / sm bæde syrgdu og
grietu hann.
28 En Jesus snere sier vid til þra/og
sagde: þier dætur Jerusalems/ grææted
ecke yfer mier/helldur grææted yfer ydur
siaalfu/og yfer børnu ydar.
29 Þvi siaa/þeir dagar koma/a hvøriu
menn munu segia: sælar eru obyriur/og
þeir kvider / er ei hafa fædt / og þau
briooſt/sm ecke voru milkt.
30 Þa munu þeir taka ad segia til
fiallanna: * falled yfer oſſ/z til hæls°
anna: hilied oſſ. * Eſ. 2/ 19.
Oſ. 10/ 8. Openber. 6/ 16. C. 9/ 6. etc.
31 Þvi * giøre þeir þetta vid þad græ°
na tried / hvad mun þa skie vid þad
þurra. * 1. Pet. 4/ 17.
32 En þar voru og leidder adrer tveir
* oboolamenn med hønum / til ad af°
lyfast. * Eſ. 53/ 12.
33 Og er þeir voru komner til þeſs
stadar/sm kallast * høfudskielia stadur/
þar kroſſfestu þeir hn / og obookamen°
ena/þann eina til hægre/enn hinn annan til
vinstre sydu. * Matth. 27/ 33. etc.
34 En Jesus sagde: Fader/ fyrergief
þeim / þvi þeir vita ecke hvad þr giø°
ra/En þeir * skiptu hns klædum / og
køstudu hlutkeſte (um þau.)
* Pſ. 22/ 19. etc.
35 Og foolked stood/ og horfde a/ en *
þeir yppurstu spottudu hn og med þm/
og søgdu : adra hefur hn frelsad / hn
frelſe sig siaalfann/ ef þeſſe er sa Chri°
stus sa Guds utvalde. * Matth. 27/39
36 En þar spottudu hn og strydsmenn
erner/ sm geingu ad/z bææru hønu edik/
37 Og søgdu : ef þu ert sa konungur
Judanna / þa frelsa þig siaalfann.
38 En þar * var og ein yferskrift rit°
ud yfer hønu med griskum og latinsku/
og ebraiskum bookstøfu: þeſſe er sa kon
ungur Judanna. * Matth. 27/ 37.
39 En eirn af obookamønnunum/ sem
voru heingder/ spottade hn / og sagde:
ef þu ert sa Christus / þa frelsa þig
siaalfann og ockur.
40 En sa annar svarade / og straffade
hn/z sagde: hrædest þu ecke helldr Gud/
þar þu ert i hinne sømu fordæmingu?
41 Og vid ad sønnu med riettu/þvi vid
medtøkum/ þad ockar verk til unnu / en
þeſſe hefur eckert oskickanlegt framed.
42 Og hann sagde til Jesum : minstu
myn Drottenn / * þa þu kiemur i ryke
þitt. * Matth. 16/ 28.
43 Og Jesus sagde til hns : sannlega
segie eg þier / i dag skalltu vera med
mier i paradys.
44 En þad var um þa siøttu stundu/
og * þar vard eitt myrkur yfer allt land
ed allt til þeirrar niundu stundar.
* Matth. 27/ 45. etc.
45 Og soolenn formirkvadest / og for°
fialladed i musterenu rifnade i sundur i
midiu.
46 Og Jesus hroopade med stoorre
raust/og sagde: Fader / * i þynar hend
ur fel eg minn anda / og sem hann þetta
sagde/ uppgaf hn(sinn)anda.
* Pſ. 31/ 6. P. G. 7/ 58.
47 En er * høfudsmadurenn saa þad/
sm skiede / pryſade hn Gud / og sagde:
sannlega hefur þeſſe madur riettlaatur
vered. * Matth. 27/ 54.
48 Og allt þad foolk/sem var saman°
komed til þeſſarar sioonar/þegar þ saa
þa hlute / er til bææru / børdu þr sier a
briooſt/og sneru til baka.
49 En aller hans kunningiar stoodu
læængt fraa/z þær kvinnur/sm hønu høl
du epterfilgt af Galilæa/z saau þetta.
50 Og siaa * eirn madur ad nafne Jo°
seph/sm var eirn raadherra/eirn goodur
og riettvyſs madur: * Marc. 15/43. etc.
51 hann hafde ecke samþickt vrded i
þra raade og giørninge / (hann var) af
Arimathia / þm stad Judanna / hvør
ed og siaalfur vænte epter Guds ryke.
52 Hann gieck til Pilatum/ og bad um
lykamann Jesu.

53 Og took hñ ofañ/ og sveipade hañ
i einu (smaa) lijne / og lagde hñ i eina
grof/ sm̄ var uthoggveñ i einu berge/
i hvøria ecke eñ nu nockur var lagdur.
54 Og þad var* affaangadagureñ/og
sabbateñ hoofst. * Matth. 27/ 62.
55 Eñ * kvinurnar filgdu & a epter/
sm̄ voru komnar med honum af Gali-
læa/og saau grøfena/ & hvørneñ hans
lijkame var lagdur. * c. 8/ 2.
56 Eñ þær sneru aptur/ og tilbiuggu
dijrmætar jurter og salve / og um̄
sabbateñ hvijldust þær * epter løgmaal-
enu. * 2. Mos. 20/10.

## XXIV. Capitule.

Christur Upprijs fra Daudum/ Op-
eñberast og Fer til Himens.

Eñ * a þeim fyrsta deige i vik-
uñe miøg aarla/ komu þær til
grafareñar/ & bæru dijrmætar
jurter/sem þær høfdu tilreidt/
og nockrar med þm̄. * Marc. 16/1. etc.
2 Eñ þær fundu steineñ afvelltañ af
grøfeñe.
3 Og geingu iñ/ og fundu ecke lijkam-
añ Drottens Jesu.
4 Og þad skiede / þegar þær efudust
þar um̄/sia/tveir meñ stoodu hia þm̄
i * skijnande klædum. * Joh. 20/ 12.
5 Eñ er þær urdu hræddar / og slogu
siñe aasioonu til jardar / søgdu þeir til
þeirra: þvi leited þier epter þeim lif-
anda hia þm̄ daudu?
6 Hañ er ecke hier/ helldur er hñ upp-
riseñ/ Miñest þess/ hvørneñ hñ talade
til ydr / þegar hñ eñ nu var i Galilæa/
7 Og sagde/ ad þad byriade * Mañ-
sens Syne ad ofurseliast i hendur synd-
ugra maña/ og krossfestast/ & a þridia
deige upp ad rijsa. * Matth. 17/22. etc
8 Og þær mintust hans orda.
9 Og þær * geingu aptur fra grøf-
eñe / og kuñgiørdu alla þessa hlute
þeim ellefu/og øllum þeim ødrum.
* Marc. 16. 9/ 10.
10 Eñ þar voru * Magdalena Ma-
ria/ og Johañа og Maria Jakobi/ og
adrar (kvinur) med þeim / sem søgdu
postulum̄ þessa hlute. * c. 8. 2/ 3.
11 Og þeirra ord virdtust þm̄ sem gal-
eñskapur/og þeir trudu þeim eige.
12 Eñ * Petur stood upp/ & hlioop til
grafareñar/ og er hñ horfde (þar iñ/)
sier hañ lijnklædeñ liggia einsømul/ og
gieck burt og undradest med sialfū sier/
hvørneñ þad være skied. * Joh. 20. 3/6

(Evangelium Añañ Dag Paaska.)

13 Og sia * tveir af þeim geingu a
þeim sama deige til eins þorps /
sm̄ var sextiju akra leingder fra Jeru-
salem / hvørs nafn var Emaus.
* Marc. 16/ 12
14 Og þeir toludu sijn a mille um̄ alla
þa hlute/sm̄ vid høfdu bored.
15 Og * þad skiede/þegar þeir toludu
& spurdust a til samans/ ad sialfur Je-
sus nalægdest/ og gieck med þeim.
* Matth. 18/ 20.
16 Eñ þra augu voru so halldeñ / ad
þeir þecktu hñ ecke.
17 Eñ hñ sagde til þra : hvad er þad
fyrer rædu / sem þid høndled um̄ yckar
a mille a veigenū / & erud hriggver af ?
18 Þa svarade eirn af þeim / er Cleo-
phas var ad nafne / og sagde til hñs :
ertu alleina framande i Jerusalem/ og
veitst ecke þa hlute/sem eru i heñe skied
er a þessum døgum ?
19 Og hñ sagde til þra : hvøria ? eñ
þeir søgdu til hñs : þa hlute um̄ Jesum
Nazaræum/sm̄ var eirn madur/ * eirn
spaamadur/ maattugur i verkū & ordum
fyrer Gude og øllu foolke.
* Matth. 21/ 11.
20 Og hvørneñ þr yppurstu prestar &
vorer høfdingiar hafa ofursellt hañ i
fordæmingu daudans/og krossfest hañ.
21 Eñ vier vonudū/ ad hñ være sa/sm̄
munde * endurleysa Israel/ eñ um̄fram̄
allt þetta er þad sa þridie dagur i dag/
sijdañ þesser hluter skiedu. * P. G. 1/6.
22 So * hafa & nockrar kviñur af oss/
skielft oss / sem voru aarla hia grøf-
eñe. * Matth. 28/ 8.
23 Og þegar þær fundu ecke hñs lij-
kama / komu þær/ og seigia sig eirneñ
einglaña

einglana sioon sied hafa/ hvørier ed seig
ia/ ad hn̄ life.
24 Og nockrer af þeim / sem voru med
oss/ geingu burt til grafarennar/ z fundu
eins og kvinnurnar hafa og sagt/ en hn̄
sau þeir ecke.
25 Og hn̄ sagde til þra: O * þier heim
sker/ z treger i hiarta til ad trua øllu
þvi/ sem spamennerner hafa talad.
* Gal. 3/ 1.
26 * Byriade ecke Christo þetta ad
lijda/ og inganga i sijna dyrd?
* Es. 50/ 6.
27 Og hn̄ took til * fra Mose og fra
øllum spamønnunum / og utlagde þeim
i øllum ritningum/ þad sem var(skrifad)
um hann. * 1. Mos. 3/ 15. Ps. 8/ 6.
Ps. 16. 9/ 10. Ps. 22/ 1. Job. 19/ 25.
Es. 53/ 1. etc. Os. 6. 1/ 2.
28 Og þeir nalægdust þorped/ sem þeir
geingu til/ og hn̄ liet/ sem vilde hn̄ leing
ra ganga.
29 Og þeir neyddu hann / og søgdu: *
verttu hia ockur / þviad þad er komed
ad kvøllde/ og dergenn hallar/ Og hann
gieck inn/ til ad vera hia þeim.
* 1. Mos. 19/ 3.
30 Og þad skiede/ þa hn̄ sat med þeim
til bords / took hn̄ braudid / blessade og
braut þad/ z riette ad þeim.
31 Þa opnudust þeirra augu / og þeir
þecktu hn̄/ og hann vard osynelegur fyr
er þeim.
32 Og þr søgdu sijn a mille: var ecke
ockar hiarta brennande i ockur / þegar
hn̄ talade vid ockur a veigenum/ og þegar
hn̄ opnade ockur ritningarnar?
33 Og þeir stoodu upp a þeirre somu
stundu/ z sneru aptur til Jerusalem/ og
fundu samansafnada þa ellefu/ z þa/
sem med þeim voru/
34 Sem søgdu: * Drottenn er sannar
lega upprisenn / og er siedur af Simo
ne. * 1. Cor. 15. 4/ 5.
35 Og þeir kunngiordu þa hlute / sem
skied høfdu a veigenum/ og hvørnenn hann
vard þecktur af þeim / i þvi hann bra
ut braudid.)

(Evangelium Pridia Dag Paaska.)

36 En er þeir toludu þetta / * stood
sialfur Jesus midt a mille þra /
og seiger til þra: fridur sie med ydur.
* Marc. 16/ 14. Joh. 20/ 19. 1. Cor. 15/ 5.
37 Þa skielfdust þr/ og urdu hrædder/
z meintu/ ad þeir sæe eirn anda / og hn̄
sagde til þeirra:
38 Hvi * erud þier so hrædder/ og þvi
uppstijga slijker þankar i ydar hiørt
tu? * Marc. 4/ 40.
39 Siaed * mijnar hendur og mijnar
fætur / ad eg er þad sialfur/ þreifed a
mier/ z siaed / þvi ande hefur ei holld
nie bein/ so sem þier siaed mig hafa.
* Joh. 20. 20/ 27.
40 Og sem hn̄ þad sagde/ sijnde hn̄ þeim
hendurnar og fæturnar.
41 En er þeir enn nu ecke trudu fyrer
glede/ og undrudust þad / sagde hann til
þra: hafed þier hier nockud matarlegt?
42 Og þeir gafu hønum stycke af steikt
um fiske/ og af hunangs-seim.
* Joh. 21/ 10.
43 Og hn̄ took þad/ z at fyrer þeim.
44 En hn̄ sagde til þra: * þetta eru
þau ord/ er eg talade til ydar/ þegar eg
enn nu var hia ydur / þvi þeim hlutum
byriar øllum saman ad fullkomnast/ sem
eru skrifader i Moses løgmale/ z spa
mønnunum og psalmunum um mig.
* Matth. 16/ 21.
45 Þa opnade hann þeirra skilning/ so
þr skylldu ritningarnar.
46 Og hn̄ sagde til þra: so * er skrif
ad/ og so byriade Christo ad lijda/ z upp
rijsa fra daudum a þridia deige:
* v. 27/ etc.
47 Og ad predikast i hans nafne * yd
ran z fyrergiefning syndanna/ fyrer øll
um þioodum/ upphefiande i Jerusalem.
P. G. 5/ 31. C. 13/ 38.
48 En þier erud vottar þessara hluta.)
49 Og sia/ * eg sende fyrerheit mijns
Fodurs yfer ydr. En þier skulud blijfa
i borgenne Jerusalem/ þar til þier verd
ed yfklædder krafte af hædenne.
* Joh. 15/ 26. etc.
50 En hann * hafde þa ut allt til Be
thania/

thania / og upphoof sijnar hendur/ og
blessade þa. * P. G. 1/ 12.
51 Og þad skiede/ þegar hann blessade
þa/ skyldest hann vid þa/ og * foor upp i
himenenn. * Marc. 16/19. P. G. 1/9.

52 Og þeir tilbaadu hann/ og sneru aptur til Jerusalem med miklum fagnade.
53 Og voru jafnann i musterenu / vegsamande og lofande Gud.

AMEN.

# St. Johannis Evangelium.

## I. Capitule.

Johannes Skijrare vitnar um Guds Son / Christur kallar Fioora Læresveinana.

(Evangelium a Joola Dagenn.)

I * upphafe var * * Orded/ z þad Ord var hia Gude/ z Gud + var þad Ord.
* 1. Mos. 1/ 1. * * 1. Joh. 1. 1/ 2. + 1. Joh. 5/ 20.
2 Þad * sama var i upphafe hia Gude.
* Ordsk. 8/22.
3 Aller * hluter eru fyrer þad giørder/ z an þess er ecke jafnvel eirn (hlutur) giordur/ sem giordur er. * Ps. 33/ 6.
4 J þvi * var lijfed/ z lijfed var lioos mannanna. * c. 5/ 26.
5 Og * lioosed skijn i myrkrunum/ z myrkurenn hondludu þad ecke. * c. 8/ 12. C. 9/ 5. C. 12. 46.
6 * Þar var eirn madur utsendur af Gude / hann hiet Johannes.
* Matth. 3/ 1. etc.
7 Þesse kom til vitnesburdar/ ad hann bære vitnesburd um lioosed/ ad * aller skylldu trua fyrer hann. * Col. 1/ 28.
8 * Ecke var hann þad lioos/ helldur ad hann bære vitnesburd um lioosed.
* C. 5/35.
9 Þad var þad sanna * lioos/ sem upplijser hvørn mann komande i heimenn.
* C. 12.46.
10 Hann var i heimenum/ og * heimurenn er fyrer hann giordur / og heimurenn þeckte hann ecke. * 1. Mos. 1/1. etc. Ebr. 1/2. C. 11/3.
11 Hann kom til sinna eigna / z hans eigenn medtooku hann ecke.
12 Enn so marger sem hann medtooku / þeim hefur hann giefed magt * Guds børn ad verda/ þeim/ sem trua a hans nafn.
* Rom. 8/ 15. Gal. 3/ 26.
13 Hvørier ecke af bloode/ ei helldur af villo holldsens/ ei helldur af vilia mannsens/ helldur * af Gude /eru fæddir.
* C. 3/ 5. 1. Joh. 5/ 4.
14 Og * Orded vard holld/ z hann bygde med oss/ og * * vier saaum hans + dijrd/ (sem) eina dijrd/ sem eins eingetens af Fødurnum / fullur naadar og sannleika.)
* Es. 7/14. Matth. 1/16. Luc. 1/31. C. 2/7. * * Es. 40/ 5. Matth. 17/ 2. 2. Pet. 1. 16/ 17. + Es. 60/ 1.
15 Johannes ber vitne * um hann/ og kallade/ z sagde: þesse var sa/ um hvørn eg sagde/ sa sem kiemur epter mig/ var (til) fyrer mig/ þvi hann var fyrr enn eg.
* Matth. 3. 11. Marc. 1/ 7.
16 Og af hans * fillingu høfum vier aller ødlast / og naad fyrer naad. * C. 3/34.
Col. 1. 19. C. 2/ 9.
17 Þvi * logmaaled var fyrer Mosen giefed/ naaden z sannleikurenn er fyrer Jesum Christum orden * 2. Mos. 20/1. etc.
18 * Gud hefur eingenn sied nockurn tijma/ sa eingietne * * Sonurenn/ sem er i skaute Fødursens/ hann hefur openberad (þad.) * 2. Mos. 33/20. 1. Joh. 4/12. 1. Tim. 6/16. * * Joh. 6/46. Luc. 10/22.

(Evangelium IV. S. D. i Adventu.)

19 Og * þesse er vitnesburdur Johannis/ þegar Judarner sendu af Jerusalem presta og Levita/ ad þeir skylldu spyria hann: hvør ert þu? * c. 5/ 33.
20 Og hann medkiende z neitade ecke / Og medkiende: * eg er ecke sa Christus. * c. 3/ 28.
21 Og þeir spurdu hann ad: hvad þa? erktu Elias? og hann seiger: ecke em eg/ Ert þu * sa spaamadur? og hann svarade.

ade: Nei. * 5. Mos. 18/15.
22 Þa sǫgdu þr til hñs: hvør ert þu/
so ad vier kuñũ andsvar ad giefa þeim
sem utsendu oss? hvad seiger þu um̃
þig sialfañ?
23 Hañ sagde: * eg er eins hroopanda
rødd i eydemørku: greided þier veg
Drottens/ so sem sagde Esajas spaa-
madur. * Es. 40/3. Matth. 3/3. etc.
24 Og þr sem voru utsender/ voru af
Pharisæis.
25 Og þr spurdu hñ/ og sǫgdu til ha-
ns: hvi skijrer þu þa/ ef þu ert ecke sa
Christus/ ei helldur Elias/ ei helldur
sa spaamadur?
26 Johañes svarade þm̃/ og sagde: *
eg skijre med vatne/ eñ sa stood midt a
medal ydar/ hvørn þier ecke þecktud.
* Matth. 3/11. etc.
27 Hañ er * sa/ sem epter mig kiemur/
hvør ed var (til) fyrer mig/ hvørs skoo
þvenge eg em ei verdugur upp ad ley-
sa. * c. 3/26.
28 Þetta skiede i Bethabara hinumeig
eñ Jordanar/ hvar Johañes skijrde.)
29 Þañ añañ dag epter/ sier Johañes
Jesum koma til sijn/ og seiger: * siaa/
þad lambed Guds/ sem ber synd heims-
ens. * v. 36.
30 Hañ er sa/ um̃ hvørn eg sagde: ept
er mig kiemur eirn madur/ hvør ed *
var (til) fyrer mig/ þvi hañ var fyrr eñ
eg. * v 15.
31 Og eg þeckte hñ ecke/ eñ uppa þad
hñ skyllde openberast fyrer Jsrael/ þess
vegna er eg komeñ/ sm̃ med vatne skijre.
32 Og Johañes vitnade/ og sagde: eg
* saa/ ad Andeñ stie ofañ/ sm̃ ein dufa/
af himne/ og stadnæmdest yfer hønum.
* Luc. 3. 21/22. etc.
33 Og eg þeckte hñ ecke/ eñ sa/ sm̃ sen-
de mig ad skijra med vatne/ hñ sagde til
mijn: yfer hvørn þu sier Andañ nidur-
stijga z stadnæmast yfer hønũ/ hñ er sa/
sem skijrer * med Heilǫgum Anda.
* P. G. 1/5.
34 Og eg hefe sied (þad/) og vitnad
ad þesse er sa Sonur Guds.
35 Þañ añañ dag epter/ stood Johañ-
nes aptur/ z tveir af hñs læresveinum.
36 Og sem hñ leit Jesum (þar) gang-
anda/ sagde hañ: * siaa/ þad lambed
Guds. * v. 29.
37 Og þeir tveir læresveinar heyrdu hñ
tala/ og epterfilgdu Jesu.
38 Eñ Jesus snere sier vid/ og saa þa
filgiande a epter/ og seiger til þeirra:
39 Ad hveriu leite þier? eñ þr sǫgdu
til hñs: Rabbi/ hvad ed kallast/ nær
þad utleggst/ meistare/ hvar er þitt
adsetur?
40 Hañ seiger til þra: komed og siaa-
ed. Þeir komu/ og saau/ hvar hñ hafde
(sitt) adsetur/ z voru hiaa hønũ þañ sa-
ma dag/ eñ þad var um̃ tijundu stund.
41 * Andreas brooder Simonar Petri/
var eirn af þm̃ tveimur/ sem heyrdu af
Johañe/ og filgdu hønũ epter.
* Matth. 4/18.
42 Þesse fiñur fyrst siñ eigeñ broodur
Simonem/ z seiger til hñs: vier høf-
um funded Messiam/ hvad ed utlagt
er/ Christus.
43 Og leidde hñ til Jesum/ eñ er Jesus
horfde a hñ/ sagde hañ: þu ert Simon
Jona son/ þu skallt heita * Kephas/
þad er utlagt/ steirn. * Matth. 16/18.
44 Þañ añast dag epter villde Jesus
ganga ut til Galilæam/ og fiñur Phi-
lippum/ z seiger til hans: filg þu mier
epter.
45 Eñ Philippus var af Bethsaida/
ur borg Andreæ z Petri.
46 Philippus fiñur Nathanael/ z seig
er til hans: vier høfum funded þañ/ um̃
hvørn * Moses hefur skrifad i lǫgmaal
enu/ og spaameñerner/ Jesum þañ son
Josephs/ þañ af Nazareth.
* 1. Mos. 49/10. 5 Mos. 18/18. Es. 7/14.
C. 40/11. C. 53/2. Jer. 23/5. Ezech. 34/23.
Dan. 9/24. Matth. 2/23.
47 Og Nathanael sagde til hñs: * kañ
nockud gott vera af Nazareth? Phi-
lippus seiger til hañs: kom z siaa.
* C. 7/41
48 Jesus saa Nathanael koma til sijn/
z seiger um̃ hñ: siaa (þ) er sañlega eirn

yfer an̄arstadar / han̄ er þioofur og
ræninge.
2 En̄ * sa / sem̄ geingur inn um̄ dyrnar /
hn̄ er hyrder saudan̄a. * c. 14 / 6.
3 Fyrer þessū lykur dyravørduren̄ upp /
og sauderner heyra hn̄s raust / & hn̄ kall-
ar (syna) eigen̄ saude * med nafne / og
leider þa ut. * Es. 43 / 1.
4 Og nær hn̄ hefur (syna) eigen̄ saude
utreked / geingur hn̄ fram̄ fyrer þeim /
& sauderner filgia hønū / þvi þr þeckia
hn̄s raust.
5 En̄ einum framande munu þr ecke
filgia / helldur flya fra hønū / þvi þeir
þeckia ecke rødd þra framande.
6 Þessa epterlyking sagde Jesus til
þra / en̄ þeir * understoodu ecke / hvad
þad var / sem̄ hn̄ talade til þeirra.
* Marc. 9 / 32.
7 Þa sagde Jesus aptur til þra: san̄-
lega / san̄lega seige eg ydur / ad eg em dyr
saudan̄a.
8 Aller þr / sem̄ eru komner fyrer mier /
* eru þioofar og ræningiar / en̄ sauder-
ner heyrdu þm̄ ecke. * Jer. 23 / 2.
9 Eg em dyrnar / ef nockur geingur inn
um̄ mig / han̄ mun verda hoolpen̄ / & hn̄
mun gang̃a inn / og hn̄ mun gang̃a ut /
hn̄ mun og finn̄a foodur.
10 Þioofuren̄ kiemur ecke / utan̄ hn̄ ste-
le / og myrde & fordiarfe / Eg er komen̄ /
ad þeir skule hafa lyf / og * hafa fulla
nægd.) * Ps. 23 / 1.

(Evang. II. S. D. epter Pæska.)

11 Eg er * sa goode hyrderen̄ / sa goode
hyrderen̄ * * setur sitt lyf ut fyr-
er saudena. * Ps. 23 / 1. Ps. 80 / 2.
Es. 40 / 11. Ezech. 34. 11 / 23. C. 37 / 24.
1. Pet. 2 / 25. * * Joh. 15 / 13.
12 En̄ leigulide / og han̄ / sem̄ ecke er
hyrder / hvors ad sauderner ecke eru eig-
enleger / sier ulfen̄ koma / og yfergiefur
saudena / og flyr / & ulfuren̄ grypur þa /
og sundurdreyfar saudunum.
13 En̄ leigulide flyr / af þvi han̄ er
leigulide / og hefur ecke um̄sorgun fyrer
saudunum.
14 Eg er sa goode hyrder / og * þecke
myna (saude) og eg þeckest af mynum.
* 2. Tim. 2 / 19.
15 Eins sem̄ Faderen̄ þecker mig / (so)
* þecke eg og Føduren̄ / og set mitt lyf
ut fyrer saudena. * c. 6 / 46.
16 Og eg hefe * en̄ adra saude / sem ecke
eru af þessu sauda huse / og þa byriar
mier (þangad) ad leida / og þr munu
heyra myna rødd / og þar mun verda ein
hiørd / einn hyrder.) * Matth. 2 / 12.
17 Þar fyrer elskar mig Faderen̄ / ad eg
set mitt lyf ut / ad eg skule taka þad
aptur.
18 Eingen̄ tekur þad fra mier / helld-
ur set eg þad ut af sialfum mier til /
eg hefe valld ad setia þad ut / og hefe
valld ad taka þad aptur. Þetta bodord
medtook eg af mynū Fødur. * c. 14 / 31.
19 Þa vard þar ein sundurþyckia a
medal Judan̄a saker þessara orda.
* C. 7 / 43.
20 En̄ marger af þeim søgdu: * diøf-
ulen̄ hefur hn̄ / & er afsin̄a / þvi heyred
þier hønum? * c. 7 / 20. c. 8. 48 / 52.
21 Adrer søgdu: Þesse ord eru ecke eins
diøfuloods / mun diøfullen̄ fa blind-
ra augum upplo̊ked?
22 En̄ þar var hallden̄ musteres vyg-
slu (hatyd) i Jerusalem / og þad var
vetur.
23 Og Jesus gieck i musterenu i * for-
byrge Salomonis. * 1. Kong. 6 / 3.
24 Þa um̄kryngdu Judarner han̄ / og
søgdu til hans: hvad leinge helldur þu
vorre sálu i efa? sertu sa Christus /
seig oss (þad) berlega.
25 Jesus svarade þm̄: eg hefe sagt yd-
ur (þad) & þier trued ecke / þaug verk /
sem̄ eg giøre i nafne myns Fødurs / þau
somu * vitna um̄ mig. * c. 5 / 36.
26 En̄ þier * trued ecke / þvi þier erud
ecke af mynum saudū / so sem̄ eg sagde
ydur: * c. 8 / 45.
27 * Myner sauder heyra myna rødd /
og eg þecke þa / og þr filgia mier.
* C. 8 / 47.
28 Og eg gief þm̄ eilyft lyf / & þr skulu
ecke fyrerfarast eilyflega / og eingen̄

skal slijta þa ur miñe Hende.
29 Fader miñ / sem gaf mier þa / er *
meire øllum/og eingeñ fær slited þa ur
mijns Fødurs Hende. * c. 14/ 28.
30 Eg og Faderen erum eitt.
31 Þa tooku Judar eñ steina upp / ad
þeir grijtte hañ.
32 Jesus svarade þeim : mørg good
verk audsijnde eg ydur af Fødur mijn-
um/fyrer hvørt af þeim verkum grijt-
ed þier mig?
33 Judarner svørudu hønū / og søg-
du : fyrer gott verk grijtum vier þig
ecke/ helldur fyrer(Guds)lastan / og ad
þu/sem ert eirn madur/ giører þig sialf
añ(ad)Gude.
34 Jesus svarade þeim : er þar ecke
skrifad * i ydar løgmaale: eg sagde/ þier
erud guder? * Ps. 82/ 6.
35 Ef hañ kallar þa gude/ til hvørra
Guds ord skiede / og skriften kañ ecke
ad bregdast:
36 Hvørt seiged þier (þa til hans)
hvørn Faderen hefur helgad/ z sendt i
heimeñ: þu (Gud)lastar / af þvi eg
sagde:*eg er Sonur Guds? * c. 5/10.
37 Ef eg giøre ecke verk mijns Fød-
urs/ trued mier þa ecke.
38 Eñ ef eg giøre þau / þo þier trued
mier ecke/ (so) * trued verkunum/so ad
þier þecked og trued ad Faderen er i
mier/ og eg i hønum . * c. 14/ 11.
39 Þa leitudust þeir eñ vid ad grijpa
hañ/* og hañ komst ut ur þeirra hønd-
um/ * c. 8/ 59. Luc. 4/ 30.
40 Og foor burt aptur yfer um Jor-
dan/til þess stadar/ hvar Johañes var
fyrst ad skijra/ og var þar.
41 Og marger komu til hañs/ z søgdu:
Johañes giorde ad sønu eckert teikn/eñ
aller þeir hluter / sem Johañes sagde
um þeñañ / voru sañer.
42 Og * marger trudu þar a hañ.
* C. 8/ 30.

## XI. Capitule.

Christur uppvekur Lazarum af Dauda.

Eñ(þar)var eirn siukur / Laza-
rus af Bethania /ur þorpe *
Mariu og Marthæ systur heñ-
ar. * Luc. 10. 38/ 39.
2 Eñ Maria var su / * sem smurde
Herrañ med salve/ z þurkade hañs fæt-
ur med sijnum haarlockū/ hvørrar brood
er Lazarus var siukur. * c. 12/ 3. etc.
3 Þa sendu þær systur til hans / og
lietu seigia hønum : Herra/ sia/ sa þu
elskar/ er siukur.
4 Eñ er Jesus (þad) heyrde / sagde
hañ: su sott er ecke til dauda / helldur
til*Guds dijrdar/ad Sonur Guds verde
dijrkadur fyrer hana. * c. 9/ 3.
5 Eñ Jesus elskade Martham/z syst-
ur heñar/ og Lazarum.
6 Þegar hañ nu heyrde/ad hañ var siuk-
ur/ þa dvalde hañ tvo daga i þeim stad /
sem hañ var.
7 Sijdañ þar epter seiger hañ til lære-
sveinaña: laatum oss fara til Judæam
aptur.
8 Læresveinarner seigia til hañs : Meist-
are / næsta siñ þa leitudu Judar epter
*ad grijta þig/og þu fer aptur þangad-
ad? * c. 8/ 59.
9 Jesus svarade : eru þar ecke toolf
stunder i deige? ef nockur geingur um
dageñ/ hañ steiter sig eige/ þvi hañ sier
lioos þessa heims.
10 Eñ ef nockur geingur um nott/ hañ
steiter sig/ þviad lioosed er ecke i hønū.
11 Þetta sagde hañ/ og þar epter seiger
hañ til þeirra : Lazarus vinur vor *
sefur/eñ eg fer burt/ ad eg uppvekie hañ
af svefne. * Matth. 9/ 24.
12 Þa søgdu hañs læresveinar: Herra/
ef hañ sefur/þa batnar hønum.
13 Eñ Jesus talade um hans dauda /
eñ þr meintu/ ad hañ talade um hañs lijk-
amlegañ svefn.
14 Þa sagde Jesus þeim openberlega /
Lazarus er laaten:
15 Og eg er gladur fyrer ydar saker /
ad eg var ecke þar / so ad þier skylldud
trua. Eñ laatum oss gaanga til hans.
16 Þa sagde Thomas/sem kallast tvij-
bure/

bure/ til (sinna) med-læresveina: lätū oss
gänga med / ad vier deyū med honum.
17 Þa kom Jesus/ og fañ hñ/ ad hañ
hafde allareidu fioora daga i grøfeñe
leiged.
18 Eñ Bethania var nærre Jerusal-
em/ hier um̄ fimtan akraleingder fra.
19 Og marger Judar voru komner til
þra (kveña/ sm̄ voru) hiä Martha/ z
Maria / so ad þr hugguðu þær epter
broodur þeirra.
20 Sem Martha nu heyrer/ ad Jesus
kiemur/ reñur hun i moote honum / eñ
Maria sat i husenu.
21 Þa sagde Martha til Jesū: Herra/
hefder þu vered hier/ þa hefde broder
miñ ecke däed.
22 En eg veit eñ nu/ ad hvørs hellst þu
beidest af Gude / vill Gud veita þier.
23 Jesus seiger til heñar: broodur þiñ
skal upprijsa.
24 Martha seiger til hans: eg veit ad
hñ mun * upprijsa i upprisuñe/ a þeim
sijdasta deige. * c. 5/ 29.
C. 6/ 40. Luc. 14/ 14. Dan. 12/ 2.
25 Jesus sagde til heñar: eg er upp-
risañ og lijfed / hvør sm̄ truer a mig/
þo hñ deye/ * skal hñ lifa. * c. 14/ 6.
26 Og hvør sa/ sem lifer/ og * truer
a mig / skal ecke deyia eilijflega / truer
þu þessu? * c. 6. 35/ 40/ 50.
27 Hun seiger til hans: ja Herra/ * eg
hefe truad/ ad þu ert sa Christus/ sa
Son Guds/ sm̄ i heimeñ kiemur.
* C. 6/ 69.
28 Og er hun hafde þad sagt / gieck
hun burt/ z kallade a Mariu syst: sijna
heimuglega / og sagde: Meistareñ er
hier/ og kallar a þig.
29 Þegar hun heyrde (þad/) rijs hun
strax upp z kiemur til hans.
30 Eñ Jesus var ecke eñ þa komeñ i
þorped/ helldur var hñ i þm̄ stad/ * sm̄
Martha mætte honum. * v. 20.
31 Hvar fyrer Judarner/ sm̄ voru med
heñe i husenu / og hugguðu hana / þa
þr sau Mariu/ ad hun stood fliootlega
upp/ z gieck ut/ filgdu þr heñe epter/ og
søgdu: hun geingur burt til grafareñ-
ar/ ad hun græte þar.
32 Þa Maria kom þangad sm̄ Jesus
var/ og leit hñ/ fiell hun til foota hñs/
og sagde til hans: Herra/ hefder þu ver
ed hier/ þa hefde broder miñ ecke däed.
33 Þegar Jesus sa hana þa græta /
og Judana græta/ sm̄ komu med heñe /
bistest hañ i anda / og komst miøg vid
med sialfum sier/
34 Og sagde: hvar hafed þier lagt
hñ? þeir seigia til hñs: Herra / kom
og sia.
35 * Þa griet Jesus. * Luc. 19/ 41.
36 Þa søgdu Judarner: sia / hvørsu
hañ hefur elskad hañ.
37 Eñ nockrer af þeim søgdu: kuñe
ecke sa/ * sm̄ opnade augu þess blinda/
ad giøra þad / ad þesse hefde ecke dä-
ed? * c. 9. 6/ 7.
38 Hvørs vegna Jesus bistest aptur
med sialfum sier/ og kiemur til grafar-
eñar. Eñ þad var eirn jardmuñe / og
eirn * steirn var lagdur þar yfer.
* Matth. 27/ 60.
39 Jesus seiger: taked steineñ burt.
Martha / syster þess dauda / seiger til
hñs: Herra/ hñ lyktar allareidu illa /
þvi hñ hefur i fioora daga leiged.
40 Jesus seiger til heñar: sagde eg þier
ecke / ad ef þu trijder / munder þu sia
dijrd Guds.
41 Þa burt tooku þr steineñ / þar sem
hiñ daude var lagdur. Eñ Jesus * upp
lypte sijnum augū/ og sagde: Fader/ eg
þacka þier/ ad þu hefur heyrt mig.
* Matth. 7/ 34.
42 Eñ eg visse/ ad þu heyrer mig all-
tijd / þo * fyrer foolksens skulld / sem
standa i kring/ sagda eg (þad/) ad þeir
skyllde trua/ ad þu hefur sendt mig.
* C. 12/ 30.
43 Og er hñ hafde sagt þad/ hroopade
hañ med stoorre raust: Lazare/ (kom)
hijngad ut.
44 Og sa daude kom ut / vafeñ med
lijk-blæiu um̄ fætur og hendur/ og hñs
andlit var sveipad med einum sveita-
duk.

duk. Jesus seiger til þra: leyſed hñ/og
lꜳted (hañ) gꜳnga burt.
45 Hvar fyrer marger af Judum/ sem
voru komner til Mariu / og høfdu sied
þa hlute / sem Jesus hafde giort / *
trudu a hañ. * c. 10/ 42.
46 Eñ nockrer af þm̃ geingu burt til
pharisæaña/og søgdu þm̃/hvad Jesus
hafde giørt.
47 Þa* samkooku þr yppurstu prestar
og pharisæi eitt rꜳd / og søgdu: hvad
giørū vier til ? þvi þesse madur giører
mørg teikn. * Matth. 26/ 3.
Marc. 14/ 1. Luc. 22/ 2. P. G. 4/ 27.
48 Ef vier lꜳtū hñ so (sleppa/) mu-
nu aller trua a hñ/Og þeir Romversku
munu koma / og taka fra oss bæde vort
land og lyd.
49 Eñ eirn af þeim / Caiphas / sem
var þess ꜳrs ypparste prestur / sagde
til þeirra.
50 Þier vited alls eckert / ei helldur
hugleided/ad* þad er gagnlegt/ad eirn
madur deye fyrer foolked/ z allur lydur-
eñ ecke fordiarfest. * c. 18/ 14.
51 Eñ þad sagde hañ ecke af sier siælf-
um / helldur af þvi hñ var þess sama
ꜳrs ypparste prestur/ spꜳde hñ/ad Je-
sus skyllde deya fyrer lyden̄.
52 Og ecke alleinasta fyrer þañ lyd /
helldur z ad hñ þeim Guds børnū/ sem
voru sundurdreifd / skyllde * samañ-
safna i eitt. * Eph. 2/ 16.
53 Þar fyrer* uppfra þm̃ deige rꜳd-
slogudu þr / ad þr kyñu ad lyflꜳta hñ.
* Matth. 12/ 14.
54 Þa gieck Jesus ecke þadañaf op-
enberlega a medal Judaña/helldur gieck
þadañ i eitt bygdarlag nærre eydemørk-
eñe/i eina borg/sm̃ kallast Ephraim, z
dvaldest þar med sijnū læresveinum.
55 Eñ þad voru nꜳlæger pꜳskar Jud
aña/ og marger geingu upp til Jerusa-
lem ur þvi bygdarlage fyrer pꜳskana /
ad þeir hreinsudu sig.
56 Þa spurdu þeir epter Jesu/og tøl-
udu hvør vid añañ/er þeir stoodu i must
erenu: hvad virdest ydur/ ad hñ kiemur
ecke til hꜳtijdareñar?
57 Eñ bæde þeir yppurstu prestar og
pharisæi høfdu giefed ut eitt bodord /
ad ef nockur visse hvar hñ være/skylldu
þeir giefa (þad) til vitundar/so ad þeir
kyñu ad grijpa hañ.

## XII. Capitule.

Christur rijdur iñ i Jerusalem/ og seig
er fyrer siñ Dauda og Upprisu.

Þa* kom Jesus sex døgum fyr-
er pꜳska til Bethania / þar
sem Lazarus hafde vered daud
ur/ hvørn hañ hafde uppreist
fra daudum. * Matth. 26/ 6.
2 Þa giørdu þr hønū eina kvølldmꜳl-
tijd/og Martha þioonade/eñ* Lazarus
var eirn af þeim / sm̃ sꜳtu (til bords)
med hønum. * c. 11. 14/ 43.
3 Þa took * Maria eitt pund af omein
gudu og miøg dijrmætu nardus-salve/
og smurde fætur Jesu/ og þurkade
hans fætur med sijnum hꜳr lockum/ eñ
hused vard fullt af ylm smyrslaña.
* Marc. 14/ 3. etc.
4 Þa sagde * eirn af hñs læresveinū/
Judas Simons (son) Ischariotes /
sem ætlade sier ad forrꜳda hañ:
* Matth. 26/ 8.
5 Hvar fyrer var þetta salve ecke selt
fyrer þriu hundrud peninga/ og giefed
fꜳtækum?
6 Eñ þad sagde hañ ecke/af þvi/ ad
hñ hefde umsorgun fyrer þm̃ fꜳtæku /
helldur af þvi hañ var eirn þioofur/ z
* hafde fie pungeñ / og bar/hvad þar
var kastad i. * c. 13/ 29.
7 Þa sagde Jesus: lꜳted hana (kyrra)
þetta hefur hun geimt til dags miñar
greftrunar.
8 Þvi fꜳtæka hafed þier jafnañ * hiꜳ
ydur siꜳlfum / eñ mig hafed þier ecke
alltijd. * 5. Mos. 15/ 11. Matth. 26/ 11.
9 Þa fornam eirn stoor flockur af Jud
unum/ad hañ var þar/ og þr komu ecke
einasta fyrer saker Jesu/ helldur og ad
þr sæe Lazarū / * hvørn hñ hafde upp
reist fra daudum. * c. 11. 43/ 44
10 Eñ þr yppurstu prestar høfdu rꜳd
slagad/

ſlagad / ad þr kyſte z ad drepa Lazarū.
11 Þvi fyrer hans ſaker geingu marg-
er af Judunū i burt/ z trudu a Jeſum.
12 Þañ añañ dag/ þegar margt foolk/
ſem var komed *til hątydareñar/heyr-
de/ad Jeſus kiemur til Jeruſalem:
* Matth. 21/ 8.
13 Tooku þr*palmagreiner/og gein-
gu ut i mooti hønū/ og hroopudu: **
hoſanna/bleſſadur vere ſa/ ſm̄ kiemur i
nafne Drottens/ſa konungur Iſraels.
*Matth. 21. 8/9. Pſ. 118. 25/26. **Matth.
23/ 39. Marc. 11. 8/9. Luc. 9. 37/38.
14 En Jeſus fañ * eirn lityñ aſna/og
ſat a hønum/ſem þar er ſkrifad:
* Matth. 21/ 7.
15 Ottaſtu ecke dootturen Zion/ſiaa/*
þiñ konungur kiemur ridande a einum
øſnufola. * Zach. 9/ 9. etc.
16 En þetta ſkildu ecke læreſveinar-
ner i fyrſtu/ eñ er Jeſus var forklaarad-
ur / þa kom þeim i hug / ad þetta var
ſkrifad um̄ hñ / og ad þeir høfdu giort
hønum þetta.
17 En foolked/ bar hønum vitne (þar
um̄) þad ſm̄ med hønū var/ad hañ kall-
ade Lazarum ur grøfeñe / og uppreiſte
hañ fra daudum.
18 Þar fyrer gieck og foolked i mooti
hønū/ þvi þeir høfdu heyrt/ad hñ hef
de giort þad teikn.
19 Þa ſøgdu phariſæi ſin a mille: þier
ſiaed/ad þier utrietted alls eckert/ſiaa/
hvør madur er geingeñ epter hønum.
20 En þar voru og nockrer Grickar
af þm̄/ ſem voru komner upp/ ad þeir
bæduſt fyrer a hątydeñe.
21 Þeir geingu þa til * Philippum/ſm̄
var af Bethſaida i Galilæa / og bædu
hñ/ z ſøgdu: Herra/ ** vier viltum ſiaa
Jeſum. * c. 1/ 44. ** Luc. 19/ 3.
22 Philippus kiemur/ z ſeiger Andreæ
(þad/) og Andreas z Philippus ſeigia
(þad) aptur Jeſu.
23 En Jeſus ſvarade þm̄ / og ſagde:
Su ſtund er komeñ/ *ad Son Mañſens
forklareſt. c. 13/ 31. c. 17/ 1.
24 Sañlega/ſañlega ſeige eg ydur: ne-
ma * hveitekorned falle a jørdena og
deye / bliffur þ einſamallt/ eñ ef þ deyr/
ber þad mikeñ avøxt. * 1. Cor. 15/ 37.
25 * Hvør ſm̄ elſkar ſitt lijf /mun miſſa
þad / og hvør ſm̄ hatar ſitt lijf i þeſſu
heime / mun vardveita þad til eilijfs
lijfs. * Luc. 17/ 33. etc.
26 Ef nockur þioonar mier / hñ filge
mier epter/ z * hvar ſm̄ eg er/ þar ſkal z
miñ þienare vera. Og ef nockur þion-
ar mier/ þañ mun Fadereñ heidra.
* C. 14/ 3.
27 Nu er * ſaala miin hrigg/ z hvad ſkal
eg ſeigia? Fader/ frelſa mig fraa þeſſara
ſtundu / En þar fyrer er eg komeñ til
þeſſarar ſtundar. * Matth. 26/ 38.
28 Fader/ forklaara þu nafn þitt. Þa
kom rødd af himne : eg hefe bæde for-
klarad / og vil aptur forklaara.
29 Þa ſagde foolked/ſem (þar) ſtood og
heyrde þad: þad hefde þrumad / Adrer
ſøgdu: eirn eingell talade til hans.
30 Jeſus ſvarade/ og ſagde: þeſſe rødd
ſkiede ecke miña vegna / helldur * ydar
vegna. * c. 11/ 42.
31 Nu er doomur þeſſa heims / nu *
mun og þeſſa heims høfdinge utſnar-
aſt. * c. 16/ 11.
32 Og nær eg * verd upphafeñ fra jør-
du / vil eg ** alla draga til miin ſial-
fs. * c. 3/ 14. ** c. 6/ 44.
33 En hañ ſagde þad / ad teikna med
hvada dauda hñ munde deya.
34 Foolked ſvarade hønū: vier høfum
heyrt af løgmaalenu/ ad þeſſe Chriſtus
* bliffur eilijflega / og hvørneñ ſeiger
þu / ad þad byrie Syne Mañſens upp
ad hefiaſt? hvør er ſa Son Mañſens?
* Pſ. 110/ 4.
35 Þa ſagde Jeſus til þeirra: * eñ nu
eirn lijteñ tijma er lioosed hiaa ydur /
ganged/ þa ſtund þier hafed liooſed/ſo
ad myrkureñ høndle ydur ecke. Hvør ſm̄
geingur i myrkrunū/veit ecke/ hvørt hñ
geingur. * c. 1/ 9. c. 8/ 12.
36 Medañ þier hafed liooſed / trued a
liooſed/ſo ad þier ſieud * børn liooſſens.
Þetta talade Jeſus/ og gieck burt / og
hulde ſig fyrer þeim. * Eph. 5/ 9.

37 Enn þott hn̄ hefde giørt so mørg
teikn fyrer þm̄ / (þa) trudu þeir ecke
a hann.
38 So ad ræda Esaiæ spamannsins skyllde
fullkomnast / er hn̄ seiger: * Drottenn /
hvør hefur truad vorre heyrn / og hvør-
ium er armleggur Drottens openberad-
ur? * Es. 53/1. Rom. 10/16.
39 Þar fyrer kunnu þeir ecke ad trua /
þviad Esaias * seiger aptur:
* Es. 6/9. Luc. 8/10. etc.
40 Hann hefur forblindad augu þra / og
forherdt hiørtu þeirra / ad þeir skylldu
ecke sia med augunum / z skynia med hiar-
tanu / og snua sier / og eg lækne þa.
41 Þad sagde Esaias / þa hn̄ sa hns
dyrd / og talade um̄ hann.
42 Þo samt trudu marger af þm̄ ypp-
urstu a hn̄ / en̄ fyrer Phariseis med-
kiendu þeir (þad) ecke / so ad * þr skyllde
ecke verda utelukter af samkundunne.
* C. 9/22.
43 Þvi þeir * elskudu dyrd mannanna /
meir en̄ dyrd Guds. * C. 5/44.
44 Enn Jesus hroopade / z sagde: hvør
sm̄ truer a mig / truer ecke a mig / helld-
ur * a hn̄ / sem sende mig. * 1. Pet. 1/21.
45 Og hvør sem sier mig / sier hn̄ / sem
sende mig.
46 Eg er * lioos komenn i heimenn / so
ad hvør sa / sem truer a mig / blyfe ecke i
myrkrunum. * C. 1/9. etc.
47 Og ef nockur heyrer myn ord / og
* truer ecke / þann dæme * * eg ecke / þvi
eg er ecke komenn / ad eg dæme heimenn /
helldur ad eg frelse heimenn.
* Marc. 16/16. ** Joh. 3/17.
48 Hvør hn̄ foraktar mig / og medtek-
ur ecke myn ord / * hefur þann / er hann
dæmer / þad ord / sm̄ eg talade / þad mun
dæma hn̄ a þeim efsta deige. * C. 3/18.
C. 8/24.
49 Þvi eg hefe ecke talad af mier sialf-
um / helldur / sa ed mig sende / Faderenn /
hann hefur giefed mier bodord / hvad eg
skule seigia / og hvad eg skule tala.
50 Og eg veit / ad hans bodord er ei-
lyft lyf. Þar fyrer / þad eg tala / tala
eg og so / sm̄ Faderenn hefur sagt mier.

## XIII. Capitule.

Christur þvær Fætur Læresveinanna / z
aminner þa til innbyrdes Kiærleika.

Enn fyrer þ paska hatydena / þeg-
ar Jesus visse / ad hns stund var
komenn / ad hann skyllde fara fra
þessum heime til Fodursens / þeg-
ar hn̄ hafde elskad syna eigen / sm̄ voru
i heimenum / elskade hn̄ þa til enda.
* Marc. 14/1. etc.
2 Og ad halldenne kvølldmaaltydenne /
þegar * diøfullenn hafde skoted i hiarta
Judæ Simonis (sonar) Ischariotæ / ad
hn̄ skyllde forraada hann. * Luc. 22/3.
3 Sem Jesus visse / ad * Faderenn hafde
giefed hønum alla hlute i hendur / og ad
hn̄ utkom fra Gude / og fære til Guds.
* Matth. 11/27. C. 28/18.
4 Þa stendur hn̄ upp fra kvølldmaal-
tydenne / og leggur af sier klædenn / og took
eitt lynklæde / og girdte um̄ sig.
5 Þar epter hellte hann vatne i munn-
laug / og took ad þvo fætur læresvein-
anna / og þerra þa med lynklædenu sem
hn̄ var med girdtur.
6 Þa kiemur hann til Simonar Pe-
tri / z hn̄ seiger til hans: Herra / þvær
þu mynar fætur?
7 Jesus svarade z sagde til hns: Hvad
eg giore / veitst þu ecke nu / en̄ þu skallt
skynia þad hier epter.
8 Petur seiger til hns: Þu skallt aung
vannveigenn þvo mynar fætur ad eilyfu.
Jesus svarade hønum: ef eg ecke þvæ
þig / þa hefur þu ecke hlutdeild med
mier.
9 Simon Petur seiger til hns: Herra /
ecke fætur mynar einasta / helldur og so
hendurnar og høfuded.
10 Jesus seiger til hns: Hvør sm̄ þveig-
enn er / hefur ecke þørf / nema ad þvo
fæturnar / helldur er hn̄ allur hreinn / og
* þier erud hreiner / en̄ ecke aller.
* C. 15/3.
11 Þvi hn̄ * þeckte þann / sem hann munde
svykia / þar fyrer sagde hann: Þier erud
ecke aller hreiner. * C. 6/64.
12 Þegar hn̄ hafde nu þveiged fætur
þeirra /

fra/og teked sijn klæde/settest hñ aptur
nidur / og sagde til þeirra : vited þier
hvad eg hefe giørt ydur ?
13 Þier kalled mig * Meistara ꝛ Her-
ra/ og þier seiged riett/þvi eg er þad.
* Matth. 23. 8/ 10.
14 Hafe eg þa þveiged ydar fætur /
sm̄ er Herrañ og Meistareñ / þa erud
þier og * skyllduger ad þvo hvørier añ-
ara fætur. * Luc. 22/ 27.
15 Þvi eg hefe * giefed ydr epterdæme/
ad eins sm̄ eg giørde ydur/ skulud þier
og giøra. * 1. Pet. 2/ 21. 1. Joh. 2/ 6.
16 Sañlega/ sañlega seige eg ydur : *
þienareñ er ecke meire sijnū herra / og
ecke eirn postule meire hønum er sende
hañ * c. 15/ 20. Matth. 10/ 24.
17 Ef þier vited þetta/ erud þier sæl-
er/ ef * þier giøred þad. * Matth. 7/ 24
18 Eg seige ecke um̄ ydur alla/ eg veit/
hvøria eg hefe utvaled/ helldur so ad *
ritningeñ uppfillest : sa sm̄ etur braud
med mier/ hefur upplipt sijnum hæl
moote mier. * Ps. 41/ 10. etc.
19 Fra þvi nu seige eg ydur þad/ ædur
eñ þad skiedur / so ad nær þad er skied /
ad þier skuled trua / ad þad er eg.
20 Sañlega / sañlega seige eg ydur : *
hvør sem medtekur / ef eg sende nock-
urn / medtekur mig / eñ hvør sem mig
medtekur/ medtekur þañ/ er sende mig.
* Matth. 10/ 40. Luc. 9/ 48. C. 10/ 16.
1. Thess. 4/ 8.
21 Þa Jesus hafde þetta sagt : komst
hñ miøg vid i anda/ og vitnade/ og sag-
de: * sañlega/ sañlega seige eg ydur/ ad
eirn af ydur mun forrꝫda mig.
* Matth. 26. 20/ 21. etc.
22 Þa litu læresveinarner hvør til añ-
ars/ og * efudust/ um̄ hvørn hellst hañ
talade. * Luc. 12/ 50.
23 Eñ þar * var eirn a medal hans
læresveina / sem lꝫ (til bords) i Jesu
fadme/ hvørn Jesus elskade. * c. 21/ 20.
24 Þessum bente þa Simon Petur/ ad
(hañ skyllde) lertait epter / hvør þad
munde vera/ er hñ talade um̄.
25 Eñ sa same/ med þvi hañ lꝫ upp
vid Jesu briost / seiger hañ til hans :
Herra/ hvør er sa?
26 Jesus svarade/ þad er sa/ hvørium
eg gief þañ bita/ er eg drep ofañ i. Og
hñ drap bitanū ofañ i/ og gaf hñ Ju-
dæ Simonis (syne) Ischariotæ.
27 Og epter þañ bita þa foor satan
i hañ. Þa seiger Jesus til hñs: hvad
þu giører/ þad giør þu snarlega.
28 Eñ þad visse eingeñ af þm̄/ sm̄ sꝫtu
til bordsens / hvar til hañ sagde hon-
um þad.
29 Þvi nockrer meintu / med þvi Ju-
das * hafde fiepungeñ/ ad Jesus segde
til hñs : kaup þad hvørs vier høfum
þørf til hꝫtijdareñar/ edur ad hñ skyll-
de giefa fꝫtækum nockud. * c. 12/ 6.
30 Þa hñ hafde bitañ teked/ gieck hañ
strax ut/ eñ þad var noott.
31 Þegar hañ var nu utgeingeñ/ seiger
Jesus: nu er Son Mañsens forklꝫrad
ur / og Gud er forklꝫradur i hønum.
32 Sie Gud forklꝫradur i hønū/ * þa
mun Gud og forklꝫra hñ i sier sialfū/
og snarlega mun hñ forklꝫra hañ.
* C. 12/ 23.
33 Sona korn / eg er eñ nu lijteñ tijma
hiꝫ ydur. Þier munud leita epter mier/
og so sm̄ eg * sagde til Judaña/ ad hvørt
eg fer / kuñed þier ecke ad koma. Og
eg seige ydur nu : * c. 7/ 34. c. 8/ 21.
34 Nijtt bodord gief eg ydur/ ad * þier
elsked hvørier adra/ so sm̄ eg elskade yd-
ur/ ad þier ꝛ elsked hvørier adra.
* Marc. 12/ 31. etc.
35 * Þar af munu aller þeckia/ ad þier
erud mijner læresveinar / ef þier hafed
kiærleikañ iñbyrdes. * 1. Joh. 2/ 5.
36 Simon Petrus seiger til hans :
Herra / hvørt fer þu ? Jesus svarade
hønū : * hvørt eg fer / kantu nu ecke
filgia mier/ eñ * * sijdar muntu filgia
mier. * c. 7/ 34. * * c. 21. 18/ 19.
37 Petur seiger til hñs: Herra/ hvar
fyrer kañ eg ecke filgia þier nu / eg vil
setia mitt lijf ut fyrer þig?
38 Jesus svarade hønum: setur þu
þitt lijf ut fyrer mig? sañlega/ sañlega
seige

seige eg þier: * Haneñ mun ecke gala/
aadur eñ þu munt afneita mier þris-
var. * Marc. 14. 30/ 72. etc.

XIV. Capitule.

Christur helldur eina Huggunar Pre-
dikun fyrer sijnum Læresveinum.

Dar * hiarta skielfest ecke. * *
Trued þier a Gud/ þa trued
þier og a mig. * v. 27.
* * c. 12/ 44.
2 J mijns Fodurs huse eru * margar
vistarverur. Ef (þad) ecke (være so)
þa hefde eg sagt ydur (þad). Eg fer
burt ad tilbua ydur stad. * 2. Cor. 5/ 1.
3 Og nær eg er burtfareñ / og er bueñ
ad tilbua ydur stad/ kiem eg aptur/ og
vil * taka ydur til mijn sialfs / so ad
hvar eg er/ skuled þier og vera.
* C. 12/ 26. C. 17/ 24.
4 Og hvørt eg fer/ viked þier/ og veig
eñ viked þier.
5 Thomas seiger til hans: Herra/ vier
vitum ecke hvørt þu fer / og hvørneñ
kuñum vier veigeñ ad vita?
6 Jesus seiger til hans: * eg er veg-
ureñ / z sañleikureñ z lijfed / Eingeñ
kiemst til Fodursens/ nema * * fyrer
mig. * Ebr. 9/ 8. * * Eph. 2/ 18.
C. 3/ 12. Ebr. 7/ 25. C. 10/ 19. 2. Cor. 3/ 4.
1. Pet. 1/ 21.
7 Ef þier þeckud mig / þeckud þier
og Fodur miñ / z nu hier epter þecked
þier hñ/ og hafed sied hañ.
8 Philippus seiger til hans: Herra/
sijn oss Fodureñ/ og þad er oss noog.
9 Jesus seiger til hans: so leinge er eg
hia ydur / og hefur þu ecke þeckt mig?
Philippe/ * hvør mig hefur sied/ hefur
sied Fodureñ/ og hvørneñ seiger þu: sijn
oss Fodureñ? * c. 12/ 45.
10 Truer þu ecke/ ad eg * er i Fodur-
num/ og Fadereñ er i mier? þau ord/ sm̃
eg tala til ydar / tala eg ecke af mier
sialfum/ helldur Fadereñ / sm̃ blijfur i
mier/ hañ sialfur giører verkeñ.
* C. 10/ 38. C. 17/ 21.
11 Trued mier/ ad eg er i Fodurnum/ z
Fadereñ i mier/ eñ vilied þier ecke/ (so)
* trued mier (þo) fyrer saker sialfra
verkaña. * c. 10/ 25.
12 Sañlega/ sañlega seige eg ydur:
hvør sm̃ truer a mig/ þau verk/ sem eg
giøre/ mun hañ og giøra/ og hañ mun
giøra stærre eñ þesse / þvi eg fer til
mijns Fodurs.
13 Og hvørs þier * bidied i mijnu naf-
ne/ þad vil eg giøra/ so ad Fadereñ for
klarest i Synenum. * Marc. 11/ 24. etc.
14 Ef þier bidied nockurs i mijnu naf-
ne/ vil eg giøra þad.
15 Ef * þier elsked mig/ (þa) hallded
mijn bodord. * c. 15/ 10. 1. Joh. 5/ 3.
16 Og eg vil bidia Fodureñ / og eiñ
añañ Talsmañ mun hñ giefa ydur/ ad
hñ skule vera hia ydur eilijflega.
17 Hañ sañleikans Anda/ hvørn * heim
ureñ fær eige medteked / þvi hñ sier hñ
ecke/ ei helldur þecker hañ/ eñ * * þier
þecked hñ/ þvi hñ blijfur hia ydur/ og
skal vera i ydur. * Spek. 1. 4/ 5.
* * Joh. 7/ 39.
18 Eg vil * ecke skilia ydur epter fod-
urlausa/ eg kiem til ydar. * Jer. 51/ 5.
19 Þad er eñ nu lijtell tijme/ og heimur
eñ mun ecke sia mig meir/ eñ þier skul-
ud sia mig / þvi eg life / og þier skul-
ud lifa.
20 A þm̃ deige munud þier skilia/ ad *
eg er i mijnu Fodur/ og þier i mier/ og eg
i ydur. * c. 17. 21/ 22.
21 Hvør sm̃ hefur mijn bodord/ og helld
ur þau/ hñ er sa/ sm̃ elskar mig/ eñ hvør
mig elskar / mun elskast af mijnu Fod-
ur/ og eg skal elska hñ/ og openbera hønũ
um mig sialfañ.
22 Judas seiger til hñs/ ecke sa Ischa-
riotes: Herra/ hvad er þad/ ad þu villt
openbera oss þig sialfañ / og ecke heim-
enum?

(Evangelium a Hvijtasuñu.)

23 Jesus svarade / og sagde til hans:
Ef * nockur elskar mig/ hañ mun
hallda mitt ord/ z miñ Fader mun elska
hñ/ og vid munum til hñs koma/ og hia
hønũ vistarveru giøra. * Ords. 8/ 17.
24 Hvør sm̃ ecke elskar mig/ hñ helld-
ur ecke mijn ord / og þad ord / sem þier
heyred/

heyred/er ecke mitt/helldur Fodursens/
sem sende mig.
25 Þetta hefe eg talad til ydar / hiaa
ydur verande.
26 Enn Talsmadurenn/sa Heilage An-
de/ hvorn Faderenn * mun senda i mijnu
nafne/ hann mun kienna ydur alla hlute /
og minna ydur a alla hlute / sem eg sag-
da ydur. * c. 15/26. etc.
27 Frid * læt eg epter hiaa ydur/ minn
frid gief eg ydur / ecke so sem heimurenn
giefur/ þa gief eg ydur(hann.) Ydar hiar-
ta hrædest ecke nie skielfest. * Phil. 4/7
28 Þier hafed heyrt/ad eg sagda ydur:
eg fer burt/ og kiem til ydar / Ef þier
elskudud mig / þa gleddust þier / ad eg
sagde, eg fer til Fodursens/þvi * Fad-
ir minn er mier meire. * c. 10/ 29.
29 Og nu hefe eg sagt ydur(þad/)fyrr
enn þad skier / ad nær þad er skied / ad
þier (þa) skylldud trua.
30 Hiedann af mun eg ecke margt tala
vid ydur / þviad þessa heims hofdinge
kiemur/ og med mig hefur hann alls eckert.
31 Helldur ad heimurenn skule þeckia /
ad eg elska Fodurenn/og * eins sem Fader-
enn hefur mier boded/ so giore eg/ )
Standed upp / latum oss ganga hied-
ann. * c. 10/ 18.

## XV. Capitule.

### Christur helldur aframm somu Predikun.

Eg em þad sanna vijntrie/og minn
Fader er vijngards-madurenn.
2 Hvoria grein a mier/ * sem
ecke ber avoxt/ hana burttek-
ur hann/ og hvoria þa / sem ber avoxt /
hreinsar hann / ad hun skule bera meire
avoxt. * Matth. 15/ 13.
3 Nu erud þier hreiner fyrer þad ord/
sem eg hefe talad til ydar.
4 Blijfed * i mier/ og eg i ydur. Eins
sem greinenn kann ecke bera avoxt af
sier sialfre/nema hun blijfe a vijntrenu/
so og ecke helldur þier/nema þier blijfed
i mier. * c. 6/ 56.
5 Eg em vijntried / þier erud greiner-
nar/ hvor sem blijfur i mier/og eg i hon-
um/ hann ber mikenn avoxt/ þvi * an mijn
faaed þier alls eckert giort. * 2 Cor 3/5
6 Ef nockur ecke blijfur i mier / hann
verdur ut kastadur sem ein grein/og visn
ar/og þeir safna þeim/og * kasta a elld/
og þar brenna. * Matth. 3/ 10.
7 Ef þier blijfed i mier / og mijn ord
blijfa i ydur/(þa) * hvad sem þier vilied/
(þess)beidest/ og þad skal veitast ydur.
* Marc. 11/ 24. etc.
8 Þar i er minn * Fader vegsamadur /
ad þier bered mikenn avoxt / og verded
mijner læresveinar. * Matth. 5/ 16.
9 Eins sem Faderenn elskade mig / so
hefe eg og elskad ydur/ blijfed i astsem-
denne/i þeirre/ sem er mijn.
10 Ef þier * halldid mijn bodord/ mun
ud þier blijfa i minne astsemd/ eins sem
eg hefe hallded mijns Fodurs bodord/ og
blijf i hans astsemd. * c. 14/15.
1. Joh. 5/3.
11 Þetta hefe eg talad til ydar / ad sa
minn fognudur blijfe i ydur / og * ydar
fognudur verde fullkomenn. * c. 16/24.
12 Þetta * er þad mitt bodord/ ad þier
skuled elska hvorier adra / eins sem eg
hefe elskad ydur. * Marc. 12/ 31. etc.
13 Enginn hefur meire * astsemd/ enn
þessa/ad ef nockur setur sitt lijf ut fyr-
er sijna vine. * c. 3/ 16. etc.
14 Þier erud * mijner viner/ef þier giør
ed hvad helst eg bijfala ydur. * c. 8/31.
15 Eg kalla ydur ecke leingur þienara/
þvi þioonenn veit ecke/hvad hans Herra
giører/enn ydur hefe eg kallad vine/ þvi
allt þad/sem eg heyrde af mijnum Fod-
ur/hefe eg kunngiort ydur.
16 * Eige utvolldud þier mig / enn eg
hefe utvaled ydur/ og tilsett ydur / ad
þier skilldud * * ganga burt/ og bera a-
voxt/ og ydar avoxtur skule vara/ so ad
hvors þier biduied Fodurenn i mijnu naf-
ne/ þad skule hann giefa ydur. * Es. 43/2.
** Matth. 28/19.
17 Þad * bijfalade eg ydur/ad þier elsk-
ed hvorier adra. * c. 13/ 34.
18 Ef heimurenn hatar ydur/ (þa)vit-
ed/

ed/ad hñ hefur hatad mig fyrr eñ ydur.
19 Værud * þier af heimenū/ þa elsk-
ade heimureñ þad (hans) eiged (er/) eñ
* * med þvi þier erud ecke af heimenū/
helldur hefe eg utvaled ydur af heimen-
um/ þar fyrer hatar ydur heimureñ.
* 1. Joh. 4/ 5. ** Joh. 17/ 14.
20 Miñest þess ords/ sm̄ eg sagda yd-
ur: * eirn þienare er ecke meire sijnum
Herra: hafe þr offsookt mig / munu þr
og ydur offsækia. Hafe þr halldeð mitt
ord/ munu þr og hallda ydar.
* Matth. 10/24. Luc. 6/ 40. Joh. 13/16.
21 Eñ allt þetta munu þr giøra ydur
vegna mijns nafns/ þvi * þr þeckia ecke
hñ/ sm̄ sende mig. * c. 16/ 3.
22 Ef eg være ecke komeñ / og hefde
talad til þra/ hefdu þr ecke synd/ eñ nu
hafa þr ecke (jafnvel) eitt yferskyn/ ad
afsaka sijna synd med.
23 Hvør mig hatar / hatar og miñ
Fødur.
24 Hefde * eg ecke giørt þau verk a
medal þra/ sm̄ eingeñ añar hefur giørt/
hefdu þeir ecke synd / eñ nu hafa þeir
bæde sied þad/ og hata bæde mig ꝛ miñ
Fødur. * c. 10/ 37.
25 Helldur ad uppfilldest su ræda sem
er skrifud i þra løgmaale: þr høtudu
mig * oforskulldad. * Ps. 35/ 19.
Ps. 59/ 5.

(Evang. VI. S. D. epter Paaska.)

26 Eñ nær * sa Talsmadureñ kiemur/
hvørn eg mun senda ydur fra Fød
urnū/ sa Ande sañleikans/ sm̄ utgeing-
ur af Fødurnum / hañ mun vitna um̄
mig. * Luc. 24/ 49. Joh. 14/ 26.
P. G. 1/ 4.
27 Eñ þier * munud og vitna / þvi
þier erud med mier fra upphafe.
* P. G. 1/ 8. C. 5/ 32.

## XVI. Capitule.

Christur helldur eñ aþram̄ sømu
Predikun.

Þetta hefe eg talad til ydar / so
ad þier hneixlest ecke.
2 * Af samkundu husunum
munu þr utelykia ydur / þm su
stund mun koma/ad hvør sa sm̄ lijflæt-
ur ydur/ mun meina/ ad hñ giøre Gude
dijrkan. * Matth. 24/ 9. Marc. 13/ 9.
Luc. 21/ 12.
3 Og þetta munu þeir giøra ydur / af
þvi þeir * þeckia hvørke Fødureñ nie
mig. * C. 15/ 21. 1. Cor. 2/ 8.
4 Þetta hefe eg talad til ydar/ad þeg-
ar su stund kiemur / * ad þier miñest
þess/ ad eg sagda ydur (þad.) Eñ þetta
sagda eg ydur ecke af upphafe / þvi eg
var hia ydur.) * c. 13/ 19. c. 14/ 29.

(Evang. IV. S. D. epter Paaska.)

5 Eñ nu * fer eg til hñs/ sm̄ sende mig/
og eingeñ af ydur spyr mig: hvørt
fer þu? * c. 7/ 33.
6 Helldur af þvi eg talade þetta til
ydar / þa uppfilltest af hrigd ydvart
hiarta.
7 Eñ eg * seige ydur sañleikañ: þad er
ydur gagnlegt/ ad eg fare burt/ þvi fare
eg ecke burt/ mun * * Talsmadureñ ecke
koma til ydar / eñ fare eg burt/ mun eg
senda hñ til ydar. * c. 8/ 46.
** C. 14. 16/ 26.
8 Og nær hañ kiemur/ mun hañ straffa
heimeñ fyrer syndena/ og fyrer riettlæt-
ed/ og fyrer doomeñ.
9 Fyrer syndena ad søñu / af þvi þeir
trua ecke a mig.
10 Eñ fyrer riettlæted / af þvi eg fer
til mijns Fødurs / og þier siaeð mig
ecke leingur.
11 Eñ fyrer doomeñ / af þvi * høfd-
inge þessa heims er dæmdur. * c. 12/ 31.
C. 14/ 30.
12 Eg hefe eñ nu margt ad seigia yd-
ur/ eñ þier kuñed ecke ad bera (þad) nu.
13 Eñ nær hañ / sa Ande sañleikssens
kiemur/ mun * hñ leida ydur i allañ sañ
leika/ þvi hñ mun ecke tala af sier siaalf
um/ helldur hvad hellst hñ heyrer/ mun
hñ tala / og þa (epter-) komande hlute
mun hañ kuñgiora ydur. * c. 14/ 26.
14 Hañ mun giøra mig dijrdlegañ/ þvi
hñ mun af mijnu taka ꝛ kuñgiøra ydur.
15 * Aller hluter/ sm̄ Fadereñ hefur/
eru mijner/ þar fyrer sagda eg/ ad hañ
mun

mun af mÿnu taka/og kuñgiøra ydur.)
* C. 17/10.

(Evang. III. S. D. epter Paaska.)

16 (Þad er)* eirn lÿtell tÿme/ og þier
munud ecke sia mig / og aptur
eirn lÿtell tÿme/og þier skulud sia mig/
þvi eg fer til Fødursens. * C. 7/ 33.
C. 13/ 33.
17 Þa søgdu (nockrer) af hans lære-
sveinũ hvør til añara: hvad er þad/
sem hañ seiger oss: (þad er) eirn lÿtell tÿ-
me/og þier munud ecke sia mig/og apt-
ur eirn lÿtell tÿme / og þier skulud sia
mig? og/þvi eg fer til Fødursens?
18 Þa søgdu þr: hvad er þad/sem hañ
seiger/ sa litle tÿme? vier vitũ ecke hvad
hañ seiger.
19 Þa visse Jesus/ad þeir villdu spyr-
ia hañ / og hañ sagde til þra: þar ad
spyried þier ydar a mille / ad eg sagde:
(þad er) eirn lÿtell tÿme / og þier mun-
ud ecke sia mig / og aptur eirn lÿtell tÿ-
me/og þier skulud sia mig.
20 Sañlega / sañlega seige eg ydur:
þier munud grata z skÿta/eñ heimureñ
mun fagna/ z þier munud hriggver ve-
ra/ eñ ydar hrigd skal snuast i føgnud.
21 * Kviñañ/ nær hun fæder / hefur
hrigd/ þvi ad heñar stund er komeñ/ eñ
nær hun hefur fædt barned/miñest hun
ecke þeirrar þreingingar / fyrer føgn-
ude/ þvi madur er boreñ i heimeñ.
* Es.26/ 17.
22 Og þier hafed þar fyrer nu ad søfnu
hrigd/eñ eg skal sia ydur aptur/og ydar
hiarta skal fagna/ z * ydvarn føgnud
tekur eingeñ fra ydur. * Es. 35/10.
23 Og * a þm sama deige munud þier
ecke spyria mig ad nockru.) * C. 14/20.

(Evang. V. S. D. epter Paaska.)

Sañlega/sañlega seige eg ydur/ad um
hvad hellst þier * bidied Fødureñ i
mÿnu nafne/mun hñ giefa ydur.
* Marc 11/ 24. etc.
24 Hingad til hafed þier ecke beded
nockurs i mÿnu nafne/bidied/z þier skul
ud medtaka / ad ydar føgnudur full-
komnest.
25 Þetta hefe eg i ordskvidum til ydar
talad/ eñ þar kiemur su stund / nær eg
mun ecke tala framar vid ydr i ordskvid
um/helldur opeñberlega kuñgiøra ydur
um miñ Fødur.
26 A * þm sama deige munud þier bid
ia i mÿnu nafne / og eg seige ydur ecke/
ad eg mune bidia Fødureñ fyrer ydur.
* C. 14/ 20.
27 Þvi * Fadereñ sialfur elskar ydur/af
þvi þier elskudud mig/ z ** trudud ad
eg er af Gude utgeingeñ. * C. 14/ 21.
** C. 17. 8/ 25.
28 Eg utgieck fra Fødurnum/og kom
i heimeñ/eg * fyrerlæt aptur heimeñ/z
fer til Fødursens. * C. 13/ 3.
29 Hañs læresveinar seigia til hñs: z
sia/ nu talar þu berlega / og aungvañ
ordskvid mæler þu.
30 Nu vitum vier / ad * þu veist alla
hlute/og hefur ecke þørf/ad nockur spy
rie þig. Af þessu truum vier/ad þu ut
giekst fra Gude.) * C. 21/ 17.
31 Jesus svarade þm: nu trued þier:
32 Sia/su stund mun koma/ z er alla-
reidu komeñ / ad * þier munud sundur
tvÿstrast hvør til sÿns / z mig einsam-
añ epterskilia/ z eg er ** ecke einsam-
añ/ þvi Fadereñ er med mier.
* Marc. 14. 27. etc. ** Joh. 8/ 16.
33 Þetta hefe eg talad til ydar / so ad
þier * skilldud hafa frid i mier/i heim-
enum hafed þier þreinging / eñ ver
ed hughrauster/ eg hefe yferuñed heim-
eñ. * C. 14/ 27. Rom. 5/ 1.
Eph. 2/ 13. Col. 1/ 20.

## XVII. Capitule.

### Christur giører eina langa Bæn til sÿns Fødurs.

Þetta talade Jesus / og * upp-
lypte sÿnũ augũ til himens/og
sagde: Fader/ stundeñ er kom-
eñ/ vegdfrægdu Son þiñ/ so ad
þiñ Sonur og vegdfræge þig.
* C. 11/ 41.
2 * So sm þu hefur giefed hønũ vald
yfer øllu hollde, ad øllu þvi/sm þu hef
ur giefed hønũ / þeim giefe hañ eilÿft
lÿf. * Matth. 11/ 27. etc.

3 Eñ * þetta er það eilyfa lijf / að þeir þecke þig þañ einasta sañа Gud / og þañ þu utsender / Jesum Christum.
* Spek. 15 / 3.

4 Eg hefe vyðfrægt þig a jørdeñe / eg hefe * það verk fullkomnað / sem þu fieckst mier / að eg skylldе giøra.
* C. 4 / 34.

5 Og giør mig nu vegsamlegañ / þu Fader / hia þier sialfū / med þeirre vegseind / sem eg hafde / fyrr eñ heimureñ var / hia þier.

6 Eg openberade nafn þitt fyrer møññū / hvøria þu hefur giefeð mier af heimenū / þeir voru þyñer / * og þu gafst mier þa / og þeir hafa vardveitt þitt ord. * C. 6 / 37.

7 Nu vita þeir / að allt það / sem þu hefur giefeð mier / er af þier.

8 Þvi þau ord / sem þu hefur giefeð mier / hefe eg giefeð þm̃ / og þr medtooku þau / og þecktu sañarlega / að * eg utgieck af þier / og þr trudu / að þu hefur sendt mig. * C. 16. 27 / 30.

9 Eg bid fyrer þm̃ / eg bid ecke fyrer heimenū / helldur fyrer þm̃ / sm̃ þu hefur * giefeð mier / þvi þr eru þyner.
* C. 6 / 37.

10 Og allt það / sm̃ mitt er / það er þitt / og * það / sm̃ þitt er / það er mitt / og eg er vegsamlegur giørdur i þeim.
* C. 16 / 15.

11 Og eg er ecke meir i heimenū / og þr eru i heimenum / og eg kiem til þyn. Heilage Fader / vardveit þa i þynu nafne / hvøria þu hefur giefeð mier / að þeir sieu eitt / * eins og vid. * C. 10 / 30.

12 A medañ eg var hia þm̃ i heimenū / vardveitte eg þa i þynu nafne: þa ſ þu hefur giefeð mier / þa vardveitte eg / og eingeñ af þm̃ tapadest / nema sa tøpunar sonur / * so að ritningeñ uppfilldest.
* Ps. 109 / 8.

13 Eñ nu kiem eg til þyn / og tala þetta i heimenū / að þr hafe miñ føgnuð uppfilltañ i sier sialfum.

14 Eg hefe giefeð þm̃ þitt ord / og * heimureñ hefur hatað þa / þvi þeir eru ecke af heimenum / eins sm̃ eg er ecke af heimenum. * C. 15. 18 / 19.

15 Eg bid ecke / að þu taker þa ur heimenū / helldur að þu * vardveiter þa fra þvi vonda. * 2. Thess. 3 / 3.

16 Þeir eru ecke af heimenū / eins sem eg er ecke af heimenum.

17 Helga þa i þyñū sañleika / * þitt ord er sañleikur. * C. 8 / 40.

18 Lijka so sm̃ þu sender mig i heimeñ / so hefe eg og sendt þa i heimeñ.

19 Og eg * helga mig sialfañ fyrer þa / so að þeir sieu og so helgader i sañleikanum. * 1. Cor. 1. 2 / 30. Ebr. 2 / 11.

20 Eñ eg bid ecke alleinasta fyrer þm̃ / helldur ogso fyrer þm̃ / sem fyrer þra ord * munu trua a mig. * C. 20 / 31.

21 Að þeir skule aller vera * eitt / eins sm̃ þu Fader / * * i mier / og eg i þier / að þr og skule vera eitt i ockur / so að heimureñ kuñe trua / að þu hefur sendt mig. * Gal. 3 / 28. * * Joh. 10 / 38.

22 Og þa dyrd / sm̃ þu gafst mier / hefe eg giefeð þm̃ / að þeir skule vera eitt / so sm̃ vid erum eitt.

23 Eg * i þeim / og þu i mier / að þeir skule vera fullkomner i eitt / og að heimureñ kuñe að þeckia / að þu hefur sendt mig / og elskad þa / eins sm̃ þu hefur elskað mig. * 1. Cor. 6 / 17.

24 Fader / hvøria þu gafst mier / vil eg / að hvar sm̃ * eg er / skule þeir og vera hia mier / so þr siae þa myna dyrd / er þu hefur giefeð mier / þvi þu elskader mig / fyrr eñ veralldareñar grundvøllur var lagdur. * C. 12 / 26.

25 Riettlaate Fader / * heimureñ þeckte þig og ecke / eñ eg þeckte þig / og þesser þecktu að þu hefur sendt mig.
* C. 15 / 21

26 Og eg kuñgiørde þm̃ þitt nafn / og vil kuñgiøra (þm̃ það /) að su astuemd / sm̃ þu elskar mig med / * skule vera i þm̃ / og eg i þeim. * C. 15 / 9.

## XVIII. Capitule.

### Christur geingur til siñar Pijnu.

Þa Jesus hafde þetta sagt / * gieck hañ ut med synum læresveinum / yfer um lækeñ * * Kidron / hvar ed var eirn jurtagardur /

Gardur/ i hvørn hañ iñ gieck sialfur/
og læresveinar hans.
* Matth. 26/36. etc. ** 2. Sam. 15/23.
2 Eñ Judas/ sa ed hañ sveik/ visse og
þeñañ stad / þvi Jesus safnadest opt
þangad med sijnum læresveinum.
3 Þa * Judas hafde nu til sijn teked skar
añ/ og þra ypparstu presta/ z phariseæ
aña þienara/ kom hñ þangad med blysū
z lømpū/ z vopnū. * Matth. 26/47.
4 Þegar Jesus visse allt þad sm̄ yfer
hñ skyllde koma/ gieck hñ fram/ z sagde
til þra: ad hvørium leite þier?
5 Þeir svørudu hønū: ad Jesu Naza-
reo. Jesus seiger til þra: eg em hañ.
Eñ Judas/ sm̄ hañ sveik/ stood og hiꝗ
þeim.
6 Þegar hañ nu sagde til þra: * eg
em hñ/ hørfudu þr til baka/ og fiellu til
jardar. * c. 6/ 20.
7 Þa spurde hañ þa eñ ad: ad hvør-
ium leited þier? eñ þeir søgdu: ad Jesu
Nazareo.
8 Jesus svarade/ eg sagde ydur: eg er
hñ/ ef þier leited ad mier/ so læted þessa
fara.
9 So ad su ræda skyllde fullkomnast/
hvøria hñ hafde talad: * af þeim sm̄
þu gafst mier / glatade eg ecke nock-
rum. * c. 17/ 12.
10 Þa hafde Simon Petrus eitt sverd/
og * droo þad ut / og sloo til þess ypp-
arsta prests þienara / og hioo af hans
hid hægra eyra. Og sa þienare hiet
Malchus. * Matth. 26/ 51. etc.
11 Þa sagde Jesus til Peturs: sticktu
þijnu sverde i slijdur/ þañ kaleik/ sm̄ Fad
eren gaf mier / skal eg ecke drecka hañ?
12 Hvørs vegna skareñ / og hershøfd-
ingeñ / og þienarar Judaña tooku Je-
sum/ og bundu hañ/
13 Og * færdu hñ fyrst til Annam /
þvi hañ var magur Caiphæ/ sem var
þess ars ypparste prestur.
* Matth. 26/ 57. etc.
14 Eñ Caiphas var sa/ * sem haf-
de giefed Judunum raad / ad þad væ-
re gagnlegt/ ad eirn madur færest fyrer
lijdeñ. * c. 11/ 50.
15 Eñ Simon Petrus/ z sa añar lære
sveirn epter filgde Jesu/ eñ sa same lære
sveirn var kuñugr þm̄ ypparsta preste/
z gieck iñ med Jesu i sal þess yppar-
sta prests.
16 Eñ * Petrus stood ute fyrer dyr-
unū. Þa gieck ut sa añar læresveirn/
sem var kuñugur þm̄ ypparsta preste /
og talade vid dyravørdslu konuna / og
leidde Petrum iñ. * Matth. 26/69. etc.
17 Þa seiger ambatteñ / sem dyrnar
geimde/ til Petrum: ertu og ecke eirn af
þessa mañs læresveinū? hañ seiger:
ecke em eg.
18 Eñ þienararner og undermeñerner
stoodu / z høfdu giørt kola-elld / þvi
þad var kallt / og vermdu sig. Og Pe-
tur stood hiꝗ þm̄/ og vermde sig.
19 Þa spurde sa ypparste prestur Je-
sum ad hans læresveinū / og ad hans
kieñingu.
20 Jesus svarade hønū: * eg hefe tal-
ad openberlega fyrer heimenum/ eg hefe
alltijd kient i samkundu husenu z must-
erenu/ þar sm̄ Judarner af øllum stød-
um koma til samans/ og i leyne hefe eg
eckert talad. * c. 7/ 26.
21 Þvi spyr þu mig? spyr þa/ sm̄ hafa
heyrt/ hvad eg talade til þra/ siaa/ þeir
vita/ hvad eg hefe sagt.
22 Eñ sm̄ hñ þetta talade/ gaf * eirn
af þienurunū/ sm̄ stoodu hiꝗ/ Jesu pust
ur / og sagde: skalltu so svara þeim
ypparsta preste? * 1. Kong. 22/ 24.
23 Jesus svarade hønū: hafe eg illa
talad/ þa bevijsa þad sie illt / eñ hafe eg
talad riett/ þvi slær þu mig?
24 Þvi Annas hafde sendt hañ bund
eñ til þess ypparsta prests Caipham.
25 Eñ * Simon Petrus stood, og verm
de sig/ Þa søgdu þr til hñs: ertu og
ecke af hñs læresveinum? hañ neitade
(þvi/) og sagde: eige er eg.
* Matth. 26. 58/ 70. etc.
26 Eirn af þess ypparsta prests þien-
urū / sm̄ var frænde hñs / hvørs eyra
Petur hafde afhøggved/ seiger: sa eg

þig ecke i jurtagardenū med hōnum?
27 Þa neitade Petur aptur / og jafn-
snart gool haneñ.
28 Þa leiddu þr Jesum fra Caipha
til * doom-hussens/ eñ þad var ærla: z
þr geingu ecke iñ i doom-hused/ ad þeir
saurgudust ecke/ helldur ad þeir mættu
neyta paskaña. * Matth. 27/ 2.
Marc. 15/ 1. Luc. 23/ 1.
29 Þa gieck Pilatus ut til þeirra/og
sagde: hvada ákiæru færed þier a mov
te þessum manne?
30 Þeir svørudu / og søgdu til hans:
være þesse ecke ospootamadur / þa hefdū
vier ecke ofurselldt þier hañ.
31 Þa sagde Pilatus til þra: * taked
þier hñ/ og dæmed hñ epter ydar løgmaa
le. Þa søgdu Judarner til hñs: oss leif-
est ecke ad lyflata nockurn: * c. 19/ 6.
32 So ad Jesu ræda skyllde fullkom-
nast/ hvøria hañ talade/ * tilteiknan-
de/ hvørium dauda hañ munde deya.
* Matth. 20/ 19. Marc. 10/ 33.
* Luc. 18/ 31.
33 Þa * gieck Pilatus iñ aptur i doom
hused/ og kallade a Jesum/ og sagde til
hñs: ertu sa konungur Judaña?
* Matth. 27/ 11, etc.
34 Jesus svarade hønū: talar þu þad
af þier sialfum / eda hafa adrer sagt
þier þad um̄ mig?
35 Pilatus svarade: hvørt er eg eirn
Jude? þijn þiood og þr yppurstu prest-
ar ofurselldu þig mier / hvad hefur þu
giørt?
36 Jesus svarade: * mitt ryke er ecke
af þessū heime/ være mitt ryke af þess-
um heime/ (þa) mundu myner þienar-
ar stryda þar fyrer/ ad eg skillde ecke of-
urseliast Judum / eñ nu er mitt ryke
ecke ad hiedañ. * c. 6/ 15.
37 Þa sagde Pilatus til hñs: þu ertu
samt konungur? Jesus svarade/ þu seig
er þad / þvi eg er eirn konungur / eg er
þar til fæddur/ og þar til komeñ i heim
iñ/ ad eg skule vitne bera sañleikanum /
Hvør sa/ sem er af sañleikanum/ heyr-
er mijna raust.
38 Pilatus seiger til hñs: hvad er sañ
leikureñ? og þa hñ hafde þetta sagt/
gieck hñ aptur ut til Judaña / z seiger
til þeirra: * eg fiñ aungva søk i hōn-
um. * Matth. 27/ 23. Marc. 15/ 14.
Luc. 23/ 14.
39 Eñ * þier hafed eirn siodvana/ ad
eg giefe ydur eirn lausañ a paskunū/
Vilied þier þa/ ad eg giefe ydur lausañ
þañ konung Judaña? * Matth. 27/ 15.
40 Þa hroopudu þeir aller aptur / og
søgdu: ecke þeñañ / helldur * Barra-
bam/ eñ Barrabas var eirn spillvirke.
* Matth. 27/ 20 etc.

## XIX. Capitule.

### Christur verdur Krossfestur/ Deiddur og Grafeñ.

Þa took Pilatus þar þ Jesum/
og liet * hudstrykia hañ.
* Matth. 27. 26/ 27, etc.
2 Og stryds menñerner * flieett-
udu eina koronu af þyrnum / og settu
(hana) a hñs høfud/og løgdu eitt pur-
pura klæde yfer hñ/ * Matth. 27/ 29.
3 Og søgdu: heill sierttu konungur Jud
aña/og gaafu hōnum pustra.
4 Þa gieck * Pilatus ut aptur / og
seiger til þeirra: sie/eg leide hñ hyngad
ut til ydar / so ad þier vited / ad eg fiñ
aungva søk i hønum. * c. 18/ 29.
5 Þa gieck Jesus ut / berande þyrne
koronuna og purpura klæded. Og hañ
seiger til þra: sied þañ mañ.
6 Þegar þr yppurstu prestar og þien-
ararner nu saau hañ/hroopudu þeir/og
søgdu: krossfestu/ krossfestu. Pilatus
seiger til þeirra: taked þier hñ og kross
fested/ þvi eg fiñ aungva søk i hønum.
7 Judar svørudu hønum: vier * høfū
løgmæled/ z epter þvi voru løgmæle er
hñ dauda sekur/ þvi hñ hefur giort sig
sialfañ ad Syne Guds.
* 3. Mos. 24. 15/ 16. 5. Mos. 18/ 20.
8 Þegar Pilatus hafde nu heyrt þessa
rædu/ ottadest hañ meir/
9 Og gieck iñ * aptur i doomhused/og
seiger til Jesum. hvadañ ert þu? eñ
Jesus gaf hønū eckert svar. * c. 18/ 33.

10 Þa ſeiger Pilatus til hañs: talar
þu ecke vid mig? veitſtu ecke/ad eg hefe
valld til ad kroſſfeſta þig / og eg hefe
valld til ad giefa þig lauſañ?
11 Jeſus ſvarade: þu hefder eckert valld
i mooti mier/ ef þad være ecke * giefed
þier ad ofañ / þar fyrer/ ſa ſm̄ ofur-
ſelde mig þier / hañ hefur ſtærre ſynd.
* Spek. 6/3. etc.
12 Þar epter leitadeſt Pilatus vid/ ad
láta hn̄ lauſañ/eñ Judarner hroopudu
og ſøgdu: ef þu lætur þeñañ lauſañ/
þa ertu ecke vinur keyſarans/ Hvør ſm̄
giører ſig ad konunge / hañ motſeiger
keyſaranum.
13 Þegar Pilatus hafde nu heyrt þa
rædu/leidde hn̄ Jeſum ut/og ſette ſig a
doomſtooleñ / a þm̄ ſtad / ſem kallaſt
ſteinlagdur/eñ a ebreſku Gabbatha.
14 Eñ þad var adfángadagur páſka
um̄ þa ſiottu ſtund / Og hañ ſeiger til
Judaña: ſiá þañ ydar konung.
15 Eñ þr hroopudu : tak burt / tak
burt/ kroſſfeſtu hn̄. Pilatus ſeiger til
þra: ſkal eg kroſſfeſta ydvarn konung?
þeir yppurſtu preſtar ſvørudu: vier høf
um ecke konung/nema keyſarañ.
16 Þa ofurſelde hn̄ þm̄ hañ þar fyrer
til ad kroſſfeſtaſt. Eñ þr tooku Jeſum/
og leiddu (hañ) burt.
17 Og hn̄ bar ſiñ kroſſ / og gieck ut til
* þeſſ ſtadar / ſm̄ kallaſt høfudſkielia
ſtadur / hvør ed kallaſt a ebreſku Gol-
gatha. * Matth. 27/ 25.
18 Hvar þr kroſſfeſtu hn̄/ z med høn-
um adra tvo/ſiñ til hvørrar handar/eñ
Jeſum i mided.
19 Eñ Pilatus hafde og ſkrifad eirn
titel/ og ſett hn̄ upp yfer kroſſeñ. Eñ
þar var ſkrifad: Jeſus Nazaræus/ ſa
konungur Judaña.
20 Þeñañ titel láſu þa marger af
Judunum/ þviad nærre borgeñe var ſa
ſtadur/ hvar Jeſus var kroſſfeſtur / og
þad var ſkrifad a ebreſku / griſku/ lat
inu.
21 Þa ſøgdu þr yppurſtu preſtar Jud-
aña til Pilatum: ſkrifa ecke ſa konung
ur Judaña / helldur ad hn̄ ſagde: eg er
konungur Judaña.
22 Pilatus ſvarade : þad ſm̄ eg hefe
ſkrifad / hefe eg ſkrifad.
23 Þa * ſtrijdsmeñerner høfdu nu kroſſ-
feſt Jeſum/tooku þr hn̄s klæde/z ſkip-
tu i fioora parta / hvøriu̅ ſtrijdsmañe
eirn part/og kyrteleñ/ Eñ kyrtelleñ var
ecke ſaumadur / prioonadur fra ofañ-
verdu allt nidur i giegnum.
* Matth. 27/ 35. Marc. 15/ 24.
24 Þa ſøgdu þr hvørier til añara :
látu̅ oſſ ecke ſkiera hn̄ i ſundur/ helld-
ur hlutunſt um̄ hn̄/hvørs hn̄ ſkal vera/
uppa þad ritningeñ ſkyllde uppfillaſt /
ſm̄ ſeiger : * þeir ſkiptu mijnu̅ klædum
a mille ſijn/og a miñ kyrtel køſtudu þr
hlutkieſte. Þetta giørdu nu ſtrijdsmeñ
erner. * Pſ. 22/ 19.
25 Eñ þar ſtoodu hiá kroſſe Jeſu /
moodur hn̄s/ og moodur ſyſter hans/ *
Maria Cleophæ / og Maria Magda-
lena. * Matth. 27/ 61.
26 Þa Jeſus ſá nu ſijna moodur / og
þañ læreſvein ſtanda hiá / hvørn hañ
elſkade / ſeiger hañ til ſiñar moodur :
kviña/ſiá/ þad er þiñ Sonur.
27 Þar epter ſeiger hañ til læreſveins
ſens: ſiá / þad er þijn mooder/ og upp
fra þeirre ſtundu took ſa læreſveirn
hana til ſijn.
28 Epter þad/ſm̄ Jeſus * viſſe/ad allt
var nu fullkomnad/ ſo ad ** ritning-
eñ ſkyllde fullkomnaſt/ ſeiger hañ: mig
þyrſter. * c. 18/ 4. ** Pſ. 69/ 22.
29 Þar var þa ſett eitt ker fullt af
edike. Eñ þeir fylltu eirn niardarvøtt
med edik / og ſettu hn̄ uppa eirn iſop /
og báru þad høñu̅ ad muñe.
30 Þa Jeſus hafde nu ediked medtek-
ed/ ſagde hañ: þad er fullkomnad / og
hneigde høfuded/ og gaf upp andañ.
31 Hvar fyrer Judarner / ſo ad lijkam-
arner være ecke a kroſſenu̅ um̄ ſabbat-
eñ / med þvi þad var adfángadagur /
þviad ſa ſame ſabbats dagur var mik-
ell/ bádu Pilatum/ad þeirra bein mætti
briootaſt/og þeir ofañtakaſt.

32 Þa

25 Honum verdur og ecke þioonad af
hondū mañaña/og * hñ þarf ecke nock-
urs vid / þar hañ giefur øllum lyf og
anda/z alla hlute. * Ps. 50/ 8. etc.
26 Og hefur giort þad / ad af einu
bloode skule allt mañkyn bua ofañ a
iardarkrijngluñe/ s hefur ækvardad til
stickada tijma / og * takmørk bustada
þeirra. * 5. Mos. 32/ 8.
27 Ad (þeir skylldu) * leita Drottens/
ef kañ skie þeir kynni ad þreifa a hon-
um/og fiña hñ/ jafnvel þo hñ sañlega
sie ecke langt fra sierhvøriū af oss.
* Es. 55/6.
28 Þvi i honū lifum vier/og hrærumst
og erum/so sem nockrer af ydar skalld-
um hafa sagt : vier erum og hñs kyn.
29 Med þvi vier erum nu kyn Guds /
skuluṁ vier ecke meina/ad þad * guddoom
lega sie lijkt gulle edur silfre edur steine/
einu bijlæte med hagleik/og epter uppa
finding mañsens. * Es. 46/ 5. etc.
30 Þar fyrer/ sa Gud / sem hefur *
hlidrad hiā tijmum fawitskuñar/ * *
bijdur nu øllum møñū allstadar/ad gior-
ra ydran. * c.14/16. * * Luc.24/47.
31 Fyrer þvi hñ hefur tilsett eirn dag/
a hvøriū hañ vill dæma heimsbygdena
med riettvijsie/ * fyrer eirn Mañ/hvørn
hñ hefur tilsett/ bioodande øllū truna/
epter * * þad hañ hafde uppreist hañ
fra daudum. * Rom. 14/ 10. etc.
** P. G. 3/ 15. etc.
32 Eñ er þeir heyrdu upprisu daud-
ra/ giordu nockrer * gis ad þvi/eñ nock-
rer sogdu : vier viliū heyra þig aptur
uṁ þetta. * 1. Cor. 1/ 23.
33 Og so gieck Pall ut fra þeim.
34 Eñ nockrer voru honū fastlega a-
hangande/ og trudu / a medal hvørra
var og Dionysius / sa af rædenu / og
ein kvoña/ ad nafne Damaris/ og adrer
med þeim.

## XVIII. Capitule.

Pall kieñer i Corintho / Apollos /
Aqvila og Priscilla i Epheso.

Eñ þar epter veik Pall ur A-
thenis/z kom til Corinthum.
2 Og er hñ fañ þar eirn Ju-
da/ad nafne * Aqvilam/ Pont-
verskañ ad ætt/hvør ed nylega var kom
eñ fra Italia/og Priscillam konu hñs/
þviad (keysare) Claudius hafde boded
øllum Judum ad fara af Rom / þa
gieck hñ til þeirra. * Rom. 16/ 3.
3 Og med þvi hañ kuñe sama hand-
verk/var hñ hiā þeim/ og * erfidade /
þvi þau voru tialldvefarar i sijnu hand
verke. * 1. Cor. 4/ 12.
4 Eñ hñ kiende i samkunduñe a hvør-
ium sabbat / og yfertalade bæde Juda
og Grickie.
5 Eñ er bæde * Silas og * * Timo-
theus komu fra Macedonia/ þreingdest
Pall af Andanū til ad + vitna fyrer
Judum/ad Jesus være sa Christus.
* C.17.14/15 * * 1. Thess. 3/6. + P. G. 9/22.
6 Eñ er þr stoodu þar i moote/z Gud-
lostudu/ * hriste hañ klæde sijn/z sagde
til þeirra : ydar blood sie yfer ydar høf-
de/hreirn em eg/ hier epter vil eg fara
til heydingiaña. * Matth. 10/14. etc.
7 Og er hñ foor þadañ/ kom hñ i hus
til nockurs / ad nafne Justus/ hvør ed
ottadest Gud / hvørs hus ad var hid
næsta samkunduhusenu.
8 Eñ * Crispus samkunduñar høfdin
ge trude a Drottneñ med øllu sijnu huse/
og marger af Corinthu møñū/sm (til)
heyrdu/ trudu / og skijrdust.
* 1. Cor. 1. 14.
9 Þa sagde Drottneñ i eirne * sijn uñ
nottena vid Pal : ottastu ecke/ helldur
tala/og þeig ecke. * c. 16/ 9/
10 Þvi * eg er med þier/ og eingeñ skal
rædast a þig/til ad viña þier mein/þvi
eg hefe margt foolk i þessare borg.
* Es. 41/ 10.
11 Og hñ sat þar eitt ar z sex mañ-
ude/kieñande a medal þeirra ord Guds.
12 Eñ er Gallion var landstioornare i
Achaja/settu Judar sig med einū huga
upp i moot Pale / og droou hañ fyrer
doomstoolen.

13 Og

13 Og søgdu: þesse rædur fookenu ad dyrka Gud i moote løgmalenu.
14 Eñ er Pall villde uppliuka muñenum/ sagde Gallion til Judaña: ef þar være nockur *oriettkur edur glæpur/ þier Judar/ þa skyllda eg/ so sem tilhlydelegt være/ heyra ydur. * C. 25/ 11.
15 Eñ ef þad er ein spurning um ord og nøfn/ og um þad løgmal / sem er a medal ydar / (þa) * siaed sialfer þar fyrer/ þvi eg vil ecke vera doomare þar yfer. * Matth. 27/ 5.
16 Og hañ rak þa i burt fra doomstoolnum.
17 Eñ aller Grieker tooku * Sosthenem samkundu høfdingiañ/ og sloou hñ frame fyrer doomstoolnum/ og Gallion skeitte þvi ecke. * 1. Cor. 1/ 1.
18 Eñ er Pall hafde dvaled (þar) eñ nu marga daga/ kvadde hañ brædurnar/ z siglde til Syriam / og med hønu Priscilla z Aqvilas/ þegar hñ hafde * rakad sitt høfud i Cenchreis/ þvi hañ hafde heit a hende. * 4. Mos. 6. 9/ 18. P. G. 21/ 24.
19 Eñ hñ kom til Ephesum/ og skilde þau þar epter/ eñ hñ gieck sialfur iñ i samkunduna / og talade vid Judana.
20 Eñ er þeir bædu hañ/ ad hñ dvelde þar leingre tyma hia þeim/
21 Samsinte hañ þvi ecke / helldur kvadde þa / seigiande : þad byriar mier aldeiles / ad hallda þessa komande hatyd i Jerusalem / eñ sydañ vil eg koma til ydar/ *ef Gud vill. Og hñ foor burt fra Epheso. * 1. Cor. 4/ 19. Ebr. 6/ 3. Jak. 4/ 15.
22 Og epter þad hañ var ofañkomeñ til Cæsarea/ z var uppgeingeñ/ og hafde heilsad søfnudeñu / foor hñ ofañ til Anthiochia.
23 Og er hañ hafde dvaled þar nockra stund/ reiste hañ burt / og foor hvad af ødru yfer þad Galatiska land/ og Phrygiam/ styrkiande alla læresveinana.
24 Eñ Jude nockur ad nafne * Apollos/ ur Alexandria ættadur/ eirn mælskumadur/ kom til Ephesum/ sem var matt-ugur i rikningunum. * 1. Cor. 3/ 6.
25 Þesse hafde lært veg Drottens/ og þar ed hñ var gloandr i andanu / talade hñ/ og kiende kostgiæfelega þa hlute/ sem eru um Drotteñ/ þo hañ alleinasta visse * af skyrn Johañis. * C. 19/ 3.
26 Og þesse took til ad tala med diørfung i samkunduñe. Eñ er * Aqvilas og Priscilla heyrdu hñ/ tooku þau hañ til (syn)/ og søgdu hønu eñ kostgiæfelegar ut veg Guds. * v. 2.
27 Eñ er hñ villde reisa til Achajam/ hvøttu brædurner (hañ) þess/ og skrifudu læresveinunu til / ad þeir take vid hønu/ hver ed/ þegar hñ var þangad komeñ/ * hialpade hñ þeim miøg/ sem høfdu truad fyrer nadena. * 1. Cor. 3/ 6.
28 Þvi hñ * yfervañ Judana med skørugleik berlega/ synande med rikningunum/ Jesum ad vera þañ Christum. * C. 9/ 22.

## XIX. Capitule.

Pall kieñer i Epheso / Demetrius giører Upphlaup i sama Stad.

EN þad skiede / þa Apollos var i Corintho/ ad Pall reiste um upplondeñ/ og kom til Ephesum/ og er hñ fañ nockra læresveina/
2 Sagde hañ til þeirra: hafed þier * medteked Heilagañ Anda / þa þier urdud truader? eñ þeir søgdu til hñs: vier høfu ecke helldur heyrt/ * * hvørt þar er til Heilagur Ande. * C. 10/ 44. ** Joh. 7/ 39.
3 Og hañ sagde til þeirra: uppa hvad erud þier þa skyrder? eñ þeir søgdu: uppa * skyrn Johañis. * C. 18/ 25.
4 Eñ Pall sagde: * Johañes skyrde ad søñu skyrn ydranar/ seigiande foolkenu/ ad þeir skylldu trua a þañ/ sem epter hñ kom/ þad er/ a Christum Jesum. * Matth. 3/ 11. etc.
5 Eñ þeir/ sem (þad) heyrdu/ voru skyrder i nafne Drottens Jesu.
6 Og er Pall hafde lagt hendur yfer þa/ * kom sa Heilage Ande yfer þa/ og

þeir toludu tungum/og spædu.
* C. 1/5. C. 2/4. C. 10/44. C. 11/15.
7 En þr meñ voru alls hier um tolf.
8 En hañ gieck i þa samkunduna / og
predikade med diorfung i þria mañ-
ude/kiende og kallde fra um Guds rijke.
9 En er nockrer voru * forherdter og
ohlyduger/talande illa um þañ veg/fyr
er almugañ/veik hñ fra þeim/ og skil-
de lærisveinana fra/ og talade daglega i
eins(mañs) Schola/ (sem hiet) Thyran-
nus. * 2. Tim. 1/ 15.
10 En þetta skiede i tvo ar / so ad þr
aller / sem biuggu i Asia / heyrdu ord
Drottens Jesu/bæde Judar z Grikker.
11 Og Gud * giørde ecke almeñeleg
kraptaverk fyrer hendur Pals.
* C. 14/ 3.
12 So ad * jafnvel voru yfer þa siuku
sookter sveita-dukar edur klæde af hñs
lijkama/ z siukdoomarner viku fra þm/
og þeir vondu andar fooru ut af þeim.
* C. 5/ 15.
13 En nockrer freistudu þess/af þeim
umhleipings Judum/ s voru særingar-
meñ/ad nefna nafn Drottens Jesu yf-
er þeim / sm høfdu þa vondu anda/ og
søgdu : vier særum ydur vid Jesum /
hvørn Pall predikar.
14 En þad voru nockrer/sio syner Ske-
væ / eins Juda / ypparsta prests/ sem
þetta fromdu.
15 En sa vonde ande svarade og sagde:
Jesum þecke eg / og Pal veit eg / eñ
hvørier erud þier?
16 Og madureñ stoock upp a þa/i hvør
ium var sa vonde ande/og vard þeim oh-
lugre/so þeir flijdu nakter og sarder ur
þvi sama huse.
17 En þetta vard kuñugt øllu Jud-
um og Grickium er biuggu i Epheso /
og * þar fiell otte yfer þa alla / og
nafn Drottens Jesu vard hæleitlega
prijsad. * C. 5. 5/ 11.
18 En þar komu marger af þeim tru-
udu/ jatudu og auglijstu sijn verk.
19 En marger sm høfdu brukad for-
vitnes kukl / baru bækurnar fram
til samans/og brendu þær i augsyn all-
ra/og þeir samanreiknudu þeirra verd/
og fundu ad þad var fimtiju þusund
silfur-(peningar.)
20 So * kroptuglega voox ord Drott-
ens/og eflldest. * C. 6/ 7. C. 12/ 24.
21 En er þetta var skied / asetle sier
Pall i anda / ad reisa i giegnu Mace-
doniam og Achajam / og ad ferdast til
* Jerusalem / og sagde : epter þad eg
hefe vered þar / byriar mier og ad sia
Rom. * C. 18/ 21.
22 En hañ sende til Macedoniam/tvo
af þm/er þioonudu hønu/ Timotheum/
og * Erastum/sialfur beid hñ(nockra)
stund i Asia. * Rom. 16/ 23.
23 En a þeim sama tijma skiede ecke *
allijted upphlaup um þeñañ lærdoom.
* 2. Cor. 1/ 8.
24 Þvi sylfursmidur nockur ad nafne
Demetrius / sem giørde silfur-mustere
Dianæ/giørde smidunu * ecke allijtiñ
abata. * C. 16/ 16.
25 Hvøriu hñ samañsafnade/ og þm/
sem ad þvilijku verke voru / og sagde :
þier meñ/ þier vited/ ad af þessu verke
høfum vier abata.
26 Og þier siaed og heyred / ad ecke
einasta i Epheso / helldur nær þvi um
alla Asiam / fraasnijr Pall þesse og
yfertalar mikeñ fiolda/seigiande: þeir
* eru ecke guder/sem gioorast med hønd-
um. * Ps. 115/ 4. Jer. 10/ 3.
27 En þar er ecke alleinasta hætt vid/ad
sa hlute/sem oss vidkiemur/verde oss til
minnkunar/helldur ogso ad hiñar stooru
gydiu Dianæ mustere verde einkes virdt/
og ad heñar tign mune afmaad verda /
hvøria øll Asia og heimureñ dijrkar.
28 En er þeir þetta heyrdu / og fillt
ust af bræde/hroopudu þeir/seigiande:
stoor er Diana þra i Epheso.
29 Og øll borgeñ vard uppæst/og þeir
* þustu samhuga a stoonarplatsed / og
gripu med sier Gajum og Aristarchum
Macedoniska meñ/ førunauta Pals.
* 2. Cor. 1/ 8. etc.
30 En er Pall villde ganga fram til
foolks-

foolksens / lofudu lærefveinarner hon-
um þad ecke.
31 Eñ nockrer af þeim yppurstu i A-
sia / sem voru hans viner / sendu til hans /
z bádu (hañ /) ad hañ skyllde ecke giefa
sig uppa sioonarplatsed.
32 Þa hroopade sa eine þad / sa añar
hitt / þvi sofnudureñ var uppvægdur /
og þeir flestu vissu ecke / hvøns vegna
þeir være samañkomner.
33 Eñ þeir droou Alexandrum ut ur
fiøldañu / þar ed Judar ytku hm fram.
Eñ Alexander * bendte til hlioods med
hendeñe / z villde forsvara sig fyrer foolk
enu. * c. 12 / 17. c. 13 / 16. c. 21 / 40.
34 Eñ er þeir merktu / ad hñ var eirn
Jude / þa hoofst eitt hlrood af øllum /
sm hroopudu hier um i tvær stunder:
stoor er Diana þeirra i Epheso.
35 Eñ sm Cantzeleren hafde støvvad
foolked / sagde hñ: þier meñ i Epheso /
hvør er þa sa madur / sm ecke veit / ad
Ephesi mañ borg er mustersvaktare
þeirrar stooru gydu Dianæ / og þess
ofañ af himne fallna (bylætes?)
36 Med þvi (þa) þsser hluter eru omoot
mælañleger / þa byriar ydur spakfeid-
ugum ad vera / z eckert af rasande rade
ad giøra.
37 Þvi þier hafed leidt þessa meñ hing
ad / sm hvørke eru kyrkiu þioofar / og ei
hafa lastad gydiu ydar.
38 Eñ ef Demetrius / og þeir smider
med honu / hafa kiærumaal til nockurs /
(þa) safnest þyngmeñ / z þar eru lands
stioornarar / klagest þeir a syn i mille.
39 Eñ ef þier þrætest a um adra hlu-
te / þa kañ þad a eirnre løglegre sam-
kundu ad giørast.
40 Þvi vier støndum og i hættu / ad
vier mættu verda klagader fyrer þad
upphlaup / sm skiedur i dag / og (hier)
er (þo) eingeñ ordsøk / med hvørre vier
kuñum ad giøra grein a þessu upphlau
pe / Og þegar hañ hafde þetta sagt /
liet hañ sofnudeñ fara.

XX. Capitule.

Paall kieñer i Troade / uppvekur eirn
daudañ og reiser leingra afram.

Eñ epter þad þessu hareiste lint
(e / kallade Paall lærefveinana
til (syn /) og heilsade (þeim /) z
foor ut / * ad hñ reiste til Ma-
cedoniam. * 1. Tim. 1 / 3.
2 Og er hñ foor um þær landsalfur /
og hafde aminnt þa med langre rædu /
kom hñ til Grecklands.
3 Og dvalde (þar) þria manude. Og er
honu voru bruggud svik af Judunum /
þa hañ villde fara til Syria / vard hñ
þess sinnes / ad hverfa aptur i giegnum
Macedoniam.
4 Þa foor med honu allt til Asiam /
Sopater af * Beroea / eñ af þeim
Thessaloniku * * Aristarchus og Se-
cundus / og Gajus af Derben / og Timo
theus / eñ af Asia Tychicus og Trophi
mus. * c. 17 / 10. * * c. 19 / 29.
5 Þesser fooru undañ / og bidu vor i *
Troade. * c. 16 / 8.
6 Eñ vier sigldu ut epter hina osyrdu
(brauda) daga fra Philippis / og komu
til þeirra i Troade iñañ fim daga /
hvar vier dvøldum i sio daga.
7 Eñ a þeim fyrsta (deige) i vikuñe / er
lærefveinarner voru samañkomner til
ad * briooka brauded / predikade Paall
fyrer þeim / þar hñ villde reisa ut (dag-
eñ) epter / og hañ teigde ræduna allt til
midnættes. * c. 2. 42 / 46.
8 Og þar voru marger lampar uppa
salnu / er þeir voru samañkomner.
9 Eñ þar sat eitt ungmeñe / ad nafne
Eutichus / i einu vindauga / sm var fall
eñ i eirn diupañ svefn / er Paall talade
leinge / sem hñ var yferkomeñ af svef-
ne / fiell hañ ofañ ur þvi pridia lopte /
og var upptekeñ daudur.
10 Eñ Paall gieck ofañ / og * fiell yfer
hñ / og fadmade hañ / og sagde: giøred
eckert hark / þvi hans sal er i honum.
* 1. Kong. 17 / 21. 2 Kong. 4 / 34.
11 So gieck hñ upp / og braut brauded /
og bergde (þar a /) og sem hñ hafde tal-
ad leinge vid þa / allt i døgun / gieck
hañ ut.

12 Eñ þeir høfdu sookt sveineñ lif-
ande/ og þr urdu huggader ecke alllijted.
13 Eñ vier/sem vorum geingner undañ
til skips/foorũ til Asson/ og villdũ þar
taka Pall/ þvi so hafde hñ boded/ z all-
ade sialfur ad fara footgangande.
14 Eñ er hañ kom til vor i Asson/
tookum vier vid hønum / og komum til
Mitylenen.
15 Og þadañ sigldum vier burt/og kom
um (dageñ) epter giegnt Chio. Eñ añ-
ars (dags) þar epter løgdũ vier til Sa-
mon/og er vier høfdũ leiged i Trogilio/
komũ vier (dageñ) epter til Miletum.
16 Þvi Pall hafde æ ett ad sigla fram̃
hia Epheso / ad þad skillde ei skie/ ad
hñ tefde leinge i Asia. Þvi hañ flytte
sier / ef hønũ være møgulegt ad vera a
* Hvytasuñudag i Jerusalem.
* C. 21. 4/ 12.
17 Eñ fra Mileto sende hañ til E-
phesum/ og liet kalla (yfer til sijn) ølld
unga safnadarens.
18 Eñ er þeir komu til hñs/sagde hañ
til þra: * Þier vited/ fra þeim fyrsta
deige / er eg kom i Asiam / hvørneñ eg
hefe um̃ allañ þañ tijma hia ydur ver
ed/ * c. 19/ 10.
19 Þioonande Drottne med allre aud-
mijkt/ og miklũ tarum og freistingum/
sem mier hafa tilfalled af um̃satrum
Judaña.
20 Hvørneñ eg hefe aungvu undañ-
skoted af þarflegũ hlutum / ad eg ecke
hafe bodad ydur (þad/) og kiendt ydur
bæde openberlega og hus ur huse.
21 Og vitnad bæde fyrer Judum og
Grickum um̃ * apurhvarf til Guds/og
truna a Drotteñ vorn Jesum Chri-
stum. * Marc. 1/ 15. Luc. 24/ 27.
22 Og nu / sia / eg (sem er) bundeñ i
anda/fer til Jerusalem/ z veit ecke/ hvad
mier mune þar ad høndum koma.
23 Nema þad/ ad Heilagur Ande vitn
ar i øllum borgũ/ z seiger/ ad fiøtur og
þreingingar bijde mijn.
24 Eñ eg * skeite þar eckert um̃/ helld
og ecke sialfur mitt lijf dijrmætt/ uppa
þad (eg kuñe) ad fullkomna mitt hlaup
med føgnude/ og þa þioonustu/ sem eg
hefe medteked af Drottne Jesu / ad
vitna um̃ evangelium Guds nadar.
* c. 21/ 13.
25 Og nu/ sia/ eg veit/ad þier munud
ecke framar sia mitt andlit aller/ a med
al hvørra eg hefe geinged / og predikad
Guds rijke.
26 Þvi vitna eg fyrer ydur a þessum
deige/ad (eg er) hreirn af bloode allra.
27 Þvi eg hefe ecke undañdreiged ad
boda ydur allt * Guds raad.
* Luc. 7/ 30.
28 So giefed giætur ad ydur sialfum/
og allre hiørdeñe / medal hvørrar Hei-
lagur Ande hefur sett ydur til byskupa/
til ad foodra søfnud Guds/ hvørn hañ
utvegade med sijnu eigeñ bloode.
29 Þvi eg veit þetta / ad þar munu
iñkoma epter mijna burtfør * grim̃er
ulfar a medal ydar/ sm̃ ecke munu þyr-
ma hiørduñe: * Matth. 7/ 15.
30 Og af ydur sialfum munu uppri-
sa meñ / og tala frafleita hlute/ til ad
burtdraga lærisveinana epter sier.
31 Fyrer þvi vaked/ z miñest/ad i þriu
aar noott z dag hefe eg ecke aflaated med
tarum ad amiña hvørn eirn (af ydur.)
32 Og nu fel eg ydur/ brædur/ Gude/og
* orde hñs nadar / hvør ed mattugur
er/ ad uppbyggia (ydur/) og giefa ydur
arf a medal allra helgadra. * c. 14/ 3.
33 Einkes silfur edur gull/ edur klæde
* hefe eg girnst. * 1. Sam. 12/ 3.
34 Eñ þier vited sialfer / ad fyrer
naudþurft miñe / og fyrer þeim / sem
med mier eru/ hafa * þessar mijnar hend
ur unned. * 1. Cor. 4/ 12. etc.
35 Eg sijnde ydur alla hlute / ad þad
byriade (oss) so ad erfida / og ad taka i
moote þm̃ veiku/og miñast orda Drott
ens Jesu/ad hañ hefur sagt: sællra er
ad giefa/ eñ ad þiggia.
36 Og er hñ hafde þetta sagt/ kraup
hñ a sijn knie/og * badst fyrer med þm̃
øllum. * c. 21/ 5.
37 Eñ þar giørdest stoor harmur af
øllum/

øllum / og þeir fiellu um̄ hꝏls Pꝏle /
og kyſtu hañ:
38 Syrgiande meſt vegna þeſſ ords / er
hn̄ ſagde / ad þeir munde ei framar ſiꝏ
hn̄s auglit. Eñ þeir filgdu hønum til
ſkips.

## XXI. Capitule.

### Philippi Dætur ſpꝏ / Agabus fyrer-ſeiger Pꝏls Fiøtra / Pꝏll kiemur til Jeruſalem.

Eñ er þad var ſkied / ad vier høfd
um ſlited oſſ fra þeim / og vorū
farner ut / foorum vier (vora)
riett a leid til Coum / z (dageñ)
epter til Rhodum / z þadañ til Patara.
2 Og þegar vier fundū eitt ſkip / ſem
foor yfer til Phænicen / ſtigū vier þar
a / og hielldum burt.
3 Eñ er vier ſꝏum Cyprum / og liet-
um hana til vinſtre handar / ſigldū vier
til Syria / og komū til Tyrum / þvi ſkip
ed ꝏtte ad leggia þar af farmeñ.
4 Og er vier fundū læreſveinana / vor-
um vier þar i ſiø daga / hvørier ed ſøg-
du Pꝏle fyrer * Andañ / ad hañ ſkillde
ecke fara upp til Jeruſalem.
* C. 20/36.
5 Eñ er þad ſkiede / ad vier høfdū full-
endad þa daga / foorū vier ut og reiſt-
um / og þeir filgdu oſſ ut aller med konū
og kørnum allt ut fyrer borgena / Og
vier fiellum a knie i fiørunē / og beidd-
umſt fyrer.
6 Og þa vier høfdū kvadt hvør añ-
añ / ſtigū vier a ſkip / eñ þeir ſneru apt-
ur heim til ſijn.
7 Eñ þa vier høfdū fullendad ſigling-
una / komū vier fra Tyro til Ptolemai-
da / og heilſudū brædrunū / og vorum eirn
dag hiꝏ þeim.
8 Eñ dageñ epter foorū vier ut / vier
ſem vorum hiꝏ Pꝏle / og komū til Cæ-
ſaream / og geingū iñ i hus * Philippi
evangeliſta / ſem var af þeim ſiø / og
vorū hiꝏ hønū. * C. 6/5. C. 8. 5/26/40.
9 Eñ þeſſe ꝏtte fiøorar dætur / (ſem
voru) * meyar / og ſpꝏdu. * Joel. 3/1.
10 Eñ þa vier høfdū vered (þar) flei-
re daga / kom eirn ſpꝏmadur ofañ fra
Judæa / ad nafne * Agabus. * C. 11/28.
11 Og er hañ kom til vor / took hañ
bellte Pꝏls / og batt a ſier hendur og
fætur / og ſagde: þetta ſeiger ſa * Hei-
lage Ande: þañ mañ / hvørium þetta
bellte heyrer til / munu Judar ſo binda i
Jeruſalem / og ofurſelia (hn̄) i hendur
heidingia. * C. 20/23.
12 Eñ er vier heyrdū þetta / bꝏdū vier
(hn̄ /) og þeir / (ſm̄ voru) i þeim ſtad / ad
hañ ſkillde ecke fara upp til Jeruſalem.
13 Eñ Pꝏll ſvarade: hvad giøred
þier / ad þier harmed / og plꝏged mitt
hiarta? þvi * eg er reidubueñ / ecke allein
aſta ad bindaſt / helldur og ad deya i Je-
ruſalem / fyrer nafn Drottens Jeſu.
* C. 20/24.
14 Eñ er hn̄ (villde) ecke lꝏta ſig yfer
tala / þøgnudū vier / og ſøgdū: * verde
vilie Drottens. * Matth. 6/10.
15 Og epter þa daga / er vier vorū til-
buner / foorū vier upp til Jeruſalem.
16 Eñ þar fooru og med oſſ af lære-
ſveinunū ur Cæſarea / þeir ſem høfdu
med ſier eirn / hiꝏ hvørium vier ſkilldum
herbergia / Mnaſonem nockurn fra Cy-
pro / gamlañ læreſvein.
17 Eñ er vier komū til Jeruſalem /
medtooku brædurner oſſ feigenſamlega.
18 Eñ (dageñ) epter gieck Pꝏll iñ med
oſſ til * Jakobum / og aller ølldungarner
komu þangad. * C. 15/13.
19 Og þegar hañ hafde heilſad þeim /
ſkyrde hn̄ þeim fra hvad epter añad / *
hvad Gud hefde giørt a medal heiding-
ana fyrer hn̄s þioonuſtu. * Luc. 10/17
20 Eñ er þeir heyrdu (þad /) pryſudu
þeir Drotteñ / ſeigiande til hans: þu
ſier / brooder / hvad margar þuſunder Ju-
da þar eru / ſem hafa teked vid truñe / og
eru aller vandlætingaſamer vegna løg-
mꝏlſens.
21 Eñ þeim er undervyſad um̄ þig /
ad þu kieñer øllum Judum / ſm̄ eru a
medal heydingiana / ad * falla fra Mo-
ſe / z ſeiger / ad ecke eige þeir ad umſkie-
ra børneñ / nie ganga epter þeim ſid-
um.

um. * c. 19/ 26.
22 Hvad er þad þa? þad byriarølldung
es/ ad allur almugeñ kome samañ/ þvi
þr munu fa ad heyra ad þu sert komeñ.
23 So giør þetta/ sm̃ vier seigū þier.
Vier høfū fioora meñ / þr hafa * fest
heit yfer sier. * c. 18/ 18. etc.
24 Tak þa med (þier/) z hreinsa þig
med þeim/ og kosta uppa þa/ ad þr rake
høfuded / og aller skule vita/ ad þad er
eckert / sm̃ þeir hafa heyrt um̃ þig/
helldur ad þu ganger (so) siaalfur / og
vardveiter løgmaaled.
25 En um̃ heydingiana/ sem tru hafa
teked / høfum vier skrifad og aalyktad/
ad þeir eckert þvilijkt skylldu hallda/ *
nema ad vakta sig þ skurgoda foornū/
og bloode/ og køfnudu/ og frillulifnade.
* C. 15. 20/ 29.
26 Þa took Paall meñena til * (sijn)
og liet hreinsa sig dageñ epter med þm̃/
og gieck iñ i mustered/og gaf til vitund
ar uppfilling hreinsunardagaña / þar
til offrud yrde foorn fyrer sierhvørn
þeirra.
27 Eñ er þr sio dagar skylldu endast/
saau þeir Judar af Asia hañ i muster-
enu / z æstu upp allañ lijdeñ / og løgdu
hendur a hañ. * c. 24 / 18.
28 Og hroopudu: þier meñ/ Israeli-
tar/hiaalped til/ þesse er sa madur/ sem
i giegn foolkenu/ z løgmaalenu/ z þess
um stad/øllū allstadar kieñer / Og þar
med hefur hañ iñleidt Griska i must-
ered/z giørt almeñelegañ þeñañ * hei-
laga stad. * 5. Mos. 23/ 3.
29 Þvi þeir høfdu aadur sied * Tro-
phimū af Epheso i borgeñe med hon-
um hvørn þeir meintu ad Paall hefde
iñleidt i mustered. * c. 20 / 4.
30 Og øll borgeñ vard uppvægd/z þar
giørdest eitt athlaup af foolkenu / Og
þeir * gripu Paal/og droou hañ ut af
musterenu / og strax var lokad dyrun-
um. * c. 26/ 21.
31 Eñ er þeir leitudust vid ad lijflaata
hañ / kom su fregn fyrer þañ ypparsta
høfudsmañ fyrer skarañū/ hvørneñ øll
Jerusalem var uppvægd.
32 Hañ took strax strijds foolked med
(sier) z hundradshøfdingiana/z hlioop
a mille þeirra. Eñ er þr saau høfuds-
mañeñ og strijdsfoolked / hættu þeir ad
beria Paal.
33 Eñ þa høfudsmadureñ kom ad/
took hañ hañ/ og skipade ad binda hañ
med tveñū vidium/z hñ spurde ad hvør
hañ være/og hvad hñ hefde giørt?
34 Eñ sitt hroopade hvør i mañfiøld-
anum / Eñ er hañ fieck eckert vijst ad
vita fyrer haareistenu/byfalade hñ / ad
hañ skyllde færast i kastalañ.
35 Eñ er hañ kom ad trøppunū / bar
þad til/ad hñ hlaut ad berast af strijds
foolkenu/fyrer ofrijke foolksens.
36 Þvi þar filgde margt foolk a epter/
og hroopade: * burt med hañ.
c. 22/ 22. Joh. 19/ 15.
37 Og þa Paall aatte ad iñfærast i
kastalañ/seiger hñ til høfudsmañsens:
leifest mier ad tala nockud vid þig? eñ
hñ sagde: kantu grisku?
38 Ertu ecke sa Egyptske / sem fyrer
þessa daga uppæste/og færde ut i eyde-
mørku fiogur þusund mañs/ sem voru
mordingiar?
39 Eñ Paall sagde: eg em madur/ eirn
Jude/ * af Tarsen / borgare þeirrar
nafnfrægu borgar i Cilicia. Eñ eg bid
þig/ leif mier ad tala til foolksens.
* C. 9/ 11. C. 22/ 3/
40 Eñ þa hñ hafde leift hønū þad/
stood Paall a trøppunum / * og bendte
foolkenu(til hlioods) med hendeñe. Eñ
er þar vard þøgn mikel/ talade hañ til
(þeirra) a ebraska tungu/og sagde:
* C. 12/ 17. C. 13/ 16.

XXII. Capitule.

Paall seiger Æfesøgu sijna.

Hier * meñ/brædur og fedur/heyr-
ed nu mijna afsøkun til ydar.
* C. 7/ 2. C. 13/ 26.
2 Eñ þa þeir heyrdu/ ad hañ
talade til þeirra * a ebræska tungu/ þa
gaafu þeir þvi helldur hliood. Og hñ
sagde: * c. 21/ 40.

3 Eg

3 Eg em eirn Judaiskur madur/fæddur i Tarsen i Cilicia / eñ uppaleñ i
þessare borg til foota * Gamalielis /
uppfræddur epter ákvardan vors fød-
urlands lögmaals / og var vandlætare
vegna Guds / eins sem þier erud aller i
dag. * c. 5/ 34.
4 Og eg * offsookte þeñañ lærdoom allt
til daudans / batt og ofurselde i fang-
elsi/bæde meñ og kvinnur. * c. 8/ 3.
c. 9/ 2. c. 26/ 9. etc.
5 So sm̄ og sa * ypparste prestur(kañ)
ad vitna med mier / og allt olldungaña
raad / af hvørium eg og medtook bref
til brædraña/ og reiste til Damascum /
ad eg færde og þa/er þar voru/ bundna
til Jerusalem/so þeir skilldu verda straff
ader. * c. 9/ 2. c. 26/ 12.
6 Eñ þad skiede mig/sem * eg reiste/
og nalægdest Damascum/um̄ middeige/
ad skyndelega leypirade af himneñ eitt
stoort lioos i kringū mig. * c. 9/ 3.
7 Og eg fiell til jardar/ og heyrde eina
raust / er sagde til myn: Saul/ Saul/
hvi offsæker þu mig?
8 Eñ eg svarade: hvør ert þu/ Herra?
en hañ sagde til myn : eg er Jesus sa
Nazaræus/ hvørn þu offsæker.
9 Eñ þeir/sem voru med mier/saau ad
sönnu lioosed/og urdu hræddir/eñ heyr-
du ecke hñs raust / sm̄ talade vid mig.
10 Eñ eg sagde : hvad skal eg giøra/
Herra? eñ Drottieñ sagde til myn :
statt þu upp / og far til Damascum/ og
þar skal þier verda sagt um̄ alla þa
hlute/ er þier er ætlt ad giøra.
11 Eñ þegar eg saa ecke fyrer dyrd þessa
lioos/ var eg handleiddur af þeim/ sem
med mier voru/og kom til Damascum.
12 Eñ (þar var) * Ananias nockur /
madur gudhræddur/ epter lögmaalenu /
sem hafde goodañ ordsstyr af øllū Jud
um/ sem(þar)biuggu. * c. 9. 10/ 17.
13 Hañ kom til myn/z stood hiaa(mier)
og sagde til myn : Saul/ brooder/vertu
siaande aptur/og a sömu stundu saa eg
uppa hañ.
14 Eñ hañ sagde: Gud fedra vorra hef
ur * ætlad tilbued þig / ad (þu) skuler
þeckia hans vilia/ og sia þañ riettlaata/og heyra eina raust af hñs muñe.
* c. 9/15. c. 26/16.
15 Þvi þu skallt vera hønū eirn vott-
ur til allra maña/ ad þeim hlutum/sm̄
þu hefur sied og heyrt.
16 Og nu/epter hvøriu bijdur þu? statt
þu upp/og * vertu skirdur / og af þvo
synder þijnar / nær þu hefur ákallad
nafn Drottiens. * c. 2/38. Matth. 3/11
17 Eñ þad skiede mig/ er eg var aptur
komeñ * til Jerusalem/ og badst fyrer i
musterenu / ad eg vard fra mier num-
eñ/ * c. 9/ 26.
18 Og saa hañ / er sagde til myn: flijt
þier / og far skyndelega ut af Jerusa-
lem/ þvi þr munu ecke medtaka þiñ vitn
esburd um̄ mig.
19 Og eg sagde: Drottieñ / þeir vita
sialfer/ad eg * setta i fangelse/z barde
i ymsum samkundū/þa er trudu a þig.
* c. 8/3. c. 9/ 2.
20 Og þa er utheltt var bloode Ste-
phani vottar þijns/ þa stood eg sialf-
ur þar uppyfer/z hafde þocknan i hñs
dauda/z * vaktade klæde þeirra er lijf-
letu hañ. * c. 7/ 57. c. 8/ 1.
21 Og hañ sagde til myn: * far þu
(burt/)þvi eg vil senda þig langt burt
til heydingiaña. * c. 9/ 15. c. 13/2.
22 Eñ þeir hlijddu hønum allt til þess
ords/og upphoofu sijna raust/og søgdu: * tak eirn þvilijkañ burt af jørd-
uñe/ þvi þad er ecke sæmelegt / ad hañ
skule lifa. * c. 21/ 36.
23 Eñ er þeir hroopudu / og køstudu
(sijnū)klædum(fra sier/) z fleigdu moll
du i lopt upp/
24 þa bijfalade høfudsmadureñ / ad
færa hñ iñ i kastalañ/og sagde/ ad meñ
skilldu med hudstrijkingu kuga hñ til sag
na/ so hañ feinge ad vita / fyrer hvøria
ordsøk ad þr hroopudu so yfer hønum.
25 Eñ er hañ hafde reirt hñ streing-
ium/ sagde Paall til hundradshøfding-
ans/sem(þar)stood: meiged þier hud-
strijkia eirn Romverskañ mañ / og þad
oodæmd-

ddæmdan? * c. 16/ 37.
26 En er hundradshøfdingen heyrde
(þad/) gieck han inn til þess ypparsta
høfudsmans/ og kunngiørde hønum/ og
sagde: sia (til/) hvad þu giører / þvi
þesse madur er Romverskur.
27 En sa ypparste høfudsmadur gieck
fram/og sagde til hns: seig mier hvørt
þu ert Romverskur? en hn sagde: ja.
28 Og sa ypparste høfudsmadur svar-
ade: eg hefe fyrer ærna peninga kerpt
þennan borgarrett. En Paull sagde:
eg er ogso fæddur (Romverskur.)
29 Þa geingu þeir strax fra hønum /
sem ætlu ad kuga hn til sagna. Og sa
ypparste høfudsmadur ottadest/ þa hn
fornam/ ad hn var Romverskur / og ad
hann hafde bunded hann.
30 En (deigenn) epter villde hann fyr-
er vyst vita / hvar fyrer hann var klag-
adur af Judunum/ og leyste hn ur fiøt-
tunn / og skipade þeim ypparstu prestum
ad koma/og øllu þeirra rade/Og leidde
Paal fram/ og sette (hann) framme fyr-
er þeim.

XXIII. Capitule.

Ananias bijdur ad slaa Paal / Judar-
ner vilia drepa Paal.

En Paall starde a raded/ og sag-
de: Þier menn/ brædur/* eg hefe
med allre goodre samvitsku þio
nad Gude allt til þessa dags.
* C. 24/ 16.
2 En sa ypparste prestur Ananias baud
þeim/ sm stoodu hia hønu/ad* slaa hn
a munnenn. *Jer. 20/ 2.
3 Þa sagde Paull til hns: Gud mun
slaa þig/(þu)fægade veggur/bæde*sit-
ur þu/og dæmer mig epter løgmalenu/
og skipar/ ad slaa mig moote løgmal-
enu. * 3. Mos. 19/ 15. 5. Mos. 17/ 4.
4 En þeir / sem hia stoodu / søgdu:
lastyrder þu þann ypparsta prest Guds?
5 Og Paull sagde: eg visse ecke/ bræd-
ur/ ad hn er ypparste prestur/ þvi þar
er*skrifad: høfdingia þijns lyds skallt
þu ecke bølva. * 2. Mos. 22/ 28.
6 En sem Paall visse / ad sumer voru
af saduceis / en sumer af phariseis /
hroopade hn i radenu: Þier menn/ bræd-
ur/ *eg em eirn phariseus/ sonur eins
pharisei / eg dæmest fyrer vonena og
upprisu framlidenna. * c. 26/ 5.
Phil. 3/ 5.
7 En þegar hann hafde þetta sagt /
vard eitt upphlaup i millum phariseanna
og saduceanna / og flockurenn skildest ad.
8 Þvi saducei *seigia/ ad þar sie ecke
til upprisa/ og hvørke eingell/nie ande/
en pharisei vidurkienna hvørttveggia.
* Matth. 22/ 23. Marc. 12/ 18.
9 En þar vard hæreade mikell/og þar
risu upp þeir skriftlærdu af ælfu
phariseanna/ og kieptu i moote/seigian
de: * eckert illt finnum vier i þessum manne/
en ef eirn ande hefur talad vid hn/edur
eirn eingell/ þa lætum oss** ecke strijda
i moote Gude. * c. 25/ 25. ** c. 5/ 39.
10 En er upphlaupet var stoort ord-
ed/ ottadest sa ypparste høfudsmadur/
ad Paall munde verda af þeim sundur-
sliten / og baud strijdsfoolkenu ad fara
ofann / og grypa hann midt i burtu fra
þm/og færa (hann) i kastalann.
11 En umm * nottena epter/stood Drott
enn hia hønu/ z sagde: verku hughraust
ur Paall/ þvi eins sm þu hefur vitnad
umm mig i Jerusalem/ so byriar þier og i
Rom ad vitna. * c. 18/ 9.
12 En er dagur var komenn/samann tooku
sig nockrer af Judum/ z streingdu heit/
og søgdu/ad þr (skylldu) hvørke eta nie
drecka þar til þr hefde lijflated Paal.
13 En þeir voru fleire enn fiorutiju/sm
þetta sære høfdu giørt til samans.
14 Hvorier ed geingu til hinna ypparstu
presta og ølldunganna / og søgdu: vier
høfum med banne formallt oss sialfum/
eckert ad smacka/ þar til vier høfum lijf
lated Paal.
15 So giefed nu til vitundar/þeim ypp
arsta høfudsmanne/ med radenu/ad hn
a morgun føre hann ut til ydar/ so sm
þier villdud grandgiæfelegar ransa-
ka hans efne / en vier erum/ædur enn
hn nalgast/reidubuner ad slaa hn i hel.

16 Enn er Systurson Pals heyrde svik
rædenn/kom hann/ og gieck inn i kastalann/
og kunngiørde (þad) Pale.
17 Enn Pall kallade til (sijn) eirn af
Hundradshøfdingiunum/og sagde: leid
þetta ungmenne til þess ypparsta Høf-
udsmanns/ þvi hann hefur nockud ad kunn
giøra honum.
18 Þa took hann vid honum / og leidde
(hann) til þess ypparsta høfudsmanns/
og sagde: sa bundne Pall kallade mig
til(sijn/) og bad mig leida þetta ungmenne
til þijn/sem hefur nockud ad seigia þier.
19 Þa took sa ypparste høfudsmadur
i hønd hans/og gieck burt afsijdes/ og
spurde hann: hvad er þad/ sem þu hefur
ad kunngiøra mier?
20 Enn hann sagde: Judarner hafa sam-
eigenlega æsett i sier/ad bidia þig/ad þu
a morgun / læter færa Paal fyrer rad-
ed/so sem vilde þeir nockud grandgiæfe-
legar spyria umm hann.
21 Þar fyrer laat þig ei yferkala af
þeim/þvi þar sitia a svikrædum vid hann
af þeim/ meir enn fiooruttijumenn/ hvør-
ier ed hafa formællt sier sialfum/ad þeir
skilldu hvørke eta nie drecka/þar til þeir
hefdu lijflaated hann/og(eru nu)reidubun-
er/og bijda epter leife fra þier.
22 Þa liet sa ypparste høfudsmadur
þad ungmenne fra sier/og baud(seigian-
de:)þu skallt aungvum seigia(þad/)ad
þu hafer openberad þetta fyrer mier.
23 Og hann kallade til(sijn) tvo hund
radshøfdingia/ og sagde: bued til tvø
hundrud strijdsmenn/ ad þeir fare allt til
Cæsaream/ og siotiju riddara / og tvø
hundrud skotmenn / epter þridiu stund
nætur.
24 Og þeir skule reidskioota tilbua /
ad setia Paal þar a/og færa hann heilann
til Felicem landsdoomara.
25 Og hann skrifade bref / sem hafde
þetta innehallds:
26 Claudius Lysias / þeim megtuga
landsdoomara Felici/ heilsan.
27 Þennann mann / (sem var) gripenn af
Judum/og var nær i heilsleigenn af þeim /
þa eg * kom ad med strijdsfoolked/ took
eg hann/ þegar eg ** fieck ad vita/ad
hann var Romverskur. * c. 21/ 23.
** C. 22/ 25.
28 Enn þar eg villde vita ordsøkena /
fyrer hvøria þeir kløgudu hann/færde eg
hann fyrer rad þeirra.
29 Þa fann eg/ad hann var klagadur fyr-
er spurningar ur þeirra løgmaale / enn
hafde * aungva søk/ sem var dauda verd
edur fiotra. * c. 25/ 25. c. 26/ 31.
30 Enn er mier var til vitundar giefed/
ad svik mundu mannenum ætlud vera af
Judum/þa strax senda eg hann til þijn /
bioodande og sakaræberunum/ ad seigia /
hvad þeir hefdu i moote honum/ fyrer
þier. Far vel.
31 Enn strijdsmennerner / epter þvi sem
þeim var boded / tooku Paal / og færdu
hann umm nootkena til Antipatrida.
32 Enn daginn epter lietu þeir riddara
lided fara med honum/og sneru aptur til
kastalans.
33 Hvørier / er þeir komu i Cæsare-
am/ og høfdu afhendt brefed landsdoom-
aranum / settu þeir og Paal fram fyrer hann.
34 Enn er landsdomarenn hafde lesed(bref
ed/) og spurt ad / ur hvøriu lande hann
være? og þa hann fieck ad vita/ad hann var
* ur Cilicia: * c. 22/ 3.
35 Sagde hann: eg vil yferheyra þig/nær
þijner sakaræberar koma og hijngad.
Og hann baud ad vardveita hann i rad-
huse Herodis.

## XXIV. Capitule.

Sa akiærde Paall forsvarar sig.

Enn epter fimm daga/foor sa ypp-
arste prestur Ananias ofann /
med ølldungunum og mælsku-
manne nockrum Tertullo / hvør-
ier ed mætti fyrer landsdoomaranum i
giegn Pale.
2 Enn þegar hann var fyrerkalladur/hoof
Tertullus ad klaga/seigiande:
3 Ad vier høfum mikels fridar noted
vegna þijn/og ad þar vidgangast marg
er skickanleger hluter a medal þessarar
þioodar fyrer þijna forsioon/ þad med-
tookum

tookum vier ølldunges og allsstadar * megtugaste Felix / med øllu þacklæte.
* C. 23/ 26.
4 En so eg ecke ofleinge hindre þig / þa bid eg þig / ad þu heyrer oss stuttlega af þinne goodsemd.
5 Þvi vier høfum funded þennann mann / ad vera eina drepsoott / og * giøra upphlaup a medal allra Juda / sem eru umm alla heims bigdena / sa er og eirn foringe villuflocks þeirra Nazaræorum.
* 1. Kong. 18/ 17.
6 Sem og hefur vidleitast / ad * vanhelga mustered. Hvørn vier og gripum / og villdum dæma epter voru løgmaale.
* C. 21/ 28.
7 En sa ypparste høfudsmadur * Lysias kom yfer oss / og burtfærde (hann) med stooru ofbellde ut vorum høndum /
* C. 21. 31/ 32.
8 Biodande / ad hans sakaraaberar kiæme og til þyn / af hvørium þu kant sialfur / er þu ransakar maaled / ad fa þeckeing a øllum þeim hlutum / fyrer hvøria vier kløgum hann.
9 En Judarner samsinnktu (þvi /) seigiande / ad øllu þessu være so vared.
10 En Paall svarade / er landsdomarenn bendte honum / ad (hann skyllde) tala: med þvi eg veit / ad þu hefur i mørg aar vered doomare þessarar þioodar / þa vil eg med þess betra giede forsvara mitt maalefne.
11 Med þvi þu kant ad vita / ad þad eru mier ecke fleire enn toolf dagar / sidann eg foor upp ad biddiast fyrer i Jerusalem:
12 Þeir hafa og hvørke funded mig i * musterenu / ad eg talade i moote nockrum / edur giørde upphlaup a medal foolksens / ei helldur i samkundu husunum / ei helldur i borgenne. * C. 25/ 8.
13 Þeir kunna ei helldur bevysa þad / sem þeir nu klaga mig fyrer.
14 En eg medkienne þetta fyrer þier / ad eg / epter þeim lærdoome / hvørn þeir kalla eirn villulærdoom / þioona so (minna) fedra Gude / ad eg true øllum þeim hlutum / sem eru i løgmaalenu og i spaamønnunum skrifader.
15 Hafande von til Guds / hvørrar þeir og sialfer vænta / (sem er) ad * upprisa framlidenna mune a epterkoma / bæde riettlaatra og ranglaatra.
* Dan. 12/ 2. Joh. 5. 28/ 29.
16 J þvi sama æfe eg mig sialfann / ad hafa jafnann * hindrunarlausa samvitsku hia Gude og mønnum. * C. 23/ 1.
1. Pet. 3/ 16.
17 En (nu) epter mørg aar / kom eg * ad giøra mynu foolke ølmusur og offur.
* C. 21/ 26.
18 Þar ad auk / * fundu mig hreinsadann i musterenu / eige med upphlaupe / ed helldur med haareiste / nockrer Judar ur Asia. * C. 21/ 27.
19 Hvørium byriad hefde hia þier nalægum ad vera / og klaga / ef þeir hefdu nockud i moote mier.
20 Edur laat þessa sialfa seigia / ef þeir hafa funded nockud rangt i mier / er eg stood fyrer raadenu.
21 Nema fyrer þetta * eina ord / er eg stood a medal þeirra / og kallade: vegna upprisu framlidenna / færest eg fyrer doom i dag af ydur. * C. 23/ 6.
22 En er Felix heyrde þetta / feigde hann tymann fyrer þeim / þvi hann visse giørla umm þennann lærdoom / og sagde: nær * Lysias høfudsmadurenn kiemur hingad ofann / vil eg ransaka ydar maalefne.
* C. 23/ 26.
23 Og hann baud * hundradshøfdingianum ad vardveita Paal / og læta (hann) hafa hvyld / og banna aungvum af hans eigenn / ad þioona honum / edur ad koma til hans. * C. 27/ 3. C. 28/ 16.
24 En epter nockra daga / kom Felix med husfreyu sinne Drusilla / sem var Juda kyns / og kallade Paal framm / og heyrde af honum umm truna a Christum.
25 En er hann talade umm riettlæted / og bindinde / og epterkomande doom / vard Felix otlasleigenn / og sagde: far burt i þetta sinn / En nær eg fæ hentugleika / skal eg laata kalla a þig:
26 En hann vænte og jafnframt / ad honum mundu giefast peningar af Paale / ad

hann

hn̄ liete han̄ lauſan̄/ Þar fyrer liet hn̄
þeſſ opt ar kalla a han̄/ z talade vid hn̄.
27 En̄ ad tveim aarum lidnum/ fieck
Felix * Porcium Feſtum til epter koma-
ra/og ſm̄ Felix ** villde vin̄a til þack
lætes hia Judunū/ſkyllde hn̄ Paal ept-
er bunden̄. * c. 25/ 14. ** c. 25/ 9.

XXV. Capitule.

Paall verdur aaklagadur i Jeruſalem og Cæſarea.

Þegar Feſtus var nu komen̄ i
landed foor hn̄ epter þrim da-
ga upp til Jeruſalem fra Cæ-
ſarea.
2 Þa mæltu fyrer honum/ſa ypparſte
preſtur/ z þr hellſtu af Judum/ i moote
Paale/og bædu han̄/
3 Oſkande velvilldar i giegn honū/ ad
han̄ villde ſenda han̄ yfer til Jeruſa-
lem/ z þeir ſaatu um̄ hn̄/ * ad ſlaa han̄
i hel a veigenum. * c. 23/ 15.
4 Þa ſvarade Feſtus/ad Paall ſkyllde i
vardhallde vera i Cæſarea/en̄ hn̄ ſialf
ur munde brædlega reiſa þangad.
5 Hvøria hellſt a medal ydar/ ſem þad
kun̄a/ſagde hn̄/ þa læted þa fara of-
an̄ med / ef þar er nockud oſæmelegt i
þm̄ man̄e/ þa klage þeir han̄.
6 En̄ er han̄ hafde dvaled hia þeim/
ecke meir en̄ tiju daga/ foor hn̄ ofan̄ til
Cæſarea/Dagen̄ epter * ſette hn̄ ſig a
doomſtoolen̄ / og ſkipade Paal ad fram̄-
leida. * Joh. 19/ 13.
7 En̄ er hn̄ kom / ſtoodu i kringū(hn̄)
þeir Judar/ ſm̄ voru komner ofan̄ fra
Jeruſalem / berande fram̄ margar og
þungar ſakargypter i giegn Paale/hvør
iar þeir gaatu ei bevijſad.
8 Med þvi hn̄ forſvarade ſig: eg hefe
hvørke i moote logmaale Judan̄a / edur
* muſterenu / edur keyſaranum neitt
ſyndgad. * c. 24/ 12.
9 En̄ Feſtus/ ſm̄ * villde vin̄a til þack
lætes hia Judunum/ſvarade Paale/ og
ſagde: villtu fara upp til Jeruſalem/ z
dæmaſt þar um̄ þeſſa hlute af mier?
* c. 24/ 27.
10 En̄ Paall ſagde: eg ſtend fyrer doom
ſtool keyſarans/ hvar mier byriar ad
dæmaſt. Eg hefe Judum aungvan̄ o-
riett giørt/ſm̄ þu og betur veiſt.
11 Þvi hafe eg giørt oriett/edur giørt
nockud dauda verdugt / veigra eg mier
ecke vid ad deyia / en̄ ef þad er eckert/
fyrer hvad þeſſer aaklaga mig/ þa maa
eingen̄ fyrer vinaattu ſaker fram̄ſelia
mig þm̄. Eg ſkijt mier fyrer keyſaran̄.
12 Þa talade Feſtus vid raaded/ z ſvar
ade: þu hefur ſkoted þier fyrer keyſar-
an̄/til keyſarans ſkalltu fara.
13 En̄ er nockrer dagar voru lidner /
kom Agrippas konungur z Bernice of
an̄ til Cæſaream/ad heilſa Feſto.
14 Og er þaug høfdu vered þar mar-
ga daga / ſkyrde Feſtus konungenū fra
um̄ efne Paals / ſeigiande : * hier er
einn madur/ epterſkilen̄ af Felix/ bund-
en̄. * c. 24/ 27.
15 Um̄ hvørn/ þegar eg var i Jeruſa-
lem/ad komu til ſamans þeir yppurſtu
preſtar og øllduugar Judan̄a/ oſkande
riettar i moote honum:
16 Hvørium eg ſvarade/ad þad være ei
ſidvane Romveria / ad fram̄ſelia nock-
urn man̄/ſaker velvilldar/til ad fortijna-
aſt/ * fyrr en̄ ſa/ ſ̄ klagaſt/hefur ſakar-
aaberana i augſijn perſonulega nalæga /
og hn̄ fær rum til ad forſvara ſig fyrer
aakiærun̄e. * 5. Moſ. 17/ 4.
17 Þar fyrer nær þeir voru hier til
ſamans komner/giørde eg aungva (tij-
ma) tof/ en̄ (dagen̄) epter/ ſetteſt eg a
doomſtoolen̄ / og baud ad fram̄leida
man̄en̄.
18 Um̄ hvørn ſakaraaberarner / þegar
þeir ſtoodu (fyrer riettenū/) fram̄ baaru
aungva ſakargypt/af þeim/ ſm̄ eg haf-
de hugad.
19 En̄ þeir høfdu ſpurningar nockrar
um̄ þeirra eigen̄ hiaatru i moote honū/
z um̄ Jeſum nockurn framliden̄/hvørn
Paall * ſagde lifa. * Luc. 24/ 23.
20 En̄ þa eg var efablanden̄ um̄ ſpurn
inguna (þar um̄/) ſagde eg / * hvørt
hn̄ villde fara til Jeruſalem/ z dæmaſt
þar um̄ þeſſe (maal.) * v. 9.

21 En̄ er Paall skaut sier undan̄/ so ad
hn̄ yrde vardveittur til keysarans ran-
sooknar/ baud eg ad hn̄ skillde vardveit-
ast/ þar til eg sende han̄ til keysarans.
22 En̄ Agrippas sagde til Festum: eg
villde og siaalfur heyra þan̄ man̄. En̄
hn̄ sagde: a morgun skalltu heyra han̄.
23 Þar fyrer dagen̄ epter / þegar A-
grippas og Bernice komu med stooru
yferlæte / og geingu in̄ i raadhused/ med
høfudsmønnunū / og þeim hellstu mønn-
um borgaren̄ar/ z er Festus baud(þad/)
var Paall sooktur.
24 Og Festus sagde : Agrippa kong-
ur / og aller men̄ / þier sem erud nær-
læger med oß / hier siaed þier þan̄/ um̄
hvørn allur Judan̄a lijdur hefur aa-
varpad mig/ bæde i Jerusalem og hier/
sem hroopa / ad hønū byrie ei ad lifa
leingur.
25 En̄ er eg merkte/ ad * hn̄ hafde ecke
giørt dauda verdugt/ og hn̄ siaalfur haf-
de og skoted sier under keysaran̄/ þa hefe
eg aslyktad/ ad senda hn̄ (þangad.)
* C. 23/ 9. C. 26/ 31
26 Um̄ hvørn eg hefe eckert vijst ad
skrifa herranum til. Þar fyrer liet eg
leida hn̄ fram̄ fyrer ydur/ og allra hellst
fyrer þig/ kong Agrippa/ so ad eg/ nær
hier um̄ er ransookn halldeñ/ hafe þad
er eg skrifa kun̄e.
27 Þvi mier synest þad fraaleitt / ad
senda eirn bandingia/ og ecke giefa sak-
argypternar til vitundar i moote hønū.

## XXVI. Capitule.

### Paall forsvarar sig fyrer Agrippa.

En̄ * Agrippas sagde til Paals:
Þier leifest ad tala fyrer þig
siaalfan̄. Þa forsvarade Paall
(sig/) og rette ut hondena.
* C. 25/ 13.
2 J øllum þeim hlutū/ fyrer hvøria eg
aaklagast af Judunū / kong Agrippa /
helld eg mig sælan̄ vera / ad eg maa for-
svara mig fyrer þier i dag/
3 Allrahellst/ af þvi eg veit/ ad þu veist
alla sidu og spurningar Judan̄a.
Þvi bid eg þig/ ad þu villder þolenmood-
lega heyra mig.
4 Ad søn̄u vita aller Judar mitt lijf-
erne fra ungdoome / hvørneñ þad fra
upphafe vered hefur a medal min̄ar
þioodar i Jerusalem/
5 Sem ad hafa þeckt mig fyrrum fra
uppvexte / ef þeir þar um̄ vitna villde/
þvi eg hefe / epter hinum strangasta
flocke vorrar (Guds) þioonustu / lifad
* eirn pharisæus. * c. 23/ 6. etc.
6 Og nu/ * fyrer von fyrerheitesens/
sem skied er af Gude til fedra (vorra/)
stend eg fyrer doome. * c. 13/ 32.
C. 28/ 20. 1. Mos. 3/ 15.
7 Til hvørs vorar toolf kynkvijsler
vona ad koma / þioonande (Gude) in̄e-
lega noott og dag / um̄ hvøria von eg er
klagadur/ kong Agrippa/ af Judunum.
8 Þvi hvad? þiker þad otruanlegt hia
ydur/ ad Gud uppvekie hina daudu?
9 * Eg meinte og ad søn̄u med siaalfū
mier / ad a moote nafne Jesu Nazaræi
byriade mier margt moostædelegt ad
giøra. * c. 8/ 3. c. 9/ 1. c. 22/ 4.
1. Cor. 15/ 9. Gal. 1/ 13. 1. Tim. 1/ 13.
10 Hvad eg og giørde i Jerusalem / og
marga af þm̄ heilogu in̄elukte eg i mirk-
vastofu / er eg af þeim yppurstu presto-
um hafde feinged valld (þar til/) z er þr
deydder voru / gaf eg mitt samþicke
þar til.
11 Og i øllum samkundum pijnde eg þa
optlega/ þreingiande þm̄ til ad (Gud-)
lasta / og þar eg var yfermata oodur
vid þa/ ofsookte eg þa z allt i framande
borger.
12 Og þegar eg reiste til * Damascum
med vallde z vilia fra yppurstu presta/
* C. 9 / 2. etc.
13 Um̄ middeige a veigenum/ saa eg/ o
konungur/ af himne eitt lioos/ fegra en̄
sool/ leiptra i krijngum mig/ og þa/ sem
urdu mier samferda.
14 En̄ er vier fiellum aller til jardar/
heyrde eg eina rødd talande til mijn a e-
bræska tungu: Saul/ Saul/ þvi ofsæk-
er þu mig? þad er þier þungt/ ad spyrna
i moote broddunum.

15 En̄

15 Eñ eg sagde: hvør ert þu Herra?
eñ hañ sagde: eg em Jesus hvørn þu
offsæker.
16 Eñ rijs upp/og statt u a þijnar fæt
ur/ þvi til þess hefe eg birtst þier/ ad
eg sette þig eiñ þienara z* vott/bæde
þra hluta er þu hefur sied / z þeirra/ i
hvørium eg mun verda siedur af þier.
* C. 22/ 15.
17 Eg/ sm̃ vil frelsa þig fra foolkenu/
og heydingiunum / til hvørra eg nu ut-
sende þig.
18 Ad luka upp * augum þra/og snua
(þeim) fra myrkrunum til liossens / og
fra vallde satans til Guds/ so ad þeir
fæe fyrergiefning syndañá/z **hlut-
skipte med þeim helgudu fyrer truna a
mig. * Es. 35/ 5. Eph. 1/ 18.
** D. G. 20/32.
19 Hvar fyrer/kong Agrippa/ *eg var
ecke ohlydugur himneskre openberan.
* Gal. 1/ 16.
20 Helldur * kuñgiørde fyrst / þeim i
Damasco/ z i Jerusalem/ bæde um̃ allt
land Judæa/so og fyrer heydingiunum/
ad ydrast/og snua sier til Guds/og giø-
ra verdug verk ydranareñar. * c. 9/20.
21 Fyrer þessara (hluta) saker gripu
Judar mig i musterenu/ og * leitudust
vid ad lijflæta mig. * c. 21/ 30.
22 Eñ fyrer hiælp / er eg ødladest af
Gude/ stend eg allt til þessa dags/vitn-
ande fyrer smæum og stoorũ/ seigiande
eckert añad eñ þad/er * bæde spæmeñer
ner hafa sagt ad munde skie / og Mo-
ses. * Luc. 24/ 44.
23 Ad Christur skillde lijda/ad hñ hef-
de * fyrstur af upprisu framlideña ætt
**eitt lioos ad boda foolkenu og heid-
ingiunum. * 1. Cor. 15/20. Col. 1/ 18.
Openb. 1/ 5. ** Luc. 2/ 32.
24 Eñ þa hñ var so ad forsvara sig/
sagde Festus med hærre raust / þu ert
ær Pæll / þad mikla bookvit giører
þig galeñ.
25 Eñ hñ sagde: ei em eg galeñ/ megt-
ugaste Festus/ helldur tala eg sañleik-
ans og heilvita mañs ordum.
26 Þvi konungureñ veit um̃ þssa hlute/
vid hvørn eg og med diørfung tala/ þvi
* eg hygg / ad eckert sie hønum dult af
þessu / þvi eckert af þessu er i afkima
skied. * Joh. 18/ 20.
27 Truer þu/kong Agrippa/spæmøñ-
unũ? eg veit/ ad þu truer.
28 Eñ Agrippas sagde til Pæls: þar
er lijtels vant / ad þu yfertaler mig/ ad
eg verde christeñ.
29 Eñ Pæll sagde: eg villde oska af
Gude/ hvort þar er helldur lijtels edur
mikels vant / ad ei einasta þu / helldur
og aller þeir / sem heyra mig i dag /
mætti verda slijker/sem eg er/ ad undañ
tekñũ fiøtrum þessum.
30 Og er hañ hafde þetta sagt/ stood
konungureñ upp/ og landsdoomareñ/ og
Bernice/og þeir ed sætu med þeim/
31 Og viku afsijdes / tøludust vid iñ-
byrdes / og søgdu: * eckert dauda edur
fiøtra verdt/ giører madur þesse.
* C. 23/ 9. C. 25/ 25.
32 Eñ Agrippas sagde til Festum:
þesse madur hefde kuñad ad lækast laus/
ef hñ hefde ecke * skoted sier fyrer Key-
saran. * c. 25/ 11.

## XXVII. Capitule.

### Pæll æsamt ødru fleira lijdur Skipbrot.

Eñ er þad var æltyktad / * ad
vier skilldum sigla þadañ i I-
taliam / afhendtu þeir / bæde
Pæl og nockra adra bandingia/
einum hundradshøfdingia yfer Keysar-
ans skara/ad nafne Julius. * c. 25/12.
2 Eñ er vier stigum a þad Adramyten-
iska skip/og ætludum ad sigla fram med
Asiæ løndũ/ løgdũ vier ut/og * Aristar
chus eirn Macedoniskur/af Thessaloni-
ca/var med oss. * c. 19/ 29.
3 Og (dageñ) epter komum vier til Si-
don. Og Julius * breitte goodmañlega
vid Pæl / og leifde honũ ad ganga til
vinaña / ad læta giøra sier til gooda.
* C. 24/ 23. C. 28/ 16.
4 Og vier foorum þadañ / og sigldum
under Cyprum/ þvi vindureñ var moot
stædur.

5 Og sigldum yfer hafed/ vid Cilicia / og Pamphylia / og komum til Myra i Lycia:

6 Og þar fañ hundradshøfdingeñ eitt skip ur Alexandria/ sem siglde til Italiam / og setti oss a það.

7 Eñ er oss i marga daga sigldest seinlega/ og komustū naumlega giegnt Enido/ þui vindureñ bægde oss / sigldū vier fram̄ med Creta vid Salmonem.

8 Og gaatum naumlega beitt fram̄ hiaa heñe/ og komū i plats nockurt/ sem nefnest hin gooda høfn / þar var nærre su borg Lasæa.

9 Eñ er laangur tijme var lideñ/ z * siglingeñ var ordeñ eñ hættulegre / af þui fastañ var nu og lideñ/ raadlagde Paull/ og sagde til þeirra: * 2. Cor. 11. 25/26.

10 Þier meñ/ eg sie/ ad þesse sigling vill verda med mootgaange og stooru tioone/ ecke alleinasta a farme og skipe/ helldur ogso a lijfe voru.

11 Eñ hundradshøfdingeñ trude framar skipherrañ og stijremañenū/ helldur eñ þui/ sem Paull sagde.

12 Eñ med þui høfneñ var ohentug til vetrarlegu/ riedu flester ad fara þadañ/ ef þeir kynnu a einhvørn haatt ad naa til Phænicia / ad hafa þar vetrarlegu / hvør ad er ein høfn i Creta/ sem horf er giegnt sud-vestre og nord-vestre.

13 Eñ er suñañ-vindur blies/ og þeir meintu ad þeir hefdu naad þui þeir aasettu / leystu þeir upp fra Asson / og fooru naalægt (fram̄ hiaa) Creta.

14 Og ecke laungu þar epter / stood stormvindur uppa hana / sem kallast nord-austañ vindur.

15 Eñ er skiped laa under aafølllū / og gat ecke riett sig vid vedrenu/ lietū vier reka/ og hrocktunst (so.)

16 Eñ vier hleiptū under eina litla ey/ sem kallast Clauda / og gaatum valla naad baatnum.

17 Hvørn er þeir høfdu uppdreiged/ hiaalpudust þr ad/ og streingdu skiped/ z er þeir ottudust ad þa munde reka a syrtin / hleiptu þeir nidur seglenu og lietu so reka.

18 Og er vier lidū stooran storm/ køstudu þeir (dageñ) epter fyrer bord.

19 Og a þridia (deige) køstudū vier ut med vorum høndū reida skipsens.

20 Eñ er hvørke saa sool edur stiørnur i marga daga/ og ecke allijtell stormur gieck yfer (oss/) þa var i burtu øll von ad vier mundum frelsast.

21 Og er meñ høfdu ecke eted i laangañ tijma/ stood Paull midt i millum þeirra/ og sagde: Þad hefde byriad/ o þier meñ/ ad þier hefdud hlijdt mier / og ecke lagt fra Creta / og þier hefdud vered fríer fra þessum mootgaange og tioone.

22 Og nu ræd eg ydur / ad þier sieud hughrauster/ þui eingeñ skal af oss mun tijnast/ helldur einasta skiped.

23 Þui a þessare nottu stood hiaa mier * eingell Guds/ hvørs eg er/ z hvørn eg dijrka. * 1. Mos. 16/ 7.

24 Og sagde: * ottastu ecke/ Paull/ þier byriar ad koma fyrer keysarañ/ og siaa/ Gud hefur giefed þier alla þa / er sigla med þier. * c. 23/ 11.

25 Þar fyrer/ vered hughrauster/ þier meñ/ þui eg true Gude / ad þad munt verda so sē mier er sagt.

26 Eñ * oss mun kasta uppa eyu nockra. * c. 28/ 1.

27 Eñ er su fiortanda nott var komeñ / og oss hrakte hijngad og þaangad i Adria um̄ midnætte/ meintu skipveriarner ad land være nærre þeim.

28 Og þeir vørpudu ut grunsøcku/ og fundu tuttugu fadma diup / eñ er þeir voru komner skamt þar fra / vørpudu þeir søckuñe aptur / og fundu fimtan (fadma.)

29 Og þeir ottudust / ad þr / maaske mundu steita a skierium / z køstudu ur skutnū fioorum akkierum / z oskudu ad dagur kiæme.

30 Eñ er skipveriarner leitudust vid ad flijia ur skipenu/ og lietu baateñ ofañ a siooeñ/ og lietu sē þeir villdu hleipa akkierum ur barkanum.

31 Þa sagde Paull til hundranshøfdingians

ingians

ingians & til ſtrijdsmañaña: nema þeſſ
er blijfe i ſkipenu / þa munud þier ecke
frelſaſt.
32 Þa hiuggu ſtrijdsmeñerner bætfeſt-
arnar/og lietu hañ ofañdetta.
33 Eñ þeſſ a mille/ þar til dagur var/
riede Paall ollum/ad fæ mat/og ſagde:
þad er i dag * ſa fiootſande dagur / ad
þier hafed bidleikad / & einſkes neitt/og
eckert teked til (ydar.) * v. 27.
34 Þar fyrer ræd eg ydur ad fæ mat/
þvi þad er ydur til hreiſingar/ þvi þar
mun ecke falla * eitt hær af nockurs
ydar høfde. * Matth. 10/ 30.
Luc. 21/ 18.
35 Eñ er hañ hafde þad ſagt / og *
teked brauded/ giørde hañ Gude þacker
fyrer allra augum / og braut (þad) og
took til ad eta. * Joh 6/ 12.
36 Eñ þeir urdu aller hughrauſter &
feingu eirneñ mat.
37 Eñ vier vorum i ſkipenu/ allar ſæl
er/ tvø hundrud ſiøtiju og ſex.
38 Eñ er þeir voru mett er/ lietu þeir
a ſkipenu/og køſtudu hveitenu i ſiooeñ.
39 Eñ er dagur var / þecktu þeir ecke
landed/eñ þeir urdu varer vid eina vijk/
ſm̃ hafde fiøru / a hvøria þeir villdu/
ef þeir hefdu kuñad/hallda ſkipenu.
40 Og er þeir høfdu dreiged upp ak-
kiereñ/ lietu þeir (ſkiped) reka um̃ ſioo-
eñ/og leyſtu ſtioorn-taumana/og droou
upp ræna/ epter vedurſtødu/og hielldu
til fiøruñar.
41 Eñ er oſſ kaſtade uppa eitt rif /
þar ſioor gieck a bædar ſijdur/ * ſteittu
þeir ſkipenu (þar a/) og fram̃ ſtafneñ
ſtood gruñ / og var ohrræranlegur / eñ
ſkutureñ leſteſt ſundur af ofureble bilg-
naña. * Matth. 8/ 24.
42 Eñ þad var ſtrijdsmañaña ræd/ ad
þeir dræpu bandingiana/ ſo eingeñ ſkill-
de undañkomaſt / ef hañ kyñe ad ſynda
(i burt.)
43 Eñ hundradshøfdingeñ/ ſem villde
vardveita Paal / hindrade þa i þeſſu
ræde/og baud/ad þeir ſem ſyndt giætu/
ſkylldu fyrſter kaſta (ſier ut/)ad komaſt
til lands.
44 Eñ þeir adrer ſveimudu / ſumer a
fiølum/ eñ ſumer a nockrũ (flekum) af
ſkipenu. Og ſo ſkiede þad / * ad aller
komuſt hoolpner til lands. * v. 24/25

## XXVIII. Capitule.

Paall kiemur til Rom. hvar hñ kieñer

Og er þeir høfdu * affomeſt /
feingu þeir ad vita / ad ſu ey
hiet Melita. * c. 27/ 26.
2 Eñ þeir barbariſku ſijndu
oſſ ecke allitla vinætu/þvi þr kveiktu
upp elld/ og medtooku oſſ alla/ vegna *
þeſſ hreggvidres/ ſem þvingade oſſ/ og
fyrer kullda ſaker. * 2. Cor. 11/ 27.
3 Eñ er Paall ſoopade ſamañ eirne
viſk af hrijſe/og lagde a elldeñ/ kom ein
nadra ut ur hitanum / og hreckteſt a
hans hønd.
4 Eñ er þeir barbariſku ſæu kvikend-
ed hanga a hñs hende/ ſøgdu þr hvør-
ier vid adra: endelega mun þeſſe madur
vera eirn mañdræpare/ hvøriũ/ þo hañ
ſie frelſtur ur ſioonum / hefndeñ leifer
ecke ad lifa.
5 Þa * hriſte hñ kvikended burt i elld-
eñ / og kiende einkes meins.
* Marc. 16/ 18.
6 Eñ þeir væntu epter/ ad hñ munde
uppþrutna/edur nidur detta haſtarlega
daudur. Eñ er þeir bidu leinge/ og ſæu
ad hñ ſkiede eckert oveniulegt/urdu þeir
añars ſiñes/ og ſøgdu * hñ Gud vera.
* C. 14/ 11.
7 Eñ nælægt þeim ſama ſtad hafde
foringe eyareñar ad nafne Publius /
(ſiñ) bugard/ hñ medtook oſſ / og hijſte
(oſſ) vinſamlega i þriar daga.
8 Eñ þad bar til/ad fader Publii læ
* i kølldu og bloodſoott kvaleñ/til hvø-
rs Paall gieck iñ/og badſt fyrer/og lag-
de hendur yfer hñ/ og læknade hañ.
* Matth. 8/ 14.
9 Þa þad var ſkied / komu og adrer a
eyuñe/ſem høfdu ſootter / og urdu læk-
nader.
10 Hvørier høfdu oſſ og ſo i ſtorũ vyrd
ingũ/ og er vier løgdum ut / lietu þeir i

(skiped/)hvad sm̄ vier þurftū ad hafa.
11 Eñ epter þria mánude/foorū vier
á einu skipe fra Alexandria / hvørt ed
hafde haft vetrarlegū a eyuñe/og haf-
de kvssdüra merke.
12 Og er vier komū til Syracusas/vor
um vier (þar) þria daga.
13 Þádañ sigldū vier um̄ kryng/og kom
um til Region/og einum dege sydar/ er
suñañ vindur kom/komum vier hiñ añ-
añ (dag) til Puteolos.
14 Hvar vier fundum brædurnar / og
vorum bedner af þeim ad dvelia þar sió
daga/ Og só komum vier til Rom.
15 Hvadañ/ þegar brædurner høfdu
heyrt um̄ oss/ geingu þr ut i moote oss/
allt til Appii Forum/ og Tretabern/
hvøria / þegar Pááll sa / þackade hañ
Gude/og fieck truarstirkyng.
16 Eñ er vier komum til Rom/ * af-
hendte hundradshøfdingeñ bandingiana
stryds høfdingianum / eñ Páále ** var
leift ad vera utaf fyrer sig hiá einum
strydsmañe/sm̄ vaktade hañ.
* C. 23/33. ** C. 24/ 23. C. 27/ 3.
17 Eñ þad skiede epter þria daga/ ad
Pááll kallade til samans þa yppurstu
a medal Judaña. Eñ er þeir komu til
samans/sagde hñ til þra: * þier meñ/
brædur / eg hefe eckert giørt i moote
foolkenu/edur fedraña sidum / er (þo)
bundeñ/fra Jerusalem afhendtur i hend
ur Romveria. * c. 23/ 1.
18 Hvørier / þa þeir høfdu yferheyrt
mig/ villdu þeir láta mig lausañ / med
þvi þr fundu aungva daudasøk i mier.
19 Eñ er Judarner tøludu i moote /
neyddest eg til ad * skioota mier under
keysarañ / ecke só sem eg hefde nockud
ad klaga mitt foolk fyrer. * c. 25/12.
20 Þess vegna liet eg kalla a ydur
hyngad/ ad siá (ydur/) og tala vid yd-
ur/ þvi fyrer saker * vonar Israels/er
eg med þessum fiøtrum umvafeñ.
* C. 26. 6. 7.
21 Þa søgdu þeir til hñs : vier høfū
hvørke feinged skrif um̄ þig fra Ju-
dæa/ecke helldur er nockur af brædrun-
um komeñ / sem hefur kuñgiort edur
sagt um̄ þig nockud illt.
22 Eñ vier beidumst ad heyra af þier/
hvad þu meinar/þvi oss er * um̄ þeñañ
villuflock vitanlegt/ ad hønū er allstad
ar i moote mælt. * c. 24/ 14.
23 Og er þeir høfdu tilsett hønum
eirn dag/komu til hñs i herberged marg
er/fyrer hvørū hñ utlagde/ * vitnande
um̄ ryke Guds/ og talde tru fyrer þm̄
um̄ þa hlute af Jesu/bæde ur løgmá-
le Mosis/ ꝛ ur spámoñuñ / fra þvi
snemma(um̄ morguneñ/) allt til kvølds
* C. 26/ 22.
24 Og * nockrer trudu þvi/ sem sagd-
est/eñ nockrer trudu eige. * c. 17/ 4.
25 Eñ er þeir voru osamþicker syn á
mille / skildust þeir ad/ þa Páll hafde
sagt eitt ord/ ad sa * Heilage Ande hef
de talad vel fyrer Esaiam spámañ til
fedra vorra/ * 2. Pet. 1/ 21.
26 Og sagt: * gack burt til foolks
þessa/ꝛ seig: med heyrneñe munud þier
heyra/ꝛ aungvañveigeñ skynia/ ꝛ siá-
ande munud þier siá/ ꝛ aungvañveigeñ
þeckia. * Es. 6/ 9. etc. Luc. 8/ 10.
27 Þviad forhert er hiarta foolks
þessa/ ꝛ þeir hafa heyrt þunglega med
eyrunum/ꝛ tilbyrgt sijn augu / ad þeir
skylldu ecke nockru siñe siá med augun-
um/ꝛ heyra med eyrunū/ ꝛ skynia i hiar
tanu/ ꝛ snua sier/og eg kiñe lækna þa.
28 So * sie þad ydur vitanlegt/ad heyd
ingiunum er sendt þetta hiálpræde
Guds/þr munu og heyra. * c. 13. 38/46
29 Og er hñ hafde sagt þetta/ geingu
Judarner burt/ og ættust vid marga
þrætu syn a mille.
30 Eñ Pááll var tvø ǽr heil i sijnu
eigeñ leigu (huse/)og medtook alla/ sm̄
komu iñ til hañs.
31 Predikande ryke Guds / og kieñande
ut af Drottne Jesu/ med allre diørf-
ung ǽn forbods.

St. Pals

# St. Pals Pistell til Romveria.

## I. Capitule.

Truen openberast i Evangelio.

Pall þion Jesu Christi/
kalladur til postula/ *
fra skilen̄ til evangeli-
um Guds.
* P. G. 9/ 15. C. 13/ 2.
Gal. 1/ 15.
2 Hvøriu han̄ hafde
fordum * fyrerheited ** fyrer spaamen̄
sijna i heiløgum ritningum/ * Tit. 1/ 2.
** P. G. 3/ 21.
3 Um̃ sin̄ son/ fæddan̄ af sæde Davids
epter holldenu/
4 Berlega auglijstan̄ (ad vera) * Son
Guds i mætte epter Anda heilagleik
ans af upprisu hin̄a daudu / Jesum
Christum Drotten̄ vorn. * Joh. 10/ 36.
Ebr. 1/ 5. C. 5/ 5.
5 Fyrer hvørn vier høfũ medteked naad
og * postula embætte til hlijdne truaren̄
ar a medal allra heidingia fyrer hans
nafn. * P. G. 9/ 15.
6 A medal hvørra þier erud og kallad-
er af Jesu Christo.
7 Øllum þeim/ sem eru i Rom/ elsku-
legum Guds/ * kølludũ heiløgũ. Naad
(sie med) ydur/ og fridur/ af Gude Fød-
ur vorum/ og Drottne Jesu Christo.
* 1. Cor. 1/ 2. Eph. 1/ 1.
8 Fyrst ad søñu * þacka eg Gude mijnũ
fyrer Jesum Christum allra ydar veg-
na / ** ad ydar tru verdur kun̄giørd i
øllum heimenum. * 1. Cor. 1. 4/ 5.
** 1. Thess. 1/ 8.
9 Þvi * Gud er min̄ vottur/ hvørium̄ eg
þiona i mijnum anda/ i evangelio Son
ar hn̄s / hvørsu eg * * aan aflaats min̄-
est ydar. * C. 9/ 1. Phil. 1/ 8.
** Eph. 1/ 16.
10 Alltijd i mijnũ bænum audmiuklega
bidiande/ ef mier einhvørn tijma giæfest
gott tækefære epter Guds vilia / ad
koma til ydar.
11 Þvi * mig forleingir epter ad sia yd
ur/ so ad eg utdeile nockre andlegre naad-
argaafu a medal ydar/ ad þier kun̄ed ad
styrkiast. * C. 15. 23/ 29.
12 En̄ þad er þad/ ad huggast under
eins a medal ydar fyrer * in̄byrdes tru /
bæde ydar og mijna. * 2. Pet. 1/ 1.
13 En̄ eg vil ecke dylia fyrer ydur /
brædur/ ad eg * hefe optsin̄es ætlat/ ad
koma til ydar/ og eg hefe vered hindrad-
ur allt til þessa/ ad eg kyn̄e og ad hafa
nockurn ævøxt a medal ydar/ so sem og
a medal an̄ara heidingian̄a.
* 1. Thess. 2/ 18.
14 Eg em bæde Grickium ꝛ barbarisk
um/ bæde spokum ꝛ ospøkũ eirn skulld-
bunden̄ (skulldunautur.)
15 So er eg og / so miked sm̃ mier er
møgulegt/ reidubuen̄/ * ydur/ sem i Rom
(erud/) ad predika evangelium.
* P. G. 28/ 31.
16 Þvi eg skammast mijn ecke fyrer evan
gelium Christi / þvi þad er kraptur
Guds til sæluhiælpar sierhvørium tru
udum/ Judanum einkanlega/ einnen̄ þm̃
Griska.
17 Þvi Guds * riettlæte openberast i
þvi fraa tru til truar / sm̃ skrifad er:
** en̄ hin̄ riettlaate af trun̄e mun lifa.
* C. 3. 21/ 22. ** Hab. 2/ 4. Joh. 3/ 36.
Gal. 3/ 11. Ebr. 10/ 38.
18 Þvi Guds reide openberast af him-
ne yfer allan̄ oguđlegleik og ranglæte
man̄an̄a/ þeirra sm̃ aptra san̄leikanũ i
ranglætenu.
19 Þvi þad/ sm̃ madur kan̄ ad þeckia
um̃ Gud/ er * openberad þm̃/ þvi Gud
hefur openberad þeim (þad.)
* P. G. 14/ 15. etc.
20 Þvi hans * osijnileger hluter fra
skøpun heimsens / af verkunũ skyniad-
er/ þa siaast þeir / (sem eru) bæde hn̄s
eilijf magt og guddoomur / so ad þeir
sieu oafsakanleger. * Job. 12. 7/ 8/ 9.
21 Þvi þo at þeir þeckte Gud / þa
prijsudu þeir hn̄ ecke so sem Gud / nie
þøckudu hønũ/ helldur eru fanijter ord
ner

ner i sijnu hugreñingu/ og * þeirra skyn
laust hiarta er formyrkvad.
* Eph. 4/18.
22 Þegar * þeir hielldu sig hyggna/ eru
þeir heimskir ordner. * 1. Cor. 1/20.
23 Og hafa * umbreitt dyrd oforgeinge
legs Guds/ i bijlækes lijking forgeinge-
legs mañs/ og fugla og ** ferfættra
(dyra) og orma. * 4. Mos. 4/15.
** Spek. 11/16. C. 12/24.
24 Þar fyrer hefur ꝛ Gud ofurselldt þa
i * girnder hiarta þeirra til ohreinlei-
ka / til ad vanvirda þeirra lijkame sijn a
mille. * Ps. 81/13.
25 Hvøriar umbreitt hafa sañleika
Guds i lijge/og gøfgad og dyrkad skiepn
una fram hiaa Skaparanu / sem er *
blessadur um allder/amen. * C. 9/5.
26 Fyrer þad hefur Gud ofurselldt þa
i gyrnder vanærunar/ þvi * konur þra
hafa og umsnued natturlegre brukun i
onatturlega. * 3. Mos. 18/23.
27 Sømuleides hafa og kallmennerner
yfergiefed natturlega brukun konuñar/
og bruñed i gyrnd siñe hvør til añars /
* kallmeñ til kallmaña/fremiande svij-
virding/og þau laun/sem hæfde þeirra
villu a sialfu sier medtakande.
* 1. Cor. 6/9.
28 Og eins sem þeir hielldu ecke gott /
ad hafa Guds þeckingu/(þa)hefr Gud
ofurselldt þa i fraleitt siñe / ad þeir
giørde þad er ei soomde.
29 Uppfyllta med allt ranglæte/ frillu
lifnad/ hreckvijse / ægyrnd/ illsku/ fulla
af øfund / mañdrape / þrætu / svik-
seme/ illgyrne.
30 Kvijsgiarna/ bakmaaluga / hatande
Gud/forsmaanara/ drambsama/ofvijf-
na/underførula/ forelldrunu ohlijduga/
31 Skynlausa / triggrofa / kiærleiks-
lausa/ osattgiarna/ omyskunsama.
32 Hvøriar þoott þeir þeckte rietlæ-
te Guds/ ad þeir/ sem slijkt giøra/ sieu
dauda verder/þa giøra þeir þad ecke ad
eins/helldur hafa ꝛ * þocknan a þeim/
er þad giøra. * Ps. 7. 2/3.

## II. Capitule.

### Bæde Judar og Heidingiar eru Syndarar fyrer Gude.

Þar fyrer/ertu oafsakanlegur/
o madur / hvør helldst þu ert /
sem dæmer/þvi * i þvi þu dæm
er añañ/fordæmer þu þig sialf
añ/þvi þu giører þa somu hlute/(þu)
sem dæmer(adra.) * Marc. 4/24. etc.
2 Eñ vier vitum/ ad Guds doomur er
riettvijs yfer þeim / sem giøra þvilijka
hlute.
3 Eñ meinar þu þetta/ o madur / þu
sem dæmer þa/ er þvilijka hlute giøra/
og giører þa somu / ad þu muner um-
flijia doom Guds?
4 Edur forsmaaer þu rijkdoom hans
giæsku og * þolenmædes ꝛ langlunder-
gieds/ og veitst ecke/ad goodgyrne Guds
leider þig til ydrunar? * 2. Pet. 3/9/15.
5 Eñ med þiñe hardud og ydrunar-
lausu hiarta/ safnar þu þier sialfum
reide a deige reideñar og openberunar
og riettdomes Guds.
6 Hvør ed * mun endurgiallda sierhvør-
ium epter sijnu verkum. * Es. 40/10.
C. 26/11. Jer. 17/10. Ps. 62/13. Matth.
16/27. 1. Cor. 3/8. 2. Cor. 5/10.
Openb. 2/23. C. 22/12.
7 Þeim ad sønu / sem fyrer þolenmæde
hins gooda verksens/ leita dyrdar ꝛ heid
urs og oforgeingelegleikans/eilijft lijf.
8 Eñ þeim/ sem eru þrætugiarner/og
ecke hlijda sañleikanum / helldur hlijda
ranglætenu/(þeim mun verda) * grimd
og reide. * 2. Thess. 1/8.
9 Þreinging og angist (mun vera) yfer
sierhvørs mañs saal / sem fremur hid
vonda/bæde * Judans sierdeileslega/so
og hins Grijska. * C. 3/9.
10 Eñ dyrd og heidur/ og fridur(mun
hlotnast)øllum þeim sem gott fremur/
bæde Judanum sierdeileslega/ so og hin-
um Grijska.
11 Þvi * þar er ecke mañgreinar alit
hiaa Gude. * P. G. 10/34. etc.
12 Þvi hvøriar helldst sem aan løgmaal-
sens syndgad hafa / munu og aan løg-
maals fyrerfarast/ og hvøriar helldst sem
i løg-

i lögmálenu syndgad hafa/ munu ept-
er lögmálenu dæmast.
13 Þvi ecke (eru) heyrendur lögmál-
sens riettlaater fyrer Gude/ helldur *
giörendur lögmálsens/ þr munu riett-
lætast. * Joh. 3/7. Jak. 1. 22/ 25.
14 Þvi med þvi Heidingarner / sm lög
máled ecke hafa / giöra af nátturunne
(nockur) lögmálsens verk/ þa eru þeir
sömu/ þo þeir hafe ecke lögmáled/ sier
siálfum lögmál.
15 Sem sijna verk lögmálsens skrifad
i sijnum hiörtu / ad samvitnande þra
samvitsku/ og hugreñingum / er sig iñ
byrdes ymist áklaga edur og afsaka/
16 A * einum deige/ þa Gud mun dæma
leynda hlute mañaña epter mijnu evan-
gelio fyrer Jesum Christum.
* Pred. 12/ 14. Matth. 25/ 31.
17 Siá/ þu ert auknefndur Jude/ z reid
er þig (ohullt) uppa lögmáled/ z hroos-
ar þier i Gude.
18 Og veitst (hañs) vilia / og reiner
þa adskilianlegu hlute/ med þvi þu ert
uppfrædur af lögmálenu/
19 Og treyster þier siálfum ad vera *
leidtoge blindra/ liios þeirra/ sem eru i
myrkrenu/ * Matth. 15/ 14.
Luc. 6/ 39.
20 Typtunar madur fáfroodra/ lære-
meistare heimskra / hafande form skyn-
semeñar og sañleikañs i lögmálenu.
21 Fyrer þvi / * þu sm ödrum kieñer/
kiener þu ecke siálfum þier? þu sem
predikar ad ei skule stela/ stelur þu?
* Matth. 23/ 14.
22 Þu sem seiger/ ad eige skule hoorast/
drijer þu hoor? þu sem hefur andstigd a
skurgodum/ ræner þu helgedoomum.
23 Þu * sm stærer þig af lögmálenu/
vanvirder þu Gud med yfertrodslu lög-
málsens? * c. 9/ 4.
24 Þvi * fyrer ydar skulld verdur Guds
nafn lastad a medal Heidingiaña/ so sm
skrifad er. * Es. 52/ 5.
25 Þvi umskurneñ gagnar ad sönnu/ ef
þu helldur lögmáled/ Eñ ef þu ert yfer
trodslu madur lögmálsens / þa er þijn
umskurn forhud ordeñ.
26 Þar fyrer ef forhudeñ vardveiter
riettende lögmálsens/ mun þa ecke hañs
forhud fyrer umskurn reiknud verda?
27 Og su forhud/ sem er af nátturuñe/
og uppfyller lögmáled/ mun dæma þig/
sem fyrer bookstafeñ og umskurnena ert
yfertrodslu madur lögmálsens.
28 Þvi * ecke er sa (eirn) riettur Jude/)
sem er openberlega eirn Jude/ ei helldur
su (eirn riett umskurn) sem er openber-
lega/ (þad er) a holldenu/ ein umskurn.
* Joh. 8/ 39. Rom. 9/ 7.
29 Helldur sa / sem (er) heimuglega /
(er) eirn Jude/ og * umskurn hiartans i
andanum/ ecke i bookstafnum/ hvorrar lof-
stijr eige er af moñum / helldur af
Gude. * 5. Mos. 30/ 6. etc.

## III. Capitule.

Riettlæted kiemur fyrer Truna / og
ecke af Verkunum.

Hvad hefur þa Judeñ fram yf-
er? edur hvor er nytseme um-
skurnareñar?
2 Miked (er þad) a allañ
hátt/ fyrst þess vegna/ ad þeim er tru-
ad til Guds orda.
3 Þvi hvad (skadar þad/) * þoott nock-
rer være vantruader/ mun þra * * van-
tru giöra Guds tru ad aungvu?
* 5. Mos. 29/ 19. Ebr. 4/ 2. ** 2. Tim. 2/ 13.
4 Fiarre sie þvi. Helldur hlijtur * Gud
ad vera sañordur / eñ ** hvor madur
ligare/ so sem skrifad er: + ad þu riett-
lætast muner i þijnum ordum / og viña /
nær þu dæmest. * Joh. 3/ 33. Tit. 1/ 2.
** Ps. 62/ 10. Ps. 116/ 11. + Ps. 51/ 6.
5 Eñ ef vort ranglæte prijsar Guds
riettlæte/ hvad vilium vier (þa) seigia?
mun Gud vera ranglátur/ ad hañ fær-
er yfer oss reidena? eg tala so epter mañ
legum plagsid.
6 Þad sie fiarre. Hvorneñ * skyllde
Gud þa dæma heimeñ? * 1. Mos. 18/ 25
7 Þvi ef sañleike Guds hefur yfer-
gnæft fyrer mijna ligd / honum til dyrd-
ar / þvi dæmest eg þa nu so sem eirn
syndare?

8 Og er ecke (halldeñ/) ſo ſem oſſ er laſt
mællt/ z ſo ſ nockrer ſeigia/ ad vier ſeig
ium: vier viliū giøra illt/ ſo hid gooda
kome? hvørra fordæming riettvijs er.
9 Hvad þa? erum vier þa fremre? al-
deiles ecke/ þvi vier høfū adur bevijſad/
ad * bæde Judar z Gricker eru aller und
er ſyndeñe. * c. 11/ 32. Gal. 3/ 22.
10 So ſem ſkrifad er: * þar er eingeñ
riettlætur/ og ecke eirn. * Pſ. 14/ 3.
Pſ. 53. 2/3/ 4.
11 Þar er eingeñ ſkyniande/ þar er eing
eñ/ ſem ſpyr epter Gude.
12 Aller hafa þr afvega geinged/ z eru
til ſamans onijter ordner/ þar er eing-
eñ ſem giører gott/og ecke jafnvel eirn.
13 * Barke þeirra (er) openn grøf/med
tungū ſijnum ſvijkia þeir / høggorma
eytur er under vørum þeirra.
* Pſ. 5/ 10. Pſ. 140/ 4.
14 Hvørra * muñur er fullur af bøl-
van og beiſkleika. * Pſ. 10/ 7.
15 * Fliooter eru fætur þeirra til ad
uthella bloode. * Ordsk. 1/16. Eſ. 59/7
16 Þar er eymd og hrelling a vegum
þeirra.
17 Og veg fridarens hafa þr ecke þeckt
18 Þar * er ecke Guds otte fyrer augū
þeirra. * 1. Moſ. 20/ 11. Pſ. 36/ 2.
19 Eñ * vier vitum/ ad hvad hellſt ſm̃
løgmaaled ſeiger/ þad ſeiger þad þeim/
ſem eru under løgmaalenu/ ad ſierhvør
muñur tilbyrgeſt / og allur heimureñ
verde vid Gud ſakadur. * Gal. 3. 10/22.
20 Fyrer þvi kañ af * verkum løgmaal
ſens eckert holld ad riettlætaſt fyrer
hñs augſijn/ þviad fyrer løgmaaled kiem
ur þecking ſyndareñar. * Gal. 2/16.
21 Eñ * nu er aan løgmaalſens riett-
læte Guds openberad/ um̃ hvørt vitnad
er af løgmaalenu og ſpaamøñunum.
* P. G. 15/ 11.
22 Ja/ rietlæte Guds fyrer truna a
Jeſum Chriſtum/ til allra og yfer øll-
um/ ſem trua/ þvi * þar er ecke greinar-
munur. * c. 10/ 12. Gal. 3/ 28.
23 * Þvi aller hafa þeir ſyndgad / og
hafa ſkort a dijrd Guds.
* 1. Kong. 8/ 46. etc.

24 Sem verda rietttlætter * oforſkulld-
ad af hñs naad / fyrer þa endurlauſn /
ſem (er) i Chriſto Jeſu/ * Eph. 2/ 8.
25 Hvørn Gud hefur ſett til eins *
naadarſtools fyrer truna i hñs bloode /
til ad ſijna ſitt rietttlæte fyrer fyrer-
giefningu drygdra ſynda/ * Ebr. 4/16.
26 Under þolenmæde Guds/ til auglijſ-
ingar ſijns rietttlætes a nærverande tij-
ma/ ſo hañ ſialfur riettlaatur ſie / og
rietttlætande þañ/ (ſem er) af truñe a
Jeſum.
27 Hvar * er nu ſu hrooſan? hun er
utelukt / Fyrer hvørt løgmaal: verk-
añna: ney/ helldur fyrer løgmaal truareñ-
ar. * c. 4/ 2.
28 Fyrer þvi * aalijtum vier med røk-
um / ad af truñe rietttlæteſt madur aan
verka løgmaalſens. * Gal. 2/ 16. etc.
29 Mun Gud vera Judaña alleina? er
hañ ecke og heidingiaña: ad vijſu og ſo
heidingiaña.
30 Med þvi Gud er eirn/ ſm̃ riettlæta
mun umſkurnena * af truñe/ og forhud
ena fyrer truna. * P. G. 15/ 11.
31 Afmaaum vier þa løgmaaled fyrer
truna: fiærre ſie þvi / helldur ſtadfeſt-
um vier løgmaaled.

## IV. Capitule.

Abraham vard rietttlættur fyrer
Truna.

Hvad vilium vier þa ſeigia/ ad
fader vor Abraham hafe fund
ed epter holldenu?
2 Þvi ef Abraham er riett-
lættur af verkunum / þa hefur hañ *
hrooſan/ eñ ecke fyrer Gude. * c. 3/ 27.
3 Þvi hvad ſeiger * ritningeñ? eñ
Abraham trude Gude/ z þad vard hon
um reiknad til riettlætes.
* 1. Moſ. 15/ 6. Gal. 3/ 6. Jak. 2/ 23.
4 Eñ þm̃/ ſm̃ erfidar/ hønū tilreiknaſt
ecke hñs laun af naad / helldur (giefaſt)
epter ſkilldu:
5 Eñ * þm̃/ ſm̃ ecke erfidar/ eñ truer a
þañ/ ſm̃ riettlæter hiñ ogudlega/ verd-
ur ſijn tru reiknud til riettlætes.
* C. 3/ 23.

6 So sem og David seiger / ad Sælu-
hiálpen sie þess mañs/ hvørium Gud
tilreiknar riettlæted an verkaña/ (þat
hañ seiger:)
7 * Sæler eru þeir/hvørra yferfrodsl
ur eru fyrergiefnar / og hvørra synder
huldar eru. * Ps. 32/ 1.
8 Sæll (er sa) madur/ hvørium Drott
eñ ecke tilreiknar syndena.
9 Neyrer þa velferdeñ umſkurneñe til
(alleina/) edur og forhudeñe til? þvi
vier seigium / ad Abraham er reiknud
trueñ til riettlætes:
10 Hvørneñ er hun þa tilreiknud? þa
hn̄ var i umſkurneñe/ eda i forhudeñe?
ecke i umſkurneñe / helldur i forhudeñe.
11 Og hn̄ medtook teikn umſkurnareñ-
ar/ * iñsigle riettlætes truareñar/hvør
ed var i forhudeñe/ad hn̄ yrde fader all-
ra/ sem trua i forhudeñe/ so þeim yrde
og tilreiknad riettlæted.
* 1 Mos. 17. 10/ 11. etc.
12 Og fader umſkurnareñar / ecke all-
einasta þeim/sem eru af umſkurneñe/
helldur ogso þeim/ sem ganga i vors fød-
urs Abrahams truar footsporū/hvør-
ia (hn̄ hafde) i forhudeñe.
13 Þvi * ecke (skiede) fyrer løgmæled
fyrerheited til Abrahams edur hns sæd
es/ad hn̄ skillde verda erfinge heimsens/
helldur fyrer riettlæte truareñar.
* 1. Mos. 15/ 6. C. 17/ 2.
14 Þvi (sieu) þeir/sem (eru) af løgmæl-
enu/ * erfingiar/ þa er trueñ onyt/ og ad
aungvu orded fyrerheited. * Gal. 3/18.
15 Þvi * løgmæled verkar reide / þvi
hvar ecke er løgmæl/ þar (er) ei helldur
yferfrodsla. * C. 5/ 13.
16 Þess vegna (seigest þad ad vera) af
truñe/ad þad sie af næd/ so ad * fyrer
heited verde stadfast øllu sædenu / ecke
alleinasta þvi/ sem er af løgmælenu /
helldur og þvi / sem er af tru Abra-
hams/ hvør ed er fader allra vor.
* Gal. 3/ 18.
17 Sem * skrifad er: fødur margra
þiooda hefe eg sett þig/ fyrer hønum/
hvøriū hn̄ trude/(þad er) Gude/ sem lijf-
gar þa daudu / og kallar þa hlute/ sem
ecke eru/ so þeir være. * 1. Mos. 17/4/5.
18 Hvør ed trude a mooke von / i von-
eñe / ad hañ verda munde fader marg-
ra þiooda/epter þvi sem sagt var: * so
skal verda sæde þitt. * 1. Mos. 15/5.
19 Og hn̄ sem ecke veikladest i truñe /
* virdte ei fyrer sier siñ eigeñ lijkama /
sem nu var orvasa/ þar hañ var nærre
hundrad ára gamall/nie utdmed moodr-
lijf Saræ. * 1. Mos. 17/ 17.
20 Eñ hn̄ efadest ecke um̄ Guds fyrer-
heit med vantru / helldur styrktest i
truñe/ * giefande Gude dyrdena.
* Eb. 11/ 7.
21 Og fullkrua um̄ þad / ad þad/sem
hn̄ hafde lofad/var hn̄ og * mætkugur
ad giøra. * Ps. 115/ 3. Luc. 1/ 37.
22 Hvar fyrer * hønū var þad og reikn
ad til riettlætes. * 1. Mos. 15/ 6.
23 Eñ þad er ecke skrifad * fyrer hns
saker alleina / ad þad sie hønum til-
reiknad; * C. 15/ 4.
24 Helldur og vor vegna / hvøriū þad
mun tilreiknast / sem truum a hañ / er
uppvakte Jesum Drotteñ vorn fra
daudum.
25 Hvør ad er * ofurselldur vegna
vorra misgiørda / og uppvakeñ vegna
vorrar riettlætingar. * C. 8/ 32.
1. Cor. 15. 3/ 17.

## V. Capitule.

### Syndeñ kom fyrer Adam / Nædeñ fyrer Christum.

Vier sem þa erum riettlætter ut
af truñe/høfū * frid vid Gud/
fyrer Drotteñ vorn Jesum
Christum: * Joh. 16/ 33. etc.
2 Fyrer hvørn vier høfum fenged *
tilgøngu i truñe/ til þessarar nædar/ i
hvørre ** vier støndū/og hroosum oss
af von Guds dyrdar. * Eph. 2/ 18.
C. 3/ 12. ** 1. Cor. 15/ 1.
3 Eñ ecke alleinasta (þad/) helldur *
hroosum vier oss einneñ af hørmung-
unum / vitande / ad hørmungeñ verkar
þolenmædena/ * 2. Cor. 11/ 23. Jak. 1/ 2.
4 Eñ þolenmædeñ reynsluna /eñ reyn-

slañ vonena/

5 Eñ * voneñ lætur ei til skamar ver-
da/ þvi ** elska Guds er uthellt i hior
tu vor fyrer Heilagañ Anda / sem er
giefeñ oss. * Ebr. 6. 18/ 19.
** 1. Joh. 4/ 16.

6 Eñ * þa vier vorum eñ þa breisker /
hefur Christus a sijnu tijma ** fyrer
(oss) hina ogudlegu dæed.
* 1. Pet. 3/ 18. ** Eph. 2/ 1.

7 Þvi valla deyr nockur fyrer hiñ riett
læta/ þvi fyrer hiñ gooda kañskie ein-
hvør þyrde ad deya.

8 Eñ Gud prijsar siñ * eigeñ kiærleika
vid oss/ * ad þa vier vorū eñ þa synd-
arar/ er Christur fyrer oss dæeñ.
* Joh. 3/ 16. etc.

9 Þar fyrer munū vier miklu helldur/
nu riettlætter i hañs bloode/ verda frels-
ader fyrer hañ fra reideñe.

10 Þvi * ef vier erum forlijkter vid Gud/
þa vier vorū eñ oviner / fyrer dauda
Sonar hañs/ þa munū vier miklu fram-
ar/ i sætt komner/ hoolpner verda i hañs
lijfe. * 2. Cor. 5/ 18.

11 Eñ ecke (þad) alleinasta/ helldur z
* hroosum vier oss i Gude/ fyrer Drott
eñ vorn Jesum Christum/ fyrer hvørn
vier høfum nu forlijkunena feinged.
* Jer. 9/ 24. 1. Cor. 1/ 31.

12 Þar fyrer / ad lijka sem fyrer eirn
mañ er syndeñ i heimeñ iñkomeñ/ og *
fyrer syndena daudeñ / og so hefur til
allra mañа daudeñ i giegnum þreingt
sier/ i þvi aller syndgudu. * c. 6/ 23.

13 Þvi allt til løgmalsens var syndeñ
i heimenum/ eñ * syndeñ tilreiknast ecke
hvar ecke er løgmaled. * c. 4/ 15.

14 Eñ daudeñ rijkte fra Adam allt til
Mose / einneñ yfer þeim/ sīm ecke synd-
gudu epter lijkingu Adams yferkrodslu/
hvør ad er eiñ fyrermyndan hins epter
komande.

15 Eñ (þvi er) ecke eins vared um fall
ed/ so sīm um giøf nadareñar/ þvi hafe
i * þess eina synd marger dæed/ þa hef
ur miklu framar Guds nad og gæfa
i nad þess eina mañs Jesu Christi til
margra yfergnæft. * 1. Cor. 15/ 22.

16 Og ecke eins og (þad/ er kom) fyrer
þañ eina/ sem syndgade/ þa er nadeñ/
þvi doomureñ er ad søku komeñ af einu
(brote) til fordæmingar / eñ su nadar
gæfa (hiælpar) af mørgum brotum
til riettlætes.

17 Þvi ef daudeñ drottnade i eins falle
fyrer þañ eina/ þa munu þr miklu fram
ar / sīm nægd nadareñar og riettlætes
gæfuñar medteked hafa/ i lijfenu drott
na / fyrer þañ eina Jesum Christum.

18 Fyrer þvi þa/ so s(þ er komed) þ eins
fall yfer alla meñ til fordæmingar/ * so
er og (hitt añad komed) þ eins riettlæte
yfer alla meñ til lijffsens riettlætingar.
* 1. Cor. 15/ 22.

19 Þvi so sīm fyrer ohlijdne eins mañs
eru marger syndarar ordner/ so munu z
* marger fyrer þess eina hlijdne riett-
læter verda. * Es. 53/ 11.

20 Eñ * løgmaled iñkom þar ad auke/
uppa þad falled skyllde framar þeck-
iast. Eñ hvar syndeñ er ordeñ framar
þeckt/ (þar) yfergnæfer nadeñ eñ fram
ar. * c. 4/ 15. c. 7/ 8. Gal. 3/ 19.

21 Uppa þad/ ad so sīm syndeñ drottn-
ade til daudans/ so skule z nadeñ drott
na fyrer riettlæted til * eilijfs lijfs/ fyr
er Jesum Christū Drottieñ vorn.
* C. 6/ 23.

## VI. Capitule.

### Endalok Syndareñar er Daudeñ.

Hvad vilium þier þa seigia? *
skulum vier blijfa i syndeñe/ so
ad nadeñ yfergnæfe?
* Gal. 2/ 17.

2 Fiærre sie þvi. Vier sīm erum * daud
er fra syndeñe / hvørneñ skylldum vier
eñ þa lifa i heñe? * Gal. 6/ 14.

(Pistelleñ. VI. S. D. ept. Trinit.)

3 Edur viked * þier ecke / ad vier/ so
marger sīm skijrder erum i Christo
Jesu/ erum i hañs dauda skijrder?
* Gal. 3/ 27. Col. 2/ 12.

4 Fyrer þvi erum vier * med hønum
greftrader fyrer skijrnena til daudans/ ad
lijka sīm Christus er uppvakeñ fra daud
um/ fyrer dijrd Fodursens/ ** so skulum
vier

vier og i nÿungu lÿfernesens gaunga.)
* C. 8/10. ** Eph. 4/23. Col. 3/8. etc.
1. Pet. 2/1. C. 4. 1/2. Ebr. 12/1.
5 Þvi ef * vier erū plantader med (hon
um) epter lÿkingu hās dauda/ þa verdū
vier og epter upprisuñar (lÿkingu:)
* C. 8/11. Phil. 3. 10/11. 2. Tim. 2/11. etc.
6 Vitande þad / ad vor gamle madur
er * krossfestur med (honū/) so ad aung-
vu verde lÿkame syndareñar/ad vier skul
um ecke framar þiona syndeñe.
* Gal. 5/24.
7 Þvi hvør/ * sem er dæeñ/er frelsad-
ur fra syndeñe. * 1. Pet. 4/1.
8 Eñ ef vier erum dauder * med Chri-
sto/ þa truū vier/ad vier eirneñ munum
lifa med honum. * 2. Tim. 2/1.
9 Vitande/ ad Christus/ upprisen fra
daudū / * deyr ecke meir / daudeñ mun
ecke framar yfer honū drottna.
* Openb. 1/18.
10 Þvi þad hū doo/ doo hū * syndeñe
eitt siñ/eñ þad hañ lifer/þad lifer hañ
Gude. * Ebr. 9/18.
11 Lÿka so og þier/ælykted/ad þier ad
soñu sieud siælfer dauder syndeñe/ eñ lif
ed Gude i Christo Jesu Drottne vorū.)
12 Fyrer þvi drottne ecke * syndeñ i yd-
ar daudlegū lÿkama / ad hlÿda heñe i
hans gyrndum. * 1. Mos. 4/7.
13 Og liæed ei helldur syndeñe limu yd-
ar til ranglætes hervopna / Helldur *
liæed ydur siælfa Gude/ sem þeir ed
eru lifande fra daudū / og ydar limu
Gude til riettlætesens hervopna.
* Luc. 1/74. Rom. 12/1.
14 Þvi syndeñ mun * ecke yfer ydur
drottna / þvi þier erud ecke under løg-
mælenu/ helldur under nædeñe.
* 1. Mos. 4/7.
15 Hvad þa? skulum vier syndga/med
þvi vier erum ecke under løgmælenu /
helldur under nædeñe? fiærre sie þvi.
16 Vited þier ecke/ ad * hvørium þier
liæed ydur siælfa til þienara / til hlÿd-
nes/ þa erud þier þess þionar/hvøriū
þier hlÿded? hvørt helldur syndareñar
til daudans/ ellegar hlÿdneñar til riett-
lætesens. * Joh. 8/34. etc.
17 Eñ þøck (sie) Gude/ ad þier vorud
þionar syndareñar/eñ þier erud ordner
hlÿduger af hiarta þvi lærdoomis for-
me/ er þier vorud sellder til.
18 Eñ * nu/þar þier erud frelsader fra
syndeñe / þa erud þier ordner þionar
riettlætesens. * Joh. 8/32.
(Pistilleñ VII. S. D. ept Trinit.)
19 Eg tala * epter mañlegum plagsid/
vegna breiskleika ydar hollds. Þvi
so s þier hafed ** lied limu ydar fyrer
þiona ohreinleikanū/ og yfertrodsluñe
til yfertrodslu / so liæed nu ydar limu þ
þiona riettlætenu til helgunar.
* C. 3/5. ** C. 6/13.
20 Þvi þa þier vorud * þionar synd-
areñar / vorud þier frÿ fra riettlæt-
enu. * Joh. 8/34.
21 Þvi hvørn avøxt høfdud þier þa /
fyrer hvøria hlute þier skameſt ydar
nu? þvi * endalok þra er daudeñ.
* C. 8/6.
22 Eñ nu þar þier erud frelsader fra
syndeñe / eñ ordner þienarar Guds/ þa
hafed þier ydar avøxt til helgunar/eñ
endalokeñ/ eilÿft lÿf.
23 Þvi * verdlaun syndareñar er daud-
eñ / eñ Guds nædargiæfa er eilÿft lÿf i
Christo Jesu Drottne vorum.)
* C. 5/12.

## VII. Capitule.

### Løgmælsens Eigenlegleike.

Edur vited þier ecke / brædur /
þvi eg tala til þra / sem vita
løgmæled/ ad løgmæled drott-
nar yfer mañenum / so leinge
hañ lifer?
2 Þvi * konañ/ sem er mañenū under-
giefeñ/ er bundeñ vid mañeñ / a medañ
hū lifer/epter løgmælenu/eñ ef madur-
eñ deyr/þa er hun laus af løgmælenu/
þad mañeñ ahrærer. * 1. Cor. 7/39.
3 Fyrer þvi verdur hun/ ad mañenum
lifanda/hoorkona kølluð/ * ef hun verd-
ur añars mañs (kona:) Eñ sie heñar
madur daudur / er hun friæls vid løg-
mæled/ so ad hun er ecke ein hoorkona/

þott hun verde eins annars manns.
* Matth. 5/ 32.
4 So erud þier z/ brædur mijner/ deydd
er løgmalenu/ fyrer lijkama Christi/ad
þier skuled verda ødrum (til eign-
ar/z er) þm̄ uppvakta fra daudn̄/uppa
þad vier skilldū avøxt bera Gude.
5 Þvi þa vier vorū i holldenu/þa verk
udu tilhneigingar syndañ / sem voru
fyrer løgmaled/ i vorum limū/til ad be-
ra * avøxt daudanum. * c. 6/ 21.
6 Enn nu erum vier leyster fra løg-
malenu/ sem * erum dauder/ i hvøriu
vier vorum hallduer / so ad vier skulum
þioona i nyungu andans/ og ecke fyrn-
sku bookstafsens. * c. 6/ 2.
7 Hvad vilium vier þa seigia? (er) løg
maled synd? fiærre sie þvi/ helldur þeck
ta eg ecke syndena/nema fyrer løgmal-
ed/ þvi og sialfa girndena visse eg ecke
(ad vera synd/) ef * løgmaled hefde
ecke sagt: þu skallt ecke girnast.
* 2. Mos. 20/ 17. etc.
8 Enn synden / takande ordsøk af bod-
ordenu/ verkade i mier alla girnd/ þvi
an løgmalsens (er) synden dauð.
9 Enn eg lifde an løgmals ford-
um/ enn er bodorded kom/ lifnade synd-
en aptur.
10 Enn eg doo/ og mier fanst * þad bod
ord/sm̄ var til lijfsens/(vera) til daud-
ans. * 3. Mos. 18 5.
11 Enn synden/ sm̄ took ordsøk af bod-
ordenu/ villte mig/ z deydde (mig) fyrer
þad sama.
12 So er ad sønnu * løgmaled heilagt/
og bodorded heilagt og rietltvijst og
gott. * 1. Tim. 1/ 8.
13 Er þa þad hid gooda orded mier
daude? fiærre sie þvi / helldur synd-
en/so ad auglijstest/ ad synden fyrer hid
gooda verkade mier dauda/ so ad synden
skyllde verda yfer mata syndug fyrer
bodorded.
14 Þvi vier vitum/ad løgmaled er and
legt/enn * eg er holldlegur/ selldur under
syndena. * c. 8/ 3.
15 Þvi hvad eg giøre / veit eg ecke/þvi
eg giøre ecke hvad eg vil / helldur
hvad eg hata/þad giøre eg.
16 Enn ef eg giøre þ/sm̄ eg ecke vil/þa
sampyckest eg løgmalenu/ * ad þad sie
gott. * v. 12.
17 Enn nu giøre eg ecke framar þad/
helldur synden/* sm̄ byr i mier. * v. 20.
18 Þvi eg veit/ad i mier/þad er/i mijnu
hollde/byr * ecke gott/þvi þad/ad vilia/
loder vid mig/ enn þad/ ad framkvæma
hid gooda/finn eg ecke/ * 1. Mos. 6/ 5.
19 Þvi þad gooda/sm̄ eg vil/þad giøre
eg ecke/enn þad vonda/ sem eg ecke vil/þ
giøre eg.
20 Enn ef eg giøre þad/sm̄ eg ecke vil/
þa framkvæme nu ecke eg þad sama/
helldur * synden/sem byr i mier. * v. 17.
21 Þar þ finn eg þ løgmal/þa eg vil gio-
ra hid gooda/ ad * þad vonda loder vid
mig. * Job. 14/ 4. Ps. 51/ 7.
22 Þvi eg hefe lyst a løgmale Guds
epter hinum ynra manninum.
23 Enn eg sie eitt annad løgmal i limum
mijnum/ * striidande i moote mijns hug
skots løgmale/ z sm̄ tekur mig fangenn
under løgmal syndarennar / þad sem er
i mijnum limum. * Gal. 5/ 17.
24 Eg vesall madur/hvør mun frelsa
mig af lijkama þessa dauda?
25 Eg * þacka Gude fyrer Jesum
Christum Drottenn vorn/ So þioona eg
sialfur ad sønnu med hugskotenu løg-
male Guds / enn med holldenu løgmale
syndarennar. * 1. Cor. 1/ 4.

## VIII. Capitule.

Endurfæddra Kiør.

So er * nu vissulega eingenn for-
dæming yfer þeim / sm̄ (eru) i
Christo Jesu / er ecke ganga
* * epter holldenu helldur ept-
er andanū. * c. 10/ 4. * * Gal. 5/ 16.
2 Þvi * løgmal lijfsens Anda i Chri
sto Jesu hefur frelsad mig fra løg-
male syndarennar og daudans.
* C. 3/ 27.
3 Þvi * þad løgmalenu var omøgu-
legt / i þvi þad veiktest fyrer hollded/
(þad giørde) Gud/ sendande sinn eigenn
Son/

Son / i lÿkingu syndugs holldz/og vegna syndarennar fordæmde syndena i holldenu. * P. G. 15/ 10.
4 So ad riettfinde lögmaalsens uppfilltuſt i oſſ/ ſem ecke gaungum epter holldenu/helldur epter andanum.
5 Þvi þeir / ſem eru * epter holldenu/ ſkynia þa(hlute/)ſem eru holldſens/ eñ þeir/ (ſem eru) epter andanū/ þa (hlute/) ſem eru andans. * 1. Cor. 2/ 14.
6 Þvi siñeslag holldſens * er daude/ eñ siñeslag andans er lÿf og fridur.
* C. 6/ 21.
7 Þvi siñeslag holldſens er fiandſkapur i giegn Gude/ þvi þad giefur ſig ecke under lögmaal Guds / þvi þad giefur þad ei.
8 Eñ þeir / ſem eru i holldenu / giefa ecke Gude þocknaſt.
9 Þvi þier erud ecke i holldenu/ helldur i andanū/ſo framt * Ande Guds bÿr i ydur/eñ ef nockur hefur ei Anda Christi/ hañ er ecke hans. * 1. Cor. 3/ 16.
10 Eñ ef Christur er i ydur / þa er ad ſönnu lÿkameñ daudur vegna ſyndareñar/eñ andeñ(er)lÿf vegna riettlætesens
11 Eñ ef hans Ande/ ſem * uppvakte Jeſum fra daudū/ bÿr i ydur / þa mun hñ/ ſem uppvakte Christum fra daudum / eirneñ lifande giöra ydar daudlega lÿkame/fyrer hans Anda / ſem bÿr i ydur. * C. 6. 4/ 5.
(Piſtilleñ VIII. S.D.ept.Trinit.)
12 Þar fyrer erum vier ecke/ brædur/* ſkillduger holldenu/epter holldenu ad lifa. * C. 6. 7/ 18.
13 Þvi ef þier lifed epter holldenu / munud þier deya/eñ ef þier fyrer andañ deyded lÿkamans verk/ munud þier lifa.
14 Þvi * hvörier ſem hellſt af Anda Guds eru frañknuder / þeir eru börn Guds. * Gal. 5/ 18.
15 Þvi * þier hafed ecke medteked anda þrælkunareñar/aptur til otta/ helldur hafed þier medteked eirn * * ſonarlegañ utvalningar Anda/ i hvörium vier köllum: Abba/ Fader. * 2. Tim. 1/ 7.
** Gal. 3/ 26. C. 4/ 6.

16 Sa ſame * Ande/vitnar med vorum anda/ad vier erum Guds börn.
* 2. Cor. 1/ 22.
17 Eñ ef(vier erum) * börn/ þa(erum vier) og erfingiar/ (ja)erfingiar Guds/ eñ ſamarfar Christi/ſo framt vier lÿdū med(honū/)ſo ad vier verdū og med(honum)vegſamleger giörder.) * Gal. 4/ 7.
(Piſtilleñ IV. S.D. epter Trinit.)
18 Þvi eg helld * þa hlute / ſem vier lÿdum nu a þeſſū tÿma/ecke verda þeirrar dÿrdar / ſem mun verda openber vid oſſ. * Matth. 5/ 12.
19 Þvi æhyggiufull epterbid ſkiepnuñar bÿdar epter openberan Guds barna.
20 Þvi ſkiepnañ er hiegoomanū underorpeñ/ecke viliug/helldur fyrer hñs ſaker / ſm hana hefur giört undergiefna.
21 J voneñe/ ad * ſialf ſkiepnañ mune og frelſaſt fra þrælkan forgeingelegleikans/til dÿrdar frelſes Guds barna.
* Luc. 21/ 28.
22 Þvi vier vitum/ ad öll ſkiepnañ ſtinur med (oſſ) og ſampÿneſt med(oſſ/) allt til þeſſa.
23 Ja ecke (hun) alleinaſta/helldur og ſo vier ſialfer/ ſm höfum frumgrooda Andans/ og vier ſialfer ſtiniū med ſialfum oſſ/ bÿdande epter eirnre ſonarlegre * utvalningu/ * * lauſn vors lÿkama.)
* Gal. 4/ 5. ** Luc. 21/ 28.
24 Þvi vier * erum i voneñe frelſader/ Eñ voneñ/ ſm ſieſt/ er ecke von / þvi hvad eirn ſier/hvörneñ ſkyllde hañ þeſſ vænta? * 2. Cor. 5/ 7.
25 Eñ ef vier væntum þeſſ/ ſm vier * ecke ſiaum / þa bÿdum vier (þeſſ) med þolenmæde. * 2. Cor. 4/ 18.
26 Eñ ſömuleides kiemur og Andeñ til hialpar vorum veikleikum Þvi * hvörs vier ſkulum bidia/ ſm þad ber / vitum vier ecke/ helldur geingur ſialfur Andeñ a mille/ fyrer oſſ/med outſeiganlegū andvörpunum. * Matth. 20/ 22.
27 Eñ ſa / * ſem ranſakar hiörtun/ veit / hvör ad er meining Andans/ þvi epter Guds(vilia)geingur hañ a mille fyrer þa heilögu. * Pſ. 7/ 10. etc.
28 Eñ

28 Eñ vier vitum / ad þeim sem elska
Gud / samverka aller hluter til hins
gooda/ þeim sm̃ eru kallader *epter fyr
erhyggiuñe. * Eph. 1/ 11. c. 3/ 11.
29 Þvi hvøria hañ hefur ædur þeckt/
(þa) hefur hñ ꝛ ædur tilskickad ad ver
da samlijka mynd sijns Sonar/ so ad hñ
sie frumburdur a medal margra brædra
30 Eñ hvøria hñ hefur ædr tilskickad/
þa hefur hñ ꝛ kallad/ ꝛ hvøria hñ hef-
ur kallad/ þa hefur hñ og riettlætt/ eñ
hvøria hañ hefur riettlætt / þa hefur
hñ og giørt dijrdlega.
31 Hvad skulum vier þa seigia til þess
ara hluta? ef * Gud er med oss / hvør
(kañ þa vera) mooti oss?
* 4. Mos. 14/ 9.
32 Hvør ed og ecke þyrmde * sijnum
eigeñ Syne / helldur ** gaf hañ ut
fyrer oss alla / hvørneñ skylldе hañ ecke
ogso nædarsamlega alla hlute oss med
honum giefens veita? * 1. Mos. 22.
16. ** Joh. 3/ 16.
33 Hvør vill nu aklaga utvallda
Guds? Gud er sa/ sm̃ riettlæter.
34 Hvør (er hañ) * sem fordæmer?
Christur (er sa) sem dæeñ er/ ia eñ
framar ꝛ uppvakeñ/ sem og er til Guds
hægre handar / sm̃ og geingur a mille
fyrer oss. * Job. 34/ 29.
35 Hvør vill skilia oss vid þañ kiær-
leika Christi? þreinging edur angist/
edur offsokn/ edur hungur/ edur klædlei-
se/ edur hæske/ edur sverd?
36 So sm̃ * skrifad er: saker þijn verd
um vier deyddеr allañ dageñ / vier erum
reiknader so sm̃ slaktrunar-sauder.
* Ps. 44/ 23. 1. Cor. 4/ 9. 2. Cor. 4/ 11.
37 Eñ i øllum þessum hlutum yfer-
viñu vier fyrer hñ / sm̃ elskade oss.
38 Þvi * eg er fullviss um̃ / ad hvørke
daude/ nie lijf/ hvørke einglar edur høfd
ingia skiecker nie magt/ hvørke þr nær-
verande hluter nie þeir epterkomande/
* Phil. 1/ 6. 2. Tim. 1/ 12.
39 Hvørke hæd/ nie dypt/ edur nockur
oñur skiepna / mune gieta skiled oss vid
þañ kiærleika Guds/ sm̃ (er) i Christo
Jesu Drottne vorum.

IX. Capitule.

Ordsøkeñ til Judaña Utskufunar og
Heidingiaña Medtekningar.

Eg seige sañleikañ i Christo/ eg
lijg ecke / so mijn samvitska *
vitnar med mier i Heiløgum
Anda: * c. 1/ 9.
2 Ad eg hefe eina stoora sorg og væf-
lætanlega kvøl i hiarta mijnu.
3 Þvi eg villde * oska sialfur / ad eg
være eirn bølvadur hlutur fra Christo
fyrer brædur mijna/ (sem eru) ætt-meñ
mijner epter holldenu. * 2. Mos. 32/ 32.
4 Hvørier ad eru Israelitar/ hvørium
su * sonarlega utvalning/ ꝛ vegsemdeñ/
og sattmaalarner/ og lagasetningureñ /
og Guds dijrkan / og fyrerheiteñ (til-
heyra.) * 5. Mos. 7/ 6.
5 Hvørium fedurner heyra til / og af
hvørium̃ Christus (er) epter holldenu/ sem
er yfer øllum hlutum Gud blessadur
um̃ allder / amen.
6 Eñ ecke kañ þad ad ske/ * ad Guds
ord hafe brugdest/ þvi ** ecke aller þr /
sem eru af Israel / eru Israel.
* 4. Mos. 23/ 19. ** Joh. 8/ 39.
7 Og ei helldur af þvi þeir eru sæde
Abrahams / þa eru þeir aller syner /
helldur skal þier i * Isaak sæde kall-
ast. * 1. Mos. 21/ 12. Gal. 4/ 28.
8 Þad er / ad syner holldsens eru ecke
Guds børn/ helldur * syner fyrerheite-
sens / þeir reiknast fyrer sæde.
* Gal. 4/ 28.
9 Þvi þetta er fyrerheitesens ord: *
um̃ þeñañ tijma skal eg koma/ og Sara
skal eiga son. * 1. Mos. 18/ 10.
10 Ja ecke hun alleinasta/ helldur ꝛ *
Rebekka/ er hun vard þungud af einum/
Isaak fødur voru. * 1. Mos. 25/ 21.
11 Þvi þa þeir eñ ecke voru fædder/ og
høfdu hvørke giørt nockud gott edur
illt/ so ad epter utvalninguñe yrde Guds
asetningur stadfastur/ ecke af verkunũ/
helldur af honũ/ sm̃ kallade.
12 Þa vard heñe sagt: * sa elldre skal
þioona þm̃ yngra. * 1. Mos. 25/ 23.
13 So sm̃ * skrifad er: Jakob elskade

eg/eñ Eſau hatade eg. * Mal.1.2/3.
14 Hvad viliū vier þa ſeigia? * hvørt
mun þa ranglæte hia Gude? fiarre
ſie þvi. * 5. Moſ. 32/ 4.
15 Þvi * hñ ſeiger til Moſe: eg ſkal
myſkuna þm̄/ er eg myſkuna/og aumk-
aſt yfer þañ/ ſem eg aumkaſt yfer.
* 2. Moſ. 33/19.
16 Þar fyrer er þad ecke þeſſ er vill/
ei helldur þſſ/ er hleipur/ helldur Guds/
ſm̄ myſkunar.
17 Þvi ritningeñ * ſeiger til Pharao:
til þeſſ ſama uppreiſte eg þig/ ad eg
auglyſte miñ mátt a þier/og uppa þad
bodad yrde nafn mitt a allre jørduñe.
* 2. Moſ. 9/ 16.
18 Þar fyrer yfer hvørn ſem hañ vill/
myſkunar hñ ſig/ eñ hvørn ſem hñ vill/
forherder hañ.
19 So mætter þu þa ſeigia til myn:
yfer hvøriu klagar hañ eñ? þvi hvør
hefur gietad hñs vilia mootſtaded?
20 Jæ/o madur/ * hvør ert þu/ ſem
villt þreita løg vid Gud? ſeiger nock-
ud ſmyded til * * ſmidſens: þvi giørd-
er þu mig ſvo? * Spek. 12/ 12.
** Eſ. 45/ 9. etc.
21 Eda hefur ecke leirſmidureñ valld
yfer leirnum/af þvi ſama efne ad giø-
ra eitt kier til heidurs/ eñ añad til van
heidurs?
22 Eñ ef Gud/er hañ villde auglyſa
reidena/og kuñgiøra magt ſyna/ hefur
lided med * ſtooru lanlundargiede kier
reideñar/bueñ til tøpunareñar: * C. 2/4
23 Og ſo ad * hañ kuñgiørde rykdoom
dyrdar ſiñar yfer kierum myſkunareñar/
hvør hñ hafde ádr tilbued til vegſemd
ar/(hvad villder þu þa ſeigia?)
* Col 1/ 27.
24 Hvøria hñ hefur og kallad/(ſm̄ er)
oſſ/ ecke alleinaſta af Judum/helldur og
ſo af heidingium.
25 So ſm̄ hañ og * ſeiger hia Oſeam.
eg vil kalla þ/ ſ ecke var mitt foolk/
mitt foolk/og hana/ſem ecke var elſku
leg/elſkulega. * Oſ. 2/ 23.
1. Pet. 2/ 10. etc.
26 Og * þad ſkal ſkie/ i þeim ſtad/ ſem
var ſagt til þeirra: þier erud ecke mitt
foolk/ þar ſkulu þr kallaſt børn Guds
lifanda. * Oſ. 1/ 10.
27 Eñ Eſaias hroopar yfer Jſrael:
* þo tala Jſraels barna være ſ ſand-
ur hafſens/(þa) ſkylldu * * leifarnar
holpnar verda. * Eſ. 10. 22/ 23.
** Rom. 11/ 5.
28 Þvi (þar er) ſa/ ſm̄ fullkomnar og
ſtitter orded i riettlæte/ þvi Drotteñ
mun ſtitta eitt ord a jørdu.
29 Og ſo ſm̄ * Eſaias hefur ádur
ſagt: ef ſa Drotteñ Zebaoth hefde
ecke epter ſkiled oſſ ſæde/ hefdū vier ord
ed ſm̄ * * Sodoma/ z orded lyker Go-
morra. * Eſ. 1/9. * * 1. Moſ. 19/24.
30 Hvad vilium vier þa ſeigia? ad heid
ingiarner/ ſm̄ ecke leitudu epter riettlæt
enu/ hafa feinged riettlæted/ Jæ/ þad
riettlæte/ ſem er af truñe.
31 Eñ * Jſrael/ſem leitade epter løg-
maale riettlæteſens/ náde ecke til løg-
maals riettlæteſens. * C. 10/ 2.
32 Hvar fyrer? af þvi þad ecke (ſkiede)
af truñe/helldur ſo ſem af verkum løg
maalſens/ * þvi þeir ſteittu-a ſteine
aſteitingareñar. * 1. Cor 1/ 23.
33 So ſem * ſkrifad er: ſia/ eg ſet i
Zion eirn áſteitingar ſtein/ og eina
hneixlunar hellu/og hvør ſa/ ſm̄ truer
a hañ/mun ecke til ſkamar verda.
* Eſ 8/ 14. C. 28/ 16. Matth. 21/ 42. etc.

## X. Capitule.

### Chriſtur er Ender Løgmaalſens.

Brædur/ velþocknan myns hiar-
ta/ z ſu(myn) bæn til Guds fyr
er Jſrael/ er til ſaluhialpar.
2 Þvi eg * ber þm̄ vitne/ ad
þeir hafa * * vandlæting Guds/ eñ ecke
af forſtande. * Col. 4/13. * * Gal. 1/14
3 Þvi ſøkum þeſſ * þeir þeckia ecke
riettlæte Guds/ z leitaſt vid ad ſtipta
ſitt eiged riettlæte/ þa eru þeir ecke þvi
Guds riettlæte undergiefner.
* C. 9. 30/ 31.
4 Þvi * ender løgmaalſens er Chri-
ſtus til riettlætes * * ſierhvørium/ ſem
truer. * Matth. 5/17. * * Joh. 3/18.

5 Hvi Moses * ukmalar þad riettlæte/
sim(er) af løgmalenu/ad sa madur/ sm
giorer þa hlute/ skule lifa i þeim.
* 3. Mos. 18/ 5. etc:
6 En þad riettlæte af truñe / seiger
so: * þu skallt ecke seigia i hiarta þy-
nu: hvør vill fara upp i himeneñ? þad
er ad draga Christum hyngad ofañ.
* 5. Mos. 30. 12/ 13.
7 Edur / hvør vill fara ofañ i under-
diuped? þad er/ ad sækia Christum apt
ur fra daudum.
8 En hvad * seiger hañ? nærre þier er
orded i muñe þynum og i hiarta þynu/
Þetta er þad * * ord truareñar/ hvørt
vier predikum. * 5. Mos. 30/ 14.
* * 1. Tim. 4/ 6.
9 Þvi ef þu * medkieñer med muñe þyn
um/ Drottenn Jesum/ og truer i hiarta
þynu / ad Gud hafe uppvaked hañ fra
dauðū/þa verdur þu hoolpeñ.
* Matth. 10/ 32.
10 Þvi med hiartanu truer madur til
riettlætes/ eñ * med muñenū vidurkieñer
madur til sæluhiælpar. * Ps. 116/ 10.
11 Þvi ritningeñ seiger: * hvør sa/ sm
truer a hñ / mun ecke til skañar verda.
* Es. 28/ 16. Ps. 25/ 3.
12 Þvi þar er * ecke greinarmunur hvørt
ke Judane/ edur hins Griska/ þvi sa sa
me(er) Drottenn allra/ rijkur handa øllū
þeim/ sm akalla hñ. * P. G. 10/ 34. etc
13 Þvi * hvør sa / sem akallar nafn
Drottens/ mun verda hoolpeñ.
* Joel. 2/ 32. P. G. 2/ 21.
14 Hvørneñ skilldu þeir þa akalla
(hañ) a hvørn þr ecke trudu? eñ hvørn
eñ skilldu þeir trua hønum / af hvørū
þeir hafa ecke heyrt? eñ hvørneñ skulu
þr heyra/ an predikara?
15 Eñ hvørneñ skulu þeir predika / ef
þr eru ecke sender? so sem * skrifad er:
hvørsu fryder eru fætur þra/sem boda
frideñ i evangelio / þra sem boda þa
goodu hlute i evangelio. * Es. 52/ 7.
16 Eñ þeir voru ecke aller * hlyduger
evangelio/ þvi Esajas * * seiger: Drott
eñ/ hvør trude vorre heyrn? * 2. Thess.
1/ 8. * * Es. 53/ 1. Joh. 12/ 38.

17 Þar fyrer * er trueñ af heyrneñe/ eñ
heyrneñ fyrer ord Guds. * Joh. 17/ 20.
18 Eñ eg seige: hafa þeir ecke heyrt
(þad?) ja sañarlega/ * um alla jørd-
ena er utgeingeñ hlioomur þra / og * *
til endemarka jardar kryngluñar / ord
þeirra. * Ps. 19/ 5. * * Es. 49 / 6.
19 Eñ eg seige: mun Israel ecke hafa
þeckt (þad?) i fyrstu seiger Moses: *
eg vil giøra ydur vandlætingarsama yf
er þeim/ sem ei eru ein þiood / Eg vil
uppæsa ydur yfer eitnre skynlausre
þiood. * 5. Mos. 32/ 21.
20 Eñ Esajas vogar/ og * seiger: eg
er fundeñ af þeim/sm ecke leitudu myn/
Eg er auglyster þeim / sm ecke spurdu
ad mier. * Es. 65/ 1.
21 Eñ * til Israels seiger hañ: allañ
dageñ hefe eg utbreidt hendur mynar /
til eins foolks/(sm er) ohlydugt z mot-
tæmælande. * Es. 65/ 2.

## XI. Capitule.

Judarner huggast/ Heidingiarner
verda aminter.

SVo seige eg þa: mun * Gud hafa
burtreked foolk sitt? fiærre sie
þvi/ þvi eg er og eirn Israe-
lite af sæde Abrahams/ (af)
ætt Benjamins. * Jer. 31/ 37.
2 Ecke hefur Gud burtreked foolk sitt/
þad sm hñ adur þeckte/ edur vited þier
ecke/hvad ritningeñ seiger um Eliam z
hvørneñ hñ geingur fram fyrer Gud i
moke Israel/ z * seiger: * 1. Kong. 19/ 10
3 Drotteñ/ spameñ þyna hafa þeir i
hel sleiged/ og grafed under þyn altaru/
og eg er epter ordeñ einsamall / og þeir
sækia epter lyfe mynu.
4 Eñ hvad seiger hønū þad guddoom-
lega andsvar? * eg liet epter verda mier
sialfum sio þusund mañs/sm ecke hafa
beigt kne fyrer Baal. * 1. Kong. 19/ 18.
5 So geingur þad og til a þessū nær-
lægum tyma/ þar eru ordnar * nockrar
leifar/epter utvalningu nadareñar.
* C. 9 27.
6 Eñ * ef þad er af nad (þa er þad)
ecke framar af verkunum/ añars er ecke
nadeñ

vilsku/þa syndged þier i mote Christo.
13 Þar fyrer / * ef fædañ hneixlar
broodur miñ / skillda eg ecke um̃ æte
kiøt eta/ so eg miñ brodur ecke hneixle.
* Rom. 14/ 21. 2. Cor. 11/ 29.

## IX. Capitule.

### Christelegt Frelse i einu og ødru.

Er eg ecke postule ? er eg ecke
friæls? * hefe eg ecke sied Jesū
Christum Drottiñ vorn ? erud
þier ecke mitt verk i Drottne?
* P. G. 9/ 3.
2 Sie eg ecke ødrum postule / þa er eg
þo ydur/ Þvi * ińsigle mijns postula em
bættes erud þier i Drottne.
* 2. Cor. 3/ 2. 3.
3 Mitt forsvar moote þeim sm̃ mig
klaga/er þetta:
4 Hvørt * høfum vier ecke valld til ad
eta og drecka? * Luc. 10/ 18.
5 Høfum vier ecke valld eina systur
fyrer eigenkonu ad flitia um̃ krijng/ * so
sm̃ hiner postularner/og brædur Drott-
ens og Kephas? * Matth. 8/ 14.
6 Edur hefe eg alleina og Barnabas
ecke valld til ad erfida ecke?
7 Hvør * stríjder uppa siñ eigeñ kost
nad nockurn tijma ? hvør plantar vijn-
gard og etur ecke af hans æverxte ? edur
hvør foodrar hiørdena/ & neyter ecke af
mioolk hiardareñar? * 2. Cor. 10/ 4.
8 Mun eg tala þetta epter mañlegum
plagsid / edur seiger og løgmæled ecke
þetta?
9 Þvi i * løgmæle Moses er skrifad: þu
skallt ecke mulbinda þreskiande naut.
Mun Gud bera um̃sorgun fyrer naut-
unum? * 5. Mos. 25/4. 1. Tim. 5/18.
10 Eda seiger hañ þad ølldunges vor
vegna? þvi vor vegna er þad skrifad/
ad i voneñe byrte þeim * sm̃ eriar / ad
eria/ Og sa sm̃ þresker uppa von/verde
hluttakande i siñe von. * 2. Tim. 2/ 6.
11 Ef * vier høfum sæd ydur andlegum
hlutū/ (er þad so) miked/ þo vier upp-
skierū ydar þa lijkamlegu ? * Rom. 15/27
12 Ef ad adrer eru hluttakande i þessu
vallde yfer ydur/(skylldum) vier þa ecke
framar? * eñ vier høfū ecke brukad
þvilijkt valld / helldur lijdum vier alla
hlute/so ad vier giørū aungva hindrañ
evangelio Christs. * P. G. 20/ 33.
2. Cor. 11/ 9.
13 Vite þier ecke/ad þeir/ * sm̃ helge-
doomana handtiera / þeir eta af þvi
heilaga? og þeir sm̃ taka vara a altar-
enu/verda hluttakande med altarenu.
* 4. Mos. 18/ 8. 5. Mos. 18. 1/ 2/ 3.
14 So hefur og Drottiñ tilskickad/ad
þeir/ * sm̃ evangelium boda / skule af
evangelio lifa. * Luc. 10/ 7. etc.
15 Eñ eg * hefe eckert brukad af þess-
um hlutum. Eñ eg hefe ecke skrifad
þetta/uppa þad so skule verda vid mig/
þvi betra være mier helldur ad deya / eñ
ad nockur skillde giora mijna hroosun
fænijta. * P. G. 18/ 3.
16 Þvi þo eg bode evangelium / þa er
mier þad ecke hroosun / Þvi naudsyn
liggur a mier / so vei mier / ef eg ecke
predika evangelium.
17 Þvi ef eg giøre þad viliugur / þa
fæ eg laun / eñ ef giøre þad ovliugur/
(so er)mier (þo) truad til * rædsmeñ-
sku. * c. 4/ 1.
18 Hvør eru þa mijn laun ? ad nær eg
predika evangelium/ skule eg kostnadar-
laust fram̃setia evangelium Christi/ so
eg ecke vanbruke * mitt valld i evan-
gelio. * c. 8/ 9.
19 Þvi þott eg sie friæls vid alla/hefe
eg giørt mig siælfañ * allra þioon/ so
eg æyñe þijs fleire. * Matth. 20. 27/28.
20 Og eg er ordeñ Judunum sm̃ eirn
Jude/ ad eg æyñe Judana/ Þeim (sem
eru)under løgmælenu/so sm̃(sa er var)
under løgmælenu/ ad eg æyñe þa/(sm̃
eru)under løgmælenu.
21 Þeim sm̃ eru æn løgmælsens/ * so
sm̃ sa(er være) æn løgmæls/ þo eg sie
ecke æn løgmæls fyrer Gude / helldur
i løgmælenu fyrer Christo/so eg æyñe
þa sm̃ eru æn løgmæls. * Gal. 2/ 3.
22 Eg em ordeñ þeim̃ veiku so sem veik
ur/ad eg æyñe þa veiku. * Øllum er eg
ordeñ allt/ ad eg ølldunges * * nockra

hoolpna giøre. * 2. Cor. 11/ 29.
** Rom. 11/ 14.
23 Eñ þetta giøre eg saker evangelii/
so eg verde þess hluttakande.

(Pist. I. S. D. i Nÿju B. F. Sepktuag.)

24 Vited þier ecke/ ad þeir/ sm̃ a skeid
enu hlaupa/ hlaupa ad søñu all-
er/ eñ eirn fær hnossed z hlauped so/ ad
þier næed þvi.
25 Eñ * hver sa sm̃ slæst/ bindst allra
hluta/ Þeir ad søñu þar fyrer/ ad þeir
kuñe ad ødlast forgeingelega koronu/ eñ
vier øforgeingelega. * Eph. 6/ 12.
26 Þar fyrer * hleip eg so/ ecke so sm̃
uppa hid ovissa / Eg slæst so / ecke sm̃
sa/ er (i) vindeñ slær. * Gal. 2/ 2.
27 Helldur þiæe eg * miñ lijkama/ og
þrælka hañ/ ad ecke eg/ sm̃ ødrum pre-
dika/ verde siaalfur rækur. * Rom. 8/ 13.

## X. Capitule.

Þeir ádvarast ad Falla ecke i þess Jsra
elitijska Foolks Synder.

EEñ eg vil ecke ydur sie duled /
brædur/ ad * fedur vorer voru
aller under skijenu/ og ** geing-
gu aller i giegnum hafed.
* 2. Mos. 13. 21/22. etc. ** 2. Mos. 14/ 22. etc
2 Og eru aller skijrder epter Mose i
skijenu/ og i hafenu.
3 Og * aller neytku þeir hiñar sømu
andlegu fædu. * 2. Mos. 16/ 15. etc.
4 Og * drucku aller þañ sama andlega
dryck. Þvi þeir drucku af þeirre and-
legu hellu / sm̃ filgde (þm̃/) eñ hellañ
var Christus.) * 2. Mos. 17/ 6. etc.
5 Eñ Gud hafde ecke a flestum af þm̃
* velþocknan/ þvi ** þeir eru nidur-
slegner i eydemørkeñe. * Ebr. 3/ 19.
** 4. Mos. 26. 64/ 65.

(Pistilleñ IX. S. D. epter Trinit.)

6 * Eñ þesser hluter eru ordner vor-
ar fyrermyndaner/ ad vier skul-
um ecke gyrnast hid vonda/ so sm̃ z þeir
gyrntust. * 4. Mos. 12/ 4. etc.
7 Vered * ei helldur skurgodadyrkarar/
sm̃ nockrer af þeim/ so sm̃ ** skrifad
er: foolked seitest nidur ad eta og ad
drecka/ og stood upp ad leika.
* 2. Mos. 20/ 3. ** 2. Mos. 32/ 6.
8 Drijgium og ecke helldur hooraner/ so
sm̃ nockrer * af þm̃ drijgdu hooraner /
og fiellu a einum deige þriaar og tutt-
ugu þusunder. * 4. Mos. 25. 1/ 9.
9 Freistum ei helldur Christs/ so sm̃ z
* nockrer af þm̃ freistudu (hans/) og
urdu af høggormm̃ tortijnder.
* 4. Mos. 21. 5/ 6. etc.
10 Møgled ei helldur / sm̃ z nockrer af
þeim møgludu/ og fyrerfoorust af for-
diarfaranum. * 4. Mos. 14. 2/ 36. etc
11 Eñ aller þesser hluter skedu vid þa/
so sm̃ fyrermyndaner / eñ eru skrifader
oss til vidvørunar/ * yfer hvøria end-
ingar alldaña eru komnar * Phil. 4/ 5.
12 Fyrer þvi/ hver * sm̃ þikest standa/
siæe hañ til/ ad hañ falle ecke.
* Rom. 11/ 20.
13 Freisting hefur ei høndlad ydur /
nema mañleg/ Eñ * Gud er trur/ sem
ecke mun lijda/ ad þier freistest fram yf-
er þad þier megned/ eñ mun giøra z ut-
gangeñ asamt freistinguñe/ so ad þier
gieted bored.) * 1. Thess. 5/ 24.
14 Hvar fyrer / mijner elskanleger / *
flijed fra skurgoda dyrkan.
* 2. Mos. 20/ 3.
15 So sm̃ vid skynsama tala eg/ * dæm
ed þier þad eg seige. * c. 2/ 15.
16 * Kaleikur blessunareñar / hvørn
vier blessum/ er hañ ecke meddeiling blood-
sens Christi? þad braud / hvørt vier
briootū / er þad ecke meddeiling lijkam-
ans Christi? * Matth. 26/ 27.
17 Þviad eitt braud/ eirn lijkame/ erum
vier * marger/ þvi vier erum aller i einu
braude hluttakendur. * Rom. 12/ 5.
18 Hygged ad Jsrael epter holldenu /
Þeir sm̃ eta foornernar / eru þeir ecke
hluttakarar altaresens?
19 Hvad seige eg þa/ * ad skurgoded sie
nockud/ edur ad skurgoda offred sie nock-
ud? * 1. Cor. 8/ 4.
20 Eñ (þad seige eg/) ad hvad sm̃ *
heidingiarner offra / offra þeir diøflen
um/ z ecke Gude. Eg vil ecke ad þier verd
ed lagsmeñ diøflaña. * 3. Mos. 17/ 7.
5. Mos. 32/ 17. Ps. 106/ 37. Opinb. 9/ 20.
21 Þier kuñed * ecke kaleik Drottens ad

ad drecka/ og kalek dioflaña/ þier kuñ-
ed ecke bords Drottens hluttakendur ad
vera/ og bords dioflaña. * 2. Cor. 6/ 15.
22 Edur vilium vier yta kappe vid
Drottēñ? muñ vier vera hönū ſterkare?
23 Aller hluter * leifaſt mier/ eñ aller
hluter eru ei nytſamleger/ Aller hluter
leifaſt mier / eñ aller hluter uppbyggia
ecke. * c. 6/ 12.
24 Eingeñ * leite epter ſynu eigeñ/ helld
ur ſierhvør epter þvi/ ſm̃ añars er.
* C. 10/ 33. Rom. 15/ 2. Phil. 2/ 4.
25 Allt hvad i ſlaturhuſenu er til ſø-
lu/ (þad) eted/ ſpyriande epter aungvu
vegna ſamvitſkuñar.
26 Þvi * Drottens er jørdeñ/ og fill-
ing heñar. * 2. Moſ. 19/ 5. etc.
27 Eñ ef nockur bydur ydur af þeim
vantruudu/ og þier vilied gaanga(þang
ad/) þa * eted allt þad/ ſm̃ verdur ſett
fyrer ydur/ ſpyriande epter aungvu veg-
na ſamvitſkuñar. * Luc. 10/ 7.
28 Eñ ef nockur ſeiger til ydar: þad er
ſkurgoda-foorn / * þa eted ecke vegna
hñs/ ſm̃ þad gaf til vitundar/ og ſam-
vitſkuñar/ þvi Drottens er jørdeñ/ og
filling heñar. * c. 8/ 7.
29 Eñ eg ſeige ecke þiñar eigeñ ſam-
vitſku/ helldur hins añars. Þvi hvar
fyrer dæmeſt mitt frelſe af añarlegre
ſamvitſku?
30 Þvi ef eg medtek þad * med þack-
læte/ hvi verd eg laſtadur fyrer þad/ ſm̃
eg giøre þacker fyrer? * 2. Tim. 4/ 3.
31 Hvørt helldur * þier þa eted edur
drecked/ edur giøred nockud / þa giøred
alla hlute til Guds dyrdar.
* 5. Moſ. 8/ 10. Col. 3/ 17.
32 Vered * ãn hneixlunar/ bæde Jud-
um og Grickium/ og ſøfnude Guds.
* Rom. 14/ 13.
33 So ſm̃ * eg og þocknaſt øllū i øllum
hlutū/ eige leitande epter þvi/ ſem mier
ſiælfum er nytſamlegt/ helldur þvi/ ſm̃
er mørgū/ ad þeir kuñe ad verda hoolp-
ner. * c. 9. 19/ 22.

XI. Capitule.

Um̃ Drottens Kvølldmaaltijd.

Vered * myner epterbreitendur/ ſo
ſm̃ og eg ein Chriſti. * c. 4/ 16.
2 Eñ eg loſa ydur/ brædur/ ad
þier miñeſt allra miña (orda/)
og hallded þa ſetninga / * ſm̃ eg hefe
feinged ydur. * v. 23. c. 15. 1/ 3.
3 Eñ eg vil/ ad þier vited/ ad ſierhvørs
kallmañs høfud er Chriſtus/ eñ * kon-
uñar høfud er kallmadureñ/ eñ ** høf
ud Chriſti er Gud. * Eph. 5/ 23.
** 1. Cor. 3/ 23.
4 Hver kallmadur/ ẽ bidur/ edur ſpaa-
er/ og hefur a høfde/ hñ vanvirder ſitt
eiged høfud.
5 Eñ hvør kviña/ ſm̃ bidur/ edur ſpaa
er med beru høfde / vanvirder ſitt eiged
høfud/ þvi þad er eitt og hid ſama/ ſm̃
hun være rakud.
6 Þvi ef konañ er ei huleñ/ þa klipp-
eſt hun / eñ ef þad er ljoott fyrer kon-
una / ad klippaſt edur rakaſt / þa hylie
hun ſig.
7 Þvi kallmadureñ a ecke ad hylia
høfuded/ med þvi hañ er * myud og dyrd
Guds/ eñ konañ er mañſens dyrd.
* 1. Moſ. 1/ 27. etc.
8 Þvi madureñ er ecke af konuñe/ helld
ur konañ af mañenum.
9 Og * madureñ er ecke ſkapadur vegna
konuñar / helldur kviñañ vegna mañ-
ſens. * 1. Moſ. 2/ 18/ 23.
10 Þar fyrer a kviñañ ad hafa vellde
a høfdenu vegna einglaña.
11 Þo er hvørke madureñ aan konuñ-
ar / nie konañ aan mañſens * i Drott-
ne. * Gal. 3/ 28.
12 Þvi ſo ſm̃ konañ er af mañenum/ ſo
er og madureñ fyrer konuna / eñ aller
hluter af Gude.
13 * Dæmed hiaa ydur ſiælfū / er þad
ſkickanlegt/ ad ein kona tilbiede Gud ber-
høfdud? * P. G. 4/ 19.
14 Eda keñer ecke ſiælf natturañ yd-
ur/ ad ef kallmadureñ er ſydhærdur/ þa
er hönū þad vanheidur.
15 Eñ ef konañ er ſydhærd / er þad
heñe heidur/ þvi hæred er heñe til ſkylu
gefed.

16 Enn * sie þar nockur / sem syneist
þrætugiarn ad vera / þa hofum vier ecke
slijkann sid / ei helldur safnader Guds.
* 1. Tim. 6 / 4.
17 Enn * þetta / sem eg amine ydur / lofa
eg ecke / ad þier / ecke til hins betra / helld
ur til hins verra / samannkomed. * v. 22.
18 Þvi fyrst / nær þier komed til sam-
ans i safnadenum / heyre eg / ad þar sie *
sundurþickia mille ydar / og ad nockru
leite true eg þvi. * c. 1. 10 / 11 / 12.
19 Þvi þar verda ad vera a medal ydar
flockadrætter / so ad þeir rædvondu kunne
openberer ad verda medal ydar.
* 1. Joh. 2 / 1.
20 Nær þier þa samann komed i eitt /
þad er ecke Drottenlegrar kvølldmaltijd
ar ad neyta.
21 Þvi sierhvør tekur (fyrre til) sinnar
eigenn kvølldmaaltijdar / nær (þier) eted /
z sa (eine) er hungradur / enn hinn (annar)
druckenn.
22 Hafed þier þa ecke hus til ad eta og
drecka (i?) edur forsmaaed þier søfnud
Guds / og * vanvirded þa / er ecke hafa?
Hvad skal eg seigia ydur ? skal eg lofa
ydur i þessu? eg lofa (þad) ecke. * Jak. 2 / 6

(Pistillenn a Skijrdag.)

23 Þvi eg medtook (þad) af Drottne /
sem * eg hefe ydur og afhendt / ad
* * Drottenn Jesus a þeirre nætt / sem hann
forraadenn vard / took hann brauded.
* C. 15 / 3. * * Luc. 22 / 19. etc.
24 Og giørde þacker / z braut (þad) / z
sagde : taked / eted / þetta er minn lijkame /
sem fyrer ydur verdur brotenn / giøred
þetta i mijna minning.
25 Sømuleides z kaleikenn / epter kvølld-
maaltijdena / z sagde : þesse kaleikur er
nytt testament i mijnu bloode / Giøred
þetta so opt sem þier drecked i mijna
minning.
26 Þvi so opt sem þier eted þetta braud /
z drecked þennann kaleik / þa kunngiøred
dauda Drottens / * þangad til hann
kiemur. * Joh. 14 / 3.
27 Fyrer þvi / hvør sem etur þetta
braud / edur dreckur kaleik Drottens
overduglega / hann verdur sekur vid lijkam-
ma og blood Drottens.
28 Enn hvør madur * profe sig siælfann /
og ete so af braudenu / og drecke af
kaleiknum. * 2. Cor. 13 / 5.
29 Þvi hvør sem etur og dreckur overd-
uglega / etur og dreckur sier siælfum
doom / giørande ecke greinarmun a lijk-
ama Drottens.)
30 Þar fyrer eru a medal ydar marger
veiker og vanfærer / og marger eru
sofnader.
31 Þvi * ef vier dæmdum oss siælfa / þa
dæmdunst vier ecke. * Ps. 32 / 5.
32 Enn * nær vier dæmunst / verdum vier
af Drottne typtader / so vier ecke med
heimenum fordæmunst. * Spek. 12 / 22.
33 Fyrer þvi / brædur mijner / nær þier
samann komed ad neyta / bijded hvørier
annara.
34 Enn ef nockurn hungrar / þa ete hann
heima / so þier ecke samannkomed til
dooms. Enn hinum ødrum hlutum vil eg
niðurskicka / nær eg kiem.

XII. Capitule.

Um adskilianlegar Nadar-Gaafur.

En hvad andlegum hlutum vid-
vijkur / brædur / * vil eg ecke / ad
ydur sie duled. * c. 10 / 1.
1. Thess. 4 / 13.

(Pistillenn X. S. D. epter Trinit.)

2 Þier * vited / ad þier heidingiar vor-
ud þegar þier geingud til maal-
lausra skurgoda / so sem þier vorud
leidder. * c. 6 / 11.
3 Þar fyrer kunngiøre eg ydur / ad *
eingenn sem taler af Anda Guds / seig-
er Jesum (ad vera) eirn bølvadann hlut /
Og eingenn fær Jesum Drottenn kallad /
nema fyrer Heilagann Anda.
* Marc. 9 / 39.
4 Þar eru * misмuner naadar-giaf-
anna / enn hinn same er Andenn.
* Rom. 12 / 6.
5 Og þar eru * mismuner a þioonust-
unum / og hinn same er Drottenn.
* Eph. 4 / 11.
6 Og þar eru mismuner kraptaverk-
anna /

aña / eñ hiñ same er Gud/ * verkande
alla hlute i øllum. * Eph. 1/ 23.
7 Eñ sierhvørium giefst openberan
Andans til nytseme.
8 Þvi þessum er fyrer Andañ giefeñ
ræda spekeñar/ eñ hinū ødrū ræda þeck=
ingareñar / epter hinum sama Anda.
9 Eñ einum ødrū trueñ i sama Anda/
eñ einum ødrū nædar=gæfur til ad læk
na i þeim sama Anda.
10 Eñ einum ødrum ad giøra krapta
verk/ eñ einum ødrū spaadoomur/ eñ einū
ødrum adgreining andaña / eñ einū ødr
um (marg)hættadar * tungur/ eñ einū
ødrum utlegging tungumælaña.
* P. G. 2/ 4. C. 10/ 48.
11 Eñ alla þessa hlute giører eirn og
hiñ same Ande / utbytande sier i lage
hvørium einum/ so sem hañ vill.)
* Rom. 12. 3/ 6. 1. Cor. 7/ 7. Eph. 4/ 7.
12 Þvi so sem lykameñ er eirn / og hef=
ur marga limu / eñ aller limer lykam=
ans/ sem er eirn/ * þar þeir eru þo marg
er/ eru eirn lykame/ So (er) og Chri=
stus. * C. 10/ 17.
13 Þvi vier erum og aller i einum An=
da skyrder til eins lykama/ hvørt helld=
ur (vier erum) Judar edur Gricker/ edur
þrælar edur frelsingiar/ & vier erum all
er dryckiader til eins Anda.
14 Þvi * lykameñ er og ecke eirn lim=
ur/ helldur marger. * v. 20.
15 Ef footureñ segde: eg er ecke hønd/
(þar þ) er eg ecke af lykamanū / Mun
hañ þar fyrer ecke vera af lykamanum?
16 Og ef eyrad segde: eg er ecke auga/
(þar fyrer) er eg ecke af lykamanum /
Mun þad þar fyrer ecke vera af ly=
kamanum?
17 Ef allur lykameñ være auga/ hvar
(være þa) heyrneñ? ef hañ allur være
heyrn/ hvar (være þa) likteñ?
18 Eñ nu hefur Gud sett * limena /
sierhvørn þeirra a lykamanū/ so sem hañ
villde. * Col. 2/ 19.
19 Eñ ef þad allt være eirn limur /
hvar (være þa) lykameñ?
20 Eñ nu eru þar * marger limer/ eñ
eirn lykame. * v. 14.
21 So kañ augad ecke seigia til hand=
areñar: eg hefe þyn ecke þorf / Edur
þar i mooke høfuded til footaña: eg
hefe yckar ecke þørf.
22 Eñ miklu framar þeir limer lykam
ans / sem synast ad vera þeir veikustu /
þeir eru naudsynleger.
23 Og þr s oss synast ad vera audvirde
legaster a lykamanū / þm tilleggiū vier
þvi meire virdingu/ Og þm osæmelegustu
a oss / þm veitū vier þvi meire sooma.
24 Þvi þeir sem eru a oss soomasamleg
er/ hafa þess ecke þørf / eñ Gud hefur
temprad lykamañ / giefande þvi sem
þørf hefur frekare sooma.
25 Uppa þad ei yrde ægreiningur i
lykamanū/ helldur ad limerner bære sø=
mu umsorgun hvør fyrer ødrum.
26 Og hvørt helldur eirn limureñ lyd=
ur/ þa lyda aller/ eda eirn limureñ pryd=
est/ þa samfagna aller limerner.
27 Eñ * þier erud lykame Christi/ og
limer fyrer sitt leite. * Rom. 12/ 5.
Eph. 4/ 12. C. 5/ 30.
28 Og suma hefur Gud ad søfnu sett
i søfnudenum/ i fyrstu * postula/ i ødru
lage spaameñ/ i þridia mata kieñendur/
þar næst kraptana / þar næst nædar=
giafernar til ad lækna / hiælpernar /
stiornanernar / (marg)hættud tungu=
mæl. * Eph. 4/ 11.
29 Munu aller vera postular? munu
aller vera spaameñ? munu aller vera kieñ
endur? munu aller vera kraptar?
30 Munu aller hafa nædar=gæfur til
ad lækna? munu aller tungum tala? mu=
nu aller utleggia?
31 Eñ stunded * epter þeim bestu næd=
ar=gæfunum. Og hier ad auke vil eg
vysa ydur hiñ ypparsta veg. * C. 14/ 1.

## XIII. Capitule.

### Kiærleikans Verkaner.

(Pistilleñ S. D. i Føstu=Iñgang.)

S o ad eg tungum mañaña talade
og einglaña/ eñ hefde ecke kiær
leikañ/ þa være eg hlioomande
mælmur edur klyngiande bialla

2 Og * þo eg hefde spaadoom/og visse
alla leyndardooma og alla vitsku/og þo
eg hefde alla tru/so(ad eg kyñe) fiøllen
ur stad ad hræra/eñ hefde ecke kiærleik-
añ/þa være eg eckert. * Matth. 7/22.
3 Og þo eg giæfe allar mijnar eigur
fatækum/ og þo eg giæfe miñ lykama
ut/ ad eg brendr yrde/eñ hefde ecke kiær
leikañ/þa gagnade mier þad eckert.
4 Kiærleikureñ * er þolenmoodur / er
goodgiarn / kiærleikureñ øfundar ecke /
brukar ecke hreckvijse / hañ uppblæs sig
ecke. * Ordsk. 10/12.
5 Hañ hegdar sier ecke osiðsamlega/leit
ar ecke epter sijnu eigeñ/ hañ er ei beisk-
lundadur/ecke huxar hñ illt.
6 Hañ fagnar ecke yfer ranglætenu /
eñ samfagnar sañleikanum.
7 Hañ umber alla hlute/hañ truer øll-
um hlutum/ hañ vonar alla hlute/hañ
þoler alla hlute.
8 Kiærleikureñ þrijtur alldrei/ Þvi
hvørt helldur þar eru spaadoomar/ þa
munu þr afmæst/edur tungumaal/ mun
þm liña/edur vitska/mun hun afmæst.
9 Þvi vier skynium ad nockru leite/ og
spaaum ad nockru leite.
10 Eñ nær * hid fullkomna kiemur /
þa mun þad/ sm er ad nockru leite/ af-
mæd verda. * Eph. 4/13.
11 Þa eg var barn/ talade eg sm barn/
skyniade sm barn/huxade sm barn/ Eñ
þa eg var ordeñ fullordeñ madur/ lagde
eg af þad sm bernsklegt var.
12 Þvi vier * siaum nu fyrer speigel i
raadgaatu / eñ þa auglite til auglites /
Nu þecke eg(þad)ad nockru leite/eñ þa
mun eg þeckia / eins og eg er þecktur.
* 2. Cor. 5/7.
13 Eñ nu blijfur * trueñ/voneñ/ kiær-
leikureñ/ þesse þriu / Eñ mestur þeirra
er kiærleikureñ.) * 1. Thess. 1/3.

## XIV. Capitule.

### Nærdar Giafaña Mismunur og þeirra Brukan.

Stunded epter kiærleikanum/ eñ
* kieppest epter þm (ødrum)
andlegu hlutū / eñ allra mest /
ad þier spaaed. * c. 12/31.
2 Þvi sa sm talar eitt tungumaal/hañ
talar ecke vid meñena/helldur vid Gud /
þvi þar heyrer eingeñ þad/ eñ i andanū
talar hñ leynda dooma.
3 Eñ hvør sm spaaer/ talar møñunum
til uppbyggingar / og aaminingar og
huggunar.
4 Hvør sm talar tungumaal/ uppbygg-
er sig sialfañ/ eñ hvør sm spaaer/upp-
bygger søfnudeñ.
5 Eñ eg villde/ * ad þi' kyñud all' ad ta
la tungū/ eñ þo helldr/ad þier kyñud ad
spaa/ þvi meire er sa/ sm spaaer/ eñ sa/
sm talar tungum/ nema so sie/ ad hañ
(þad) utlegge / so ad søfnudureñ faae
uppbygging þar af. * 4. Mos. 11/29.
6 Eñ nu/brædur/ ef eg kiæme til ydar
tungū talande/hvad kyñe eg ad vera yd-
ur til nytseme / ef eg ecke villde tala vid
ydur / añadhvørt fyrer openberan / eda
fyrer * vitsku/eda fyrer spaadoom/edur
fyrer kieñingu? * c. 12/8.
7 Eins sm þeir hluter / sm ecke lifa /
og giefa hliood / hvørt helldur þad er
ein pijpa/edur harpa/ ef þær ecke giefa
adskilianlega toona af sier/hvørneñ maa
þa skiliast hvad þat er a pijpuna edur
hørpuna leiked.
8 Ja/ ef * ludureñ giefur oskilmerke-
legt hlood/hvør mun þa bua sig til bar
dagans? * 4. Mos. 10/9.
9 So i þier/ef þier m tunguñe taled ei
skilmerkelega rædu/ hvørneñ maa þ skil-
iast/s talad er? þvi þi' munud(þa vera
halldner fyrer þa) sm tala i vindeñ.
10 So mørg raddarkyn/sm þorf giør
est/ eru i heimenum/ og eckert þeirra er
hlioodlaust.
11 Ef eg þar fyrer et þeckte krapt radd
areñar/ verd eg høñū sm talar barbar-
iskur/og sa sm talar/ verdur fyrer mier
barbariskur.
12 So og þier/ med þvi þier * kiepp-
est epter øndunū / þa stunded epter/ ad
þier til uppbyggingar safnadarens haf
ed yferburde. * v. 1.
13 Þar fyrer / hvør sm talar tungu-
maal/ bidiest hañ þ/ad hañ kuñe (þad)
ad utleggia. 14 Þvi

14 Þvi ef eg bidſt fyrer i einu tungu-
maale/ þa bidur miñ ande/ eñ mitt hug-
ſkot er avaxtarlauſt.
15 Hvad er þad þa: eg vil bidiaſt fyrer
med andanum/ eñ eg vil og bidiaſt fyr-
er med hugſkotenu/ eg vil * ſyngia i
andanum/ eñ eg vil og ſyngia med hug-
ſkotenu. * Eph. 5/ 19.
16 Þviad/ ef þu bleſſar i andanum/
hvorneñ kañ ſa/ ſem ſtendur i leikmañ-
ſens ſtad/ ad ſeigia amen til þiñar
þackargiørdar/ med þvi hañ ecke veit/
hvad þu ſeiger?
17 Þvi þu giører ad ſøñu vel þacker/
eñ hiñ añar uppbyggeſt ecke.
18 Þacker giøre eg Gude mijnum/ ad eg
tala tungum meir eñ þier aller.
19 Eñ i ſøfnudenum vil eg helldur ta-
la fim̄ ord med mijnu ſiñe/ uppa þad eg
og (mutilega) ødrum undervijſe/ eñ tiju
þuſund ord med tunguñe.
20 Brædur/ verded ei * børn i ſkilning-
num/ helldur vered børn ** i illſkuñe/
eñ i ſkilningnum verded fullkomner.
* Rom. 16/ 19. Eph. 4. 14. ** Matth. 18/ 3.
21 * J løgmaalenu er ſkrifad: med añ-
arlegum tungū/ og med añarlegum vør-
um/ vil eg tala til foolks þeſſa/ og þeir
munu jafnvel ecke heyra mier/ ſeiger
Drottiñ: * Eſ. 28/ 11.
22 Þar fyrer eru tungurnar til eins
teikns/ ecke þm̄/ ſem trua/ helldur vantru
udum/ Eñ ſpaadoomureñ ecke vantruud
um/ helldur truudum.
23 Þar fyrer/ ef ſøfnudureñ kiæme all
ur til ſamans i eitt/ z toludu aller tung
um/ eñ þar kiæme iñ leikmeñ edur van-
truader/ mundu þeir ecke ſeigia/ ad þier
værud galder?
24 Eñ ef aller ſpaadu/ og þar kiæme
iñ nockur vantruadur edur leikmadur/
ſa ſtraffaſt af øllū/ hñ dæmeſt af øllū.
25 Og ſo verda * þeir heimuglegu hlut
er i hiarta hañs openberer/ z ſo munde
hañ falla a (ſijna) aaſioonu/ z tilbidia
Gud/ z medkieña/ ad Gud er ſañarlega
i ydur. * c. 4/ 5.
26 Hvad er þad þa brædur/ nær * þier
komed til ſamans/ þa hef: hver ydar eirn
pſalm/ hañ hefur lærdoom/ hañ hefur
tungumaal/ hñ hefur openberan/ hañ
hefur utleggingu/ Verde aller hluter til
uppbyggingar. * c. 11 19/ 20.
27 Ef nockur talar eitt tungumaal/ þa
(ſie þad) i millum tveggia/ edur meſt
þriggia/ og þad til ſkiptes/ og eirn ut-
legge (þad.)
28 Eñ ſie þar ecke eirn utleggiare/ þa
þeige hñ i ſøfnudenū/ eñ tale ſier ſialf-
um og Gude.
29 Eñ ſpaameñ tale tveir/ edur þrijr/
og hiner adrer dæme.
30 Eñ verde þad einum ødrū openber-
ad/ ſem ſitur/ þa þeige hiñ fyrre.
31 Þvi þier geted aller ſpaad/ ſa eine
epter hiñ añañ/ ad aller lære/ og aller
verde aaminter.
32 Og andar ſpaamañaña eru ſpaameñ
unum undergiefner.
33 Þvi Gud er ecke vanſkickunareñar
(Gud/) helldur fridarens/ ſo ſem i øllum
ſøfnudū heilagra.
34 * Kviñur ydar þeige i ſøfnudunū/
þvi þeim leifeſt ecke ad tala/ helldur
ad vera undergiefnū/ ſem løgmaaled og
ſeiger. * 1. Tim. 2/ 12. 1. Cor. 11/ 3.
Eph. 5/ 22. Col. 3/ 18. Tit. 2/ 5.
35 Eñ ef þær vilia læra nockud/ þa
ſpyrie þær ſijna eigeñ meñ ad heima/
þvi þad er liott fyrer konurnar ad tala
i ſøfnudenum.
36 Eda er ord Guds fra ydur utgeing
ed? eda er þad komed til ydar alleina?
37 Ef nockur þikeſt vera ſpaamadur/
edur andlegur/ * hañ þecke þa hlute ſem
eg ſkrifa ydur til ad þad eru Drottens
bod. * Joh 4/ 6.
38 Eñ ſie nockur faavijs/ ſie hñ faavijs.
39 Fyrer þvi/ brædur/ kieppeſt epter ad
ſpaa/ og bañed ecke ad tala tungum.
40 Aller hluter framfare ſiſckanlega
og reglulega.

## XV. Capitule.

### Um̄ Upprisu Framlideña.

(Piſtelleñ. XI. S. D. ept. Trinit.)

Eñ

EN eg * kuñgiøre ydur/ brædur/
þad evangelium / sem̄ eg bodade
ydur/ hvørt þier ꝫ medtookud/
i hvøriu þier og standed.
* Gal. 1. 11/ 12.
2 Fyrer hvørt þier * og verded salu
hoolpner/ ef þier ꝫ byhalled/ med hvør
re rædu eg hefe bodad ydur þad / nema
þier hafed forgiefens truad.
* C. 1/ 21. Rom. 1/ 15.
3 Þvi eg hefe afhendt / ydur i fyrstu
þad/ hvad eg og medtook/ ad Christur sie
dæeñ fyrer synder vorar * epter ritning-
unum. * Es. 53. 8/ 9.
4 Og ad hañ sie grepthradur.
5 Og ad hñ sie upp aptur risen̄ a þrid-
ia deige * epter ritningunū. * Ps. 16/ 10
6 Og ad hñ er siedur af * Kepha/ þar
epter * af þeim tooll. * Luc. 24/ 34.
** Marc. 16. 14.
7 Þar epter er hañ siedur af meir eñ
fim̄ hundrud brædrum i sen̄ / af hvøriñ
fleire eru til eñ nu / eñ nockrer eru og
sofnader.
8 Þar epter er hañ siedur af Jakobo /
þar epter af øllum postulunum.
9 Eñ sydast allra er hñ ꝫ siedur * af
mier/ so sem̄ otymabærum burde/ þvi * *
eg em miñstur postulaña/ sem̄ ecke er verd
ugur ad heita postule / ✝ af þvi eg of-
sookte søfnud Guds. * C. 9/ 1. P. G. 9/ 5
** Eph. 3/ 8. ✝ P. G. 26/ 9. etc.
10 Eñ af * nad Guds er eg/ þad eg er/
og hñs nad / sem̄ er (utdeild) til myn /
hefur ecke vered forgiefens / Helldur
hefe eg meir erfidad eñ þeir aller / þo
ecke eg/ helldur nad Guds / sem̄ er med
mier.) * C. 3/ 10. Eph. 3. 7/ 8.
11 Hvørt helldur þad er þa eg/ edur þr/
þa predikum vier/ og so trudud þier.
12 Eñ ef Christus verdur predikadur/
ad hñ sie fra daudū upprisen̄ / hvørneñ
seigia (þa) nockrer a medal ydar/ ad upp
risa framlideña sie ecke?
13 Eñ ef upprisa framlideña er ecke /
þa er ei helldur Christus upprisen̄.
14 Eñ ef Christus er ecke upprisen̄ /
þa er vor predikun vissulega onyt / og
ydar tru onyt.
15 So fiñast vier og liugvottar Gu-
ds/ ad vier * høfū vitnad um̄ Gud/ ad
hñ hefde uppvaked Christum / hvørn
hañ hefde ecke uppvaked / ef ad hiner
daudu ecke upprysa. * P. G. 3/ 15. etc.
16 Þvi * ef þr daudu ecke upprysa/ þa
er Christus ecke helldur upprisen̄.
* Rom. 8/ 11.
17 Eñ ef Christus er ecke upprisen̄ /
þa er * fanyt tru ydar/ So erud þier
þa eñ nu i syndū ydar. * v. 14.
18 So væru þr og/ sem̄ eru burt sofnad-
er i Christo/ fortapader.
19 Ef vier vonū alleinasta a Chri-
stū i þessu lyfe/ þa erum vier vesælast-
er allra maña.
20 Eñ nu er Christus upprisen̄ fra
daudū/ (og) er orden̄ * frumgroode þra
sem̄ sofnader eru. * P. G. 26/ 23. etc.
21 Þvi med þvi fyrer * mañeñ (kom)
daudeñ/ er og fyrer mañeñ (komeñ) upp-
risa hiña daudu. * 1. Mos. 3/ 19.
Rom. 5. 12/ 18. C. 6/ 23.
22 Þvi so sem̄ aller deya i Adam/ so ver
da aller lifande * i Christo. * Rom. 5/ 21
23 Eñ hvør eirn i siñe eigeñ rød / Sa
* frumgroodeñ Christus/ sydañ þeir/
sem̄ eru Christi/ i hñs tilkomu.
* v. 20. 1. Thess. 4/ 14.
24 Þar epter (kiemur) endereñ / nær
hñ afhender ryked Gude og Fødur/ nær
hñ mun afmaa allt høfdingiadæme/ og
allt yfervalld og magt.
25 Þvi hønū byriar ad rykia/ * þar til
hañ fær lagt alla ovine under fætur
hans. * Matth. 22/ 44. etc.
26 Sa * sydaste ovinur/ sem̄ afmaaest/
er daudeñ. * Openb. 20/ 14.
27 Þvi * hñ hefur underlagt alla hlu-
te under hñs fætur. Eñ nær hañ seig-
er/ ad aller hluter sieu hm̄ underlagder /
þa er þad openbert/ ad hñ er undañtek-
eñ / sem̄ hønū hefur underlagt alla hlu-
te. * Matth. 11/ 27. etc.
28 Eñ nær aller hluter eru hønū und-
erlagder/ þa mun ꝫ * sialfur Sonureñ
hønū underleggiast/ sem̄ hefur underlagt
hønū alla hlute/ so ad Gud sie allt i øllū
* C. 3/ 23. C. 11/ 3.

29 Hvad

29 Hvad munu þeir aññars giøra/ sem
skijrast yfer þm̄ daudu/ ef þeir daudu
aungvañveigeñ uppriſsa? hvar fyrer
skijrast þeir þa og yfer þm̄ daudu?
30 Hvi *erum vier z i haaska a hvørre
stundu? * Rom. 8/ 36.
31 * Daglega dey eg fyrer vora **
hroosan sem eg hefe i Christo Jesu
Drottne vorum. * 2. Cor. 4/ 10.
** 1. Thess. 2/ 19.
32 Ef eg epter mañlegū hætte strijd-
de vid villu dijreñ i Epheso/ hvad hiaalp
ar þad mier/ ef þeir daudu ecke uppriſ-
sa: * latum oss eta og drecka/ þvi a
morgun deyum vier. * Es. 22/ 13. etc.
33 * Villest ecke/ vondt samtal spiller
goodum sidum. * Eph. 5/ 6. etc.
34 * Vakned riettvijslega/ og syndgeð
ecke/ þvi sumer vita ecke af Gude/ eg
tala ydur til bligdunar. * Rom. 13/ 11.
35 Eñ þar kyñe einhvør ad seigia:
* hvørneñ uppriſsa hiner daudu? og
med hvilijkum lijkama koma þr(frañ?)
* Ezech. 37/ 3
36 Þu daare/ þad sm̄ þu saaer/ lifnar
ecke/ *nema þad deye. * Joh. 12/ 24.
37 Og þvi þu saaer/ saaer þu ecke (sm̄)
þeim lijkama/ sm̄ verda skal/ helldur eiñ
sømlu kornenu/ maaske af hveite/ edur
af nockru ødru.
38 Eñ Gud giefur þvi lijkama/ so sm̄
hañ villde/ og hvøriu * af saadunum siñ
eigeñ lijkama. * 1. Mos. 1/ 11.
39 Ecke er allt holld sama holld/ helld
ur er aññad holld mañaña/ eñ aññad fien-
adarens / eñ aññad fiskaña / eñ aññad
fuglaña.
40 Og (þar eru) himnesker lijkamer og
jardnesker lijkamer/ eñ øñur er ad søñu
himneskra dyrd/ eñ øñur jardneskra.
41 Øñur er byrta soolareñar/ z øñur
byrta tunglsens/ og øñur byrta stiarn-
aña. Þvi ein stiarna yfergeingur adra
stiørnu i byrtuñe.
42 So er og upprisa framlideña/ Þad
verdur saad i forgeingelegleika/ og upp-
rijs i oforgeingelegleika.
43 Þad verdur saad i vansemd/ rijs upp
aptur * i vegsemd. * Phil. 3/ 20/ 21.
44 Þad verdur saad i veikleika/ rijs upp
aptur i kraapte/ Þad verdur saad natt-
urlegur lijkame / rijs upp aptur andleg-
ur lijkame. Þar er eirn nattfurlegur lij-
kame/ og þar er eirn andlegur lijkame.
45 So er og * skrifad: sa fyrste mad-
ur Adam/ er ordeñ ad lifande saal/ sa
sijdare Adam ad lijfgiøranda Anda.
* 1. Mos. 2/ 7.
46 Eñ ecke er fyrst hid andlega/ helld
ur þad nattfurlega/ sijdañ þad andlega.
47 Sa fyrste madur er af jørdu/ jard-
neskur / * Sa aññar madur er Drotteñ
af himne. * Luc. 1/ 78.
48 Hvilijkur sm̄ sa jardneske er/ þvi-
lijker eru og þeir jardneskir/ Og hvilijk-
ur sm̄ sa himneske er/ þvilijker eru og
þeir himneskir.
49 Og so sm̄ vier hofum bored mynd
hiñs jardneska / so muñū vier og bera
mynd þess himneska.
50 Eñ þetta seige eg/ brædur/ af þvi
* holld og blood kañ ecke ad erfa rijke
Guds/ ei helldur forgeingelegleikeñ erfa
oforgeingelegleikañ. * Mat. h. 16/ 17.
Joh. 1/ 12.
51 Sia/ eg seige ydur eirn leyndardom:
vier * muñū ecke aller sofna / eñ aller
munum vier umbreitast/
* 1. Thess. 4/ 15. etc.
52 J einum svip / a augabragde / vid
hiñ sijdasta * ludur (þyt/) þvi ludureñ
mun giella/ og hiner daudu munu upp-
rijsa oforgeingeleger/ og vier muñū um-
breitast. * Matth. 24/ 31.
1. Thess. 4/ 16.
53 Þvi þessu oforgeingelega byrjar ad
iklædast oforgeingelegleikanum / og *
þessu daudlega ad iklædast odaudlegleik-
anum. * 2. Cor. 5/ 4.
54 Eñ nær þetta forgeingelega mun
iklædast oforgeingelegleikañ/ og þetta
daudlega iklædast odaudlegleikañ / þa
mun þad ord skie/ sm̄ er * skrifad: dau-
eñ er uppsvelgdur i sigur * Es. 25/ 8.
55 Daude / hvar er þiñ broddur z hel-
vijte/ hvar er þiñ sigur?
56 Eñ broddur daudans er syndeñ/ eñ

* kraptur syndarennar er løgmaaled.
* Rom. 7/13.
57 Enn Gude sieu þacker / * sem giefur oss sigurenn / fyrer Drottenn vorn Jesum Christum. * 1. Joh. 5/5.
58 Þar fyrer/brædur mijner elskuleger/ vered støduger / obifanleger/ yfergnæfande alltijd i verke Drottens/ vitande/ ad * ydar erfide er ecke onytt i Drottne. * 2. Kron. 15/7.

XVI. Capitule.

Þeir verda æminnter til Stødugleika i Trunne og Kiærleikanum.

Enn um * þad tillag/ sem safnad er handa þeim heilogu/so sem eg hefe boded søfnudunum i Galatia/so giøred og þier.
* P. G. 11/29. Rom. 12/13.
2 * Þann fyrsta dag vikunnar legge hvør eirn hiaa sier sialfum/ safnande (so sem i stood/) þad sem hønum heppnadest / ad nær eg kiem / verde ei (fyrst) tillagenu safnad. * P. G. 20/7.
3 Enn nær eg kiem(þangad/)hvørium þier þa trued (þar til) med brefum/ þa sømu * vil eg senda(burt)ad flitia ydar goodvilld til Jerusalem.
* 2. Cor. 8. 16/19.
4 Enn ef þess giørest þørf / ad eg og skule reisa (þangad/ þa) kunna þeir ad ferdast med mier.
5 Enn * eg vil koma til ydar/ nær eg fer i giegnum Macedoniam/þvi eg fer um Macedoniam. * P. G. 19/21.
6 Enn eg verd/ kann skie (nockra stund) hiaa ydur/edr ogso dvel af vetureñ/so ad þier filged mier hvørt sem eg mun fara.
7 Þvi eg vil ecke sia ydur nu / þa eg reise um/ enn vona/ ad eg mune um nockurn tijma dvelia hiaa ydur/ * ef Drottenn lofar. * P. G. 18/21.
8 Enn eg mun tefia i * Epheso allt til Hvijtasunnunnar. * c. 15/32.
9 Þvi mier eru * dyr upplaatnar stoorar og krøptugar/ og (þar eru) marger mootstandarar. * P. G. 14/27.
10 Enn ef Timotheus kiemur/(þa)siaaed til/ ad hann sie hiaa ydur aan otta / þvi hann giører verk Drottens/so sem eg.
11 Þar fyrer * forsmaae hann eingenn / helldur filged hønum i fride/ ad hann kome til min / þvi eg bijd hans med brædrunum. * 1. Tim. 4/12.
12 Enn hvad Apollo / þeim broodur (er vidvijkiande/)þa hefe eg mikelega beded hann/ad hann kiæme til ydar med brædrunum. Og þad var aungvanveigenn hans vilie/ad hann kiæme nu/ enn hann mun komast nær hann fær hentugleika.
13 * Vaked/ standed i trunne/vered karlmannleger/ vered hrauster. * c. 15/34.
14 Láted alla ydar hlute skie i kiærleika.
15 Enn eg æminne ydur / brædur / þier þecked hus * Stephanæ/ad þad er * * frumgroode Achaiæ / og til þioonustu heilogum hafa þeir skickad sig sialfa.
* C. 1/16. ** Rom. 16/5.
16 Ad þier sieud og undergiefner þvilijkum / og sierhvørium þeim/ sem tilstirker og erfidar.
17 Enn eg gled mig af tilkomu Stephanæ og Fortunati/ og Achaici/ þvi hvad mig vantade af ydur / hafa þeir uppfyllt.
18 Þvi þeir hafa endurnært minn anda og ydar / kannest þar fyrer vid þvilijka.
19 Ydur heilsa søfnuder Asiæ / Ydur heilsa i Drottne mikelega * Aqvila og Priscilla / med safnadenum i þeirra huse. * P. G. 18/2.
20 Ydur heilsa aller brædurner / Heilsed hvør ødrum * med heilogum kosse.
*Rom. 16/16. 2. Cor. 13/12. 1. Thess. 5/26. 1. Pet. 5/14.
21 Pals * heilsan (skrifast) med minne (eigenn)hende. * Col. 4/18. 2 Thess. 3/17
22 Ef nockur ecke elskar Drottenn Jesum Christum/ hann vere eirn bølvadur hlutur/ Maran Atha.
23 * Naad Drottens Jesu Christi sie med ydur. * Rom. 16/24.
24 Minn kiærleike sie med ydur øllum i Christo Jesu/ amen.

Hinn fyrre (pistill)til Corinthios/ skrifadur fra Philippis/med Stephana og Fortunato/ og Achaico og Timotheo.

# II S. Pals Pistell til Corinthios

## I. Capitule.

Guds Fyrerheit eru øll Jaa ꝫ Amen
i Christo.

PAll postule Jesu Chri-
sti/ * ept' vilia Guds/
og Timotheus broder/
søfnude Guds / sm̄ er
i Corintho / med øllū
heilogū/ sm̄ eru i allre
Achaja. * 1. Cor. 1/1.
2 Naad * sie med ydur / og fridur af
Gude Fødur vorum / og Drottne Jesu
Christo. * Rom 1/ 7. 1. Cor. 1/ 3.
3 * Lofadur sie Gud ꝫ Fader Drottens
vors Jesu Christi/ Fader myskunsemd-
aña/og * * Gud allrar huggunar.
* 1. Pet. 3/ 1. * * Rom. 15/ 5.
4 Sem oss huggar i allre vorre hørm-
ung/ til þess/ad vier giekū huggad þa /
sm̄ eru i allre hørmung/ med þre hugg-
an/ er vier sialfer erum med huggader
af Gude.
5 Þvi * so sm̄ ad Christi pijster yfer
gnæfa til vor / so yfergnæfer og vor
huggun fyrer Christum. * Ps. 34/ 20.
6 Eñ hvort helldur vier þreingiumst
(þa skiedur þad) fyrer ydar huggun/
og hiaalpræde / * sem eblest i þolen-
mæde þeirra sømu þiañinga/ hvøriar
vier og lijdum/ edur vier huggumst/(þa
skiedur þad)af ydar huggun og hiaalp-
ræde. * C. 4. 15/ 17.
7 Og vor von er stadføst um̄ ydur/ med
þvi vier vitū/ad * so sm̄ þier erud hlut
takande þiañingañа/ so (verded þier )
og huggunareñar. * 2. Thess. 1. 4/ 7.
8 Þvi vier vilium ei ad ydur sie duled/
brædur/um̄ * vora þreinging/ sm̄ vier
fenngum i Asia/ þvi vier vorū yfer maata
þvingader yfer (vort) megn/ so ad vier
efudumst og um̄ lijfed. * P. G 19/ 23.
9 Eñ vier høfdum sialfer med oss
sialfum aalyktad/ad vier mundum deya/
so vier skilldum ecke treista uppa oss
sialfa/helldur a Gud/sem uppvekur þa
daudu.
10 Hvør ed frelsade oss ut af so storre
daudans (hættu/) og frelsar (eñ nu/)
uppa hvørn vier vonum/ þad hañ * eñ
nu mune frelsa (oss.) * 2. Tim. 4/ 18.
11 Ad ydur * tilhiaalpande med bæn fyre
fyrer oss/ so ad su nadar-giaafa/ sm̄ oss
er veitt af mørgum persoonum/ verde
og med þackargiørd af mørgum prijs-
ud fyrer oss. * Rom. 15 / 30.
12 Þvi þesse er vor hroosun / (sem er)
* vitnesburdur samvitsku vorrar / ad
vier i * * einfallldleika og hreinlinde
Guds/ecke i holldlegre skynseme/helldur
i naad Guds/ høfū umgeingist i heim-
enum/eñ helst hiaa ydur * Ebr. 13/ 18
* * Matth. 10/ 16.
13 Þvi vier skrifum ydur ecke adra hlute
til/eñ þa/sm̄ þier lesed/ edur ꝫ þecked/
eñ eg vona / ad þier muned og þeckia
þad allt til enda.
14 So sm̄ þier hafed og þeckt oss ad
nockru leite/ad vier * erū ydar hroosan/
eins sm̄ þier (erud)og vor (hroosan) a
þeim deige Drottens Jesu Christi.
* C. 5/ 12.
15 Og i þvi trauste villda eg koma til
ydar fyrre/ so þier feingud eirn añañ
velgiørning.
16 Og ad eg fyrre um̄ ydar (borg)ferd-
ast til * Macedonia / ꝫ aptur fra Ma-
cedonia koma til ydar / og verda fylgt
* * af ydur til Judæa. * P. G. 19/ 21.
* * 1. Cor 16/ 5.
17 Þar eg hafde nu raaded þetta af/ he-
fe eg þa lauslinde brukad? ed: þ eg ræd
af/ræd eg þad af epter holdenu? ad hiaa
mier sie * jaa/ jaa/og (sijdañ) nei/ nei ꝫ
* Matth. 5/ 37. Jak. 5/ 12.
18 Eñ Gud * er trur/ so ad vor ræda/
sm̄(er skien)til ydar/ var ecke jaa ꝫ nei.
* 1. Cor. 1/ 9.
19 Þvi Guds Sonur Jesus Christus/
sem er predikadur a medal ydar af oss/
af mier og Silvano og Timotheo/

var ecke ja og nei / helldur var ja i
honum.
20 Þvi so mørg fyrerheit Guds/ (sem
eru til/) eru ja i honum/ z amen i hon-
um/ Gude til dijrdar fyrer oss.
21 Eñ sa ed * stadfester oss med ydur i
Christo/ z sa oss hefur smurt/ er Gud.
* 1. Cor. 1/ 8. 1. Petr. 5/ 10.
22 Sem og iñsiglade oss/ og gaf * pant
Andans i hiørtu vor. * Eph. 1/ 14.
23 Eñ eg kalla Gud * til vitnes yfer
sælu mijna/ ad af þvi eg þyrme ydur/ er
eg ecke eñ nu komeñ til Corinthum.
* Rom. 1/ 9.
24 Ecke ad vier * drottnum yfer ydar
tru/ helldur erum vier samverkande i yd
ar fognude/ þvi þier standed i trunne.
* 1. Pet. 5/ 3.

II. Capitule.

Saurlijfes Madureñ/ um hvørn ad-
ur var skrifad / skal nu medtakast til
Safnadarens.

Eñ eg asetkade þetta med mier
sialfum ad (eg skyllde) ecke *
aptur til ydar koma med sorg.
* C. 12/ 21.
2 Þvi ef eg hrygge ydur / hvør er þa sa
sem gledie mig/ nema hañ/ sem er hriggur
giørdur af mier?
3 Og eg skrifade ydur þetta til / * so
ad eg / nær eg kiem / skyllde ecke hafa
sorg af þeim/ sem mier bar ad hafa glede
af/ Þvi eg treyste (þess) til ydar allra/
ad miñ fognudur sie allra ydar.
* C. 12/ 21.
4 Þvi af mikellre hørmung og angist
hiartans skrifade eg ydur til med mørgū
tarū/ Ecke so ad þier skylldud hrygg-
last/ helldur uppa þad/ ad þier skylldud
kiærleikañ þeckia / hvørn eg hefe yfer
fliootanlega til ydar.
5 Eñ ef nockur hefur hrygd af stad
komed / þa hefur hañ ecke hriggt mig
helldur ad nockru leite / so ad eg skule
ecke þijngia (med honū) alla ydur.
6 Þad er nog þeim sama/ ad hañ er so
straffadur af mørgum.
7 So ad þier þar i moote þvi helldur
fyrergiefed og hugsvaled (honū/) uppa
þad þvilijkur eirn uppsvelgdest ecke af
offstoorre sorg.
8 Þar fyrer aminñe eg ydur/ ad þier hafed (yd
ar) * kiærleika vid hañ. * 1. Cor. 16/ 41.
9 Þvi þess vegna hefe eg og skrifad
ydur/ so ad eg þeckte ydar raun/ hvørt
þier værud i øllum hlutū hlijdnger.
10 Eñ hvørium þier nockud tilgiefed/
(þeim tilgief) eg og / þvi og eg / ef eg
hefe nockud tilgiefed / þeim er eg hefe
tilgiefed / (þa er þad skied) fyrer ydar
saker/ i auglite Christi / uppa þad vier
verdū ecke satan ad aviñinge.
11 Þvi hañs uppaslætter eru oss ecke
okuñer.
12 Eñ þa eg kom til * Troada / til
(ad predika) evangelium Christi/ og * *
mier voru dyr opnadadar i Drottne/ þa
hafde eg aungva roo i mijnū anda / þvi
eg fañ ecke Titum miñ broodur.
* Ap. G. 16/ 8. * * 1. Cor. 16/ 9. 14/ 27.
13 Helldur kvadde eg þa z for til Ma-
cedonia.
14 Eñ * Gude sie þacker / sem alltijd
lætur oss sigre hroosa i Christo/ og ylm
þeckingar siñar openberar fyrer oss i
hvørium stad. * 1. Cor. 15/ 57.
15 Þvi vier erum Christi goodur ylm-
ur fyrer Gude/ * a medal þra/ sem hoolp
ner verda/ og a medal þeirra/ sem verda
fortapader. * 1. Cor. 1/ 18.
16 Þessū ad søñu ylmur daudans til
daudans / eñ hinum ylmur lijfsens til
lijfsens/ Og * hvør er til þessara hluta
hæfelegur? * C. 3. 5/ 6.
17 Þvi vier erum ecke/ so sem marger/ er
falsa ord Guds / helldur tølum vier so
sem af hreinlynde / ja so sem af Gude /
fyrer Guds augsyn i Christo.

III. Capitule.

Um Løgmaaled og Evangelium.

Tokū vier þa aptur til / ad hæ-
la oss sialfū? edur þurfū vier/
so sem nockrer / hools brefaña
vid til ydar / edur hools (bref-
aña) af ydur? * C. 5/ 12.
2 Vort * bref erud þier/ skrifad a vor
hiørtu/ sem verdur þeckt og lesed af øll-

um

um moñum. * 1. Cor. 9. 2/3.
3 Þier erud auglijster/ad þier sieud bref
Christi/ tilbued fyrer vora(þioonustu/)
*skrifad ecke med bleke/helldur med An-
da Guds lifanda/Ecke a stein-toblum/
helldur a holldlegum toblum hiartans.
* Jer. 31/33.

(Pistilleñ XII. S.D.epter Trinit.)
4 Eñ vier hofum þvilijkt traust fyrer
* Christum til Guds.
* Joh. 14/6. etc.
5 Ecke * ad vier sieum nijter af oss
sialfū til/ad huxa nockud/ so sm̄ af oss
sialfum til/ helldur þad vier erum nijt-
er/(þad) er af Gude. * c. 2/16.
Phil. 2/13.
6 Sa ed og giørde oss nijta til þienara
hins nija testamentis/ecke bookstafsens/
helldur Andans. Þvi bookstafureñ deyd-
er/eñ Andeñ lijfgar.
7 Eñ ef þioonustugiørd daudans med
bookstøfū grafeñ a steinum / skiede med
vegsemd / so ad Israels syner gatu ei
horft a* asioonu Mosis/søkum dijrdar
andlites hn̄s/ hvør ed er þo aflogd:
* 2. Mos. 34/30.
8 Þvi skyllde þa ei framar þioonustu-
giørd Andans vera med vegsemd?
9 Þvi ef þioonustugiørd fordæmingar
eñar var vegsamleg/þa mun miklu meir
ofergnæfa þioonustugiørd riettlætesens
i dijrdeñe.)
10 Þvi þad var jafnvel ecke vegsam-
legt/ sm̄ var vegsamlegt/ ad þvi leite /
saker þeirrar ypparlegū dijrdar.
11 Þvi ef þad sm̄ afmaest/skiede fyr-
er vegsemd / þa mun þad sm̄ blijfur /
miklu framar vera i vegsemd.
12 Med þvi vier hofum þa * þvilijka
von / brukum vier stoora diorfung ad
tala. * v. 4.
13 Og ecke so sm̄ Moses* heingde eina
skijlu fyrer sitt andlit / so ad Israels
syner horfdu ecke a endingu þess/ sem
afleggst. * 2. Mos. 34. 33/35.
14 Eñ þeirra * giedsmuner forherd-
tust. Þvi allt til þessa dags varer
su skijla i lestre þess gamla testament-
is / oafteket/þvi hun afleggst i Chri-
sto. * Es. 6/10.
15 Helldur allt til þessa dags / nær
Moses er leseñ / liggur ein skijla yfer
þeirra hiarta.
16 Eñ ef þ * snere sier til Drottens/
þa burttækest skijlañ. * Rom. 11. 23/26
17 Eñ * Drotteñ(er)Andeñ/eñ hvar
Ande Drottens (er/) þar (er) frelsed.
* Joh. 4/ 24.
18 Eñ vier aller med* obyrgdre asioo-
nu so sm̄ i speigle skoande dijrd Drott-
ens/ ummyndunst ** til somu myndar
fra dijrd til dijrdar/ so sm̄ af Drottens/
Anda. * 1. Cor. 13/12. ** Rom. 8/29.

IV. Capitule.

Evangelium gagnar ecke ollum sem
heyra þad.

Fyrer þvi / med þvi vier hofum
þetta embætte / so sem * vier
hofum nu myskun odlast / þa
letiunst vier ecke. * 1. Cor. 7/27
2 Helldur hofū vier afsagt heimugleg
ar skamer/og umgaungunst ecke i* flæt-
skap / folsum og ecke ord Guds / helld
ur i openberan sañleikans giørande oss
velþockada i allra mana samvitsku / i
Guds augsijn. * 1. Thess. 2/5.
3 Eñ ef og vort evangelium er huled/
þa er þad/ fyrer þ̄m / sem fyrerfarast/
huled. * 1. Cor. 1/ 18.
4 J hvoriū gud veralldar þessarar hef
ur forblindad hugskot vantruadra / ad
ei lijse þeim lioos evangelii um̄ dijrd
Christi/*hvor ad er mynd Guds.
* Ebr. 1/3 etc.
5 Þvi* ei prediku vier oss sialfa/helld
ur Christum Jesum eirn Drotteñ / eñ
oss sialfa ydar þienara/ saker Jesu.
* C. 1. 24.
6 Þvi sa er* Gud/sm̄ baud lioosenu ad
(fram) skijna ur myrkrenu/ sa sem **
lioomade i vorum hiortū/ til upplijsing-
ar Guds dijrdar þeckingar i auglite Je-
su Christi. * 1. Mos. 1/3.
** 2. Pet. 1. 9.
7 Eñ vier hofū * þeñañ fiesiood i leyr
kierum/ so ad yferburdur kraptarens sie

Guds og * * ecke af oss. * c. 5/ 1.
* * 1. Cor. 2/ 5.
8 Alla vega þiaunst vier/ eñ ad þreing
iunst ecke / Vier efunst (ad sönu/) eñ
orvæntum ecke.
9 Vier lijdum ofsookn/ eñ * verdū ecke
yfergiefner (þar i/) Oss verdur nidur-
varpad/ eñ fyrerförunst ecke.
* Ps. 37/ 24.
10 Vier sem * berum alltijd deydingu
Drottens Jesu i kring a lijkamanū/ so
ad lijf Jesu a lijkama vorum openber-
est. * Rom. 8/ 17.
11 Þvi vier/ sm̃ lifum / verdū alltijd *
til daudans framselder / sökum Jesu /
so ad lijf Jesu openberest i voru daud-
legu hollde. * Ps. 44/ 23. Matth. 5/ 11.
12 So er * dauden ad sönu verkande i
oss/ eñ lijfed i ydur. * 1. Cor. 1/ 6.
13 Eñ med þvi vier höfū þañ sama
Anda truareñar/ epter þvi * sm̃ skrifad
er: eg trude/ þar fyrer talade eg / Þa
truum vier ꝛ/ þar fyrer tölum vier eirn-
eñ. * Ps. 116/ 10.
14 Vitande / ad sa/ sem * uppvakte
Drottenn Jesum/ hañ mun og fyrer Je-
sū oss uppvekia/ og lata (oss) framkoma
med ydur. * P. G. 3/ 15. etc.
15 Þvi þad (skiedur) allt saker ydar/ *
so ad su yferfliotanlega naad fyrer þack
argiörd margra yfergnæfe til dyrdar
Guds. * Rom. 5/ 15.
16 Þar fyrer letiunst vier ecke/ helldur
og þott vor ytre madur * fordiarfest/
þa endurnyast þo sa * * innre dag fra
deige. * 1. Pet. 4/ 1. * * Eph. 3/ 16.
17 Þvi vor * hörmung/ sm̃ er skamvinñ
ꝛ lett/ verkar oss eitn miög yfergnæfan
legañ eilijfañ vitkugleika dyrdareñar.
* Rom. 8/ 18.
18 Þar vier * ecke alijtum þa sijnelegu
hlute / helldur þa osijnelegu / þvi þeir
sijnelegu eru tijmanleger/ eñ hiner osijne
legu eilijfer.

## V. Capitule.

### Þeir Truudu vona hiña Eilijfu Giæda.

Þvi vier vitum/ ad ef * hus vort
ar jardnesku tialldbudar verd-
ur nidurbroted / þa höfū vier
bygging af Gude/ * * eitt hus/
sm̃ ei er med höndū giort/ eilijft a himn
um. * 2. Pet. 1. 13/ 14. * * Joh. 14/ 2.
2 Þvi epter þessu * andvörpum vier/
hafande laungun epter / ad yferklædast
voru heimkyñe / sm̃ er af himne.
* Rom. 8/ 23.
3 Þo * so/ ef vier og fiñunst ijklædder/
ecke nakter. * Openb. 16/ 15.
4 Þvi ꝛ vier/ sm̃ erum i (þessare) tiallda
bud/ andvörpum * þunga hladner / af
þvi vier vitum ecke afklædast / helldur
yferklædast / so ad hid daudlega verde
uppsvelgt af lijfenu. * Spek. 9/ 15.
5 Eñ sa / sm̃ hefur tilbued oss til þess
sama/ er Gud/ sm̃ gaf oss * pant And-
ans. * Eph. 1/ 14.
6 Þar fyrer erum vier fullörugger
alltijd/ og vitum/ ad a medañ vier buū
i lijkamanum / erum vier utlender fra
Drottne.
7 Þvi fyrer truna / framgaungum *
vier/ ecke ꝥ skodunena. * 1. Cor. 13/ 12.
8 Eñ vier erum fullörugger / og höf
um meire þocknan ad vera utlender fra
lijkamanum/ ꝛ fara heim til Drottens.
9 Þar ꝥ erū vier og kostgiæfner/ hvört
helldur vier erum * heima edur fiarlæg-
er/ ad þocknast hönum. * Phil. 1/ 23.
10 Þvi oss byriar öllum ad openberast/
fyrer doomstole Christi/ so ad hvör med
take þad sm̃ er giort af lijkamanum/
epter þvi/ sm̃ hañ hefur giort / hvert
helldur gott edur illt. * Rom. 14/ 10. etc
11 Med þvi vier þa * vitū otta Drott
ens / yfertölum vier meñena / eñ fyrer
Gude erum vier augliooser/ eñ eg vona/
ad vier ogso sieum i samvitskum ydar
augliooser. * Job. 31/ 23.
12 * Þvi ecke hroosū vier oss a nij ꝥ yd
ur/ helldur giefū ydur ordsök til ad hro-
sa ydur af oss. So þier hafed (nockud)
a moote þeim/ sm̃ hroosa sier i (utvort
es) munne/ ꝛ ecke af hiarta. * c. 3/ 1.
13 Þvi ef vier erum * fra oss numder/

þa

Þa er þad Gude/edur ef vier erum med rænu/þa er þad fyrer ydur.
* C. 11. 16/ 17.
14 Þvi kiærleike Christi knyr oss til.
15 Þvi vier holldum/ad fyrst eirn er *
fyrer alla dæeñ/ þa sieu þr aller daud-
er/Og hn̄ deide fyrer alla/**ad þeir/
sm̄ lifa /life ecke hier epter sier sialfū/
helldur þeim/ sm̄ fyrer þa er dæeñ og
upprisiñ. * 1. Tim. 2/6. Ebr. 2/ 9.
** Rom. 14. 7/ 8.
16 Þar fyrer þeckium vier nu hier ept
er aungvañ epter holldenu / eñ ef vier
høfū z þeckt Christum epter holldenu/
þa þeckium vier (hañ)nu ei framar.
17 Þar fyrer * ef nockur er i Christo/
(þa er hañ)ein ny skiepna / ** þeir
gømlu hluter eru um̄lidner / sia / aller
hluter eru ordner nyer. * Rom. 8/ 10.
** Es. 43/ 19. Openb. 21/ 5.
18 Eñ aller hluter eru af Gude / sm̄
* forlykade oss vid sig sialfañ fyrer
Jesum Christū/og gaf oss embætte for-
lykunareñar. * Rom. 5/ 10.
19 So ad*Gud var i Christo/ forlyk-
ande heimeñ vid sig sialfañ/tilreiknan-
de þm̄ ecke þra synder / z uppreisande
a medal vor ord forlykunareñar.
* Rom. 3. 24/ 25.
20 So erum vier * sende bodar i Chri-
sti stad/ so sm̄ Gud(sialfur)æminte(yd
ur)fyrer oss. Vier bidium i Christi stad/
læted forlyka ydur vid Gud. * Es. 52/7
1. Cor. 4/ 1.
21 Þvi þañ/ * sem ecke visse af synd/
hefur hañ giørt ad synd fyrer oss / so
ad vier yrdum riettlæte Guds ** i høn
um. * 1. Pet. 2/ 22. ** Col. 1/ 14.
Eph. 1. 6/ 7. Phil. 3/ 9.

## VI. Capitule.

### Guds Naad maa ei vanbrukast.
(Pistilleñ 1. S.D. i Føstu.)

Eñ vier æminnū(ydur)z/so sm̄*
medhialpendur/ ad þier hafed
ecke til forgiefens naad Guds
medteked. * 1. Cor. 3/ 9.
2 Þvi * hañ seiger : a þægelegū tyma
bænheyrda eg þig/og a deige hialpræde
sens hialpade eg þier/Sia/ **nu er
sa þægelege tymeñ / sia / nu er dagur
hialpradesens. * Es. 49/ 8.
** Luc. 4/ 19.
3 Gefum* oss ecke i nockru giefa neina
hneixlan/ so (vort) embætte ecke lastad
verde. * Matth. 18/ 6.
4 Helldur* audsynū oss sialfa i øllum
hlutū/ so sm̄* * þienarar Guds/i mik-
elle þolenmæde/ i hørmungum/i naud-
þurftū/ i angistum/ * c. 4/ 2.
** 1. Cor. 4/ 1.
5 J hudstrokū/ i myrkvastofum/i upp-
hlaupum / i erfidesmunum/ i vøkum/ i
føstum/
6 J hreinleika/ i visku/i langlundar
giede / i goodlynde/ i heiløgum Anda/ i
hræsneslausum kiærleika/
7 J orde sañleikans/ i * krapte Guds/
fyrer vopn riettlætesens / til hægre og
vinstre(handar/) * 1. Cor. 2/ 4.
8 Fyrer vegsemd og vansemd / fyrer
vanrikte/ og gott rikte/sm̄ svikarar/og
(þo)sañorder:
9 So sm̄ okuñuger/og (þo) kuñuger/
So sm̄ þeir * ed deya/og sia/ vier lif-
um/ So sm̄ hegnder/ og (þo) ecke lyf-
latner: * c. 4. 10/ 11.
10 So sm̄ hriggver / eñ alltyd glader/
So sm̄ * fatæker/eñ(þo)marga aud-
uga giørande/ So sem eckert hafande/
og eigande(þo)alla hlute ) * c. 8/ 9.
11 Vor muñur er opeñ vid ydur / þier
Corinthu meñ/vort hiarta er utbreidt.
12 Þad er ecke þreingt ad ydur / þad
oss vidvykur/helldur er þreingt ad ydur
i ydar hiørtum.
13 Eg tala (vid ydur/) sem vid (myn)
børn/ ad þier endurgiallded þad sama /
utbreidest þier eirneñ.
14 * Draged ecke añarlegt ok med van
truudū/ Þvi ** hvada hluttoku hefur
riettlæted med ranglætenu ? og hvada
samlag hefur lioosed vid myrkred ?
* 5. Mos. 7/ 2. ** Eph. 5/ 11.
15 Og hvørneñ kañ Christus* ad ver-
da samhlooda vid Belial : edur hvøria
hlutdeild hefur truadur med vantruud-
um ? * 1. Kong. 18/ 12.

hn̄s bodord/ og giorū þa hlute/ sem eru
þocknanleger fyrer honum.
* Marc. 11/ 24. etc.
23 Og þetta er hn̄s bodord/ * ad vier
truum a nafn Sonar hans Jesu Chri-
sti/ og * * elskum hvorier adra/ so sem
hn̄ gaf oss eitt bodord. * Joh. 6/ 29.
* * Matt. 12/ 31. etc.
24 Og * hvor sem geimer hn̄s bodord/
sa blijfur i honū/ og hn̄ i þeim/ Og * *
þar af þeckium vier/ ad hn̄ blijfur i oss/
af + Andanū/ sm̄ han̄ hefur giefed oss.
* Joh. 14/ 23. * * Joh. 4/ 13. + Rom. 8/ 9.

## IV. Capitule.

### Andarner eiga ad reynast.

Hier elskanleger / * trued ecke
hvoriū einum anda/ helldur * *
reyned andana / hvort þeir eru
af Gude/ þvi marger fals spa
men̄ eru utgeingner i heimen̄.
* Ier. 14/ 14. * * 1. Thess. 5/ 21.
2 Þar af þeckest Ande Guds/ * Hvor
ande/ sem vidurkien̄er Jesum Christum
(ad vera) i hollded komen̄ / sa er af
Gude. * 2. Cor. 12/ 3.
3 Og hvor ande / sem ecke vidurkien̄er
Jesum Christum (ad vera) i hollded kom
en̄ / er ecke af Gude / og þesse er sa *
antachristiens (ande/) um hvorn þier
heyrdud/ ad hn̄ kiemur/ og hn̄ er nu þeg-
ar i heimenum. * c. 2. 18/ 22.
4 Sonakorn / þier erud af Gude / og
hafed yferun̄ed þa / þvi sa * er meire
sem er i ydur / en̄ sa sem er i heimen-
um. * 2. Kong. 6/ 16. 2. Kron. 32/ 7.
5 Þeir eru af heimenum / fyrer þvi
tala þeir af heimenum / og heimuren̄
heyrer þeim.
6 Vier erum af Gude/ Hvor * sm̄ þeck
er Gud/ heyrer oss/ Hvor sem ecke er af
Gude/ heyrer oss ecke / þar af þeckium
vier Anda sannleiksens / og anda villun̄-
ar. * Joh. 8/ 47.

(Pistillen̄ 1. S. D. epter Trinit.)

7 Hier elskanleger / elskum hvorier ad-
ra/ þvi kiærleikuren̄ er af Gude /
og hvor sa / * sem elskar / er af Gude
fæddur/ og þecker Gud. * Joh. 8/ 47.
8 Hvor sem ecke elskar/ þecker ei Gud/
þvi Gud er kiærleikuren̄.
9 J þvi * auglijstest kiærleike Guds vid
oss / ad Gud sende sin̄ eingieten̄ Son i
heimen̄/ ad vier skylldum lifa fyrer han̄.
* Joh. 3/ 16. etc.
10 Þar i er kiærleikuren̄ / ecke ad vier
elskudum Gud / helldur ad han̄ elskade
oss/ og sende Son sin̄ * forlijkun fyrer
synder vorar. * Col. 1/ 20. etc.
11 Þier elskanleger/ hafe Gud so elskad
oss/ þa erum * vier skyllduger hvorier ad-
ra ad elska. * Matth. 18/ 33.
Joh. 15. 12/ 13.
12 * Eingen̄ hefur nockru sinne Gud
sied. Ef vier elskum hvorier adra / þa
blijfur Gud i oss/ og hn̄s kiærleike er full
komen̄ i oss. * Joh. 1/ 18. etc.
13 Þar af þeckium vier/ ad vier i hon-
um blijfum/ og hn̄ i oss/ ad * hn̄ gaf oss
af sijnum Anda. * c. 3/ 24.
14 Og * vier sæum/ og vitnū/ ad Fader
en̄ sende Sonen̄/ (ad vera) Frelsara heim
sens. * Joh. 1/ 14.
15 Hvor sem (nu) * vidurkien̄er ad Je-
sus er sa Sonur Guds / i honū blijfur
Gud/ og hn̄ i Gude. * c. 5/ 5.
16 Og vier þeckium og trudū þan̄ kiær
leika / sem Gud hefur til vor. Gud er
* kiærleikuren̄/ og hvor sm̄ blijfur i kiær
leikanum/ han̄ blijfur i Gude/ og Gud i
honum. * v. 8.
17 Þar i er kiærleikuren̄ fullkomen̄
hia oss/ uppa þad vier hefdū * diorf-
ung a deige doomsens/ þvi so sem hn̄ er/
(so) erum og vier i heime þessum.
* c. 3/ 21. etc.
18 Otte er ecke i kiærleikanum / helldur
utdrijfur fullkomen̄ kiærleike ottan̄/ Þvi
otten̄ hefur kvol / en̄ hvor sem ottast /
han̄ er ei fullgiordur i kiærleikanum.
19 Vier elskum han̄/ þvi * han̄ elskade
oss fyrre. * v. 10.
20 Ef * nockur seiger: eg elska Gud/
og hatar broodur sin̄ / han̄ er eirn lyg-
are Þvi hvor sm̄ ei elskar broodur sin̄/
hvorn han̄ hefur sied/ hvornen̄ kan̄ hn̄
ad elska Gud hvorn̄ han̄ hefur ecke

sied?

sied? * c. 2. 4/ 11.
21 * Og þetta bodord hofum vier af
honum/ ad hver sem elskar Gud / hann
skal og elska brodur sinn.)
* Marc. 12/ 31. etc.

### V. Capitule.

### Endurfæddra Audkienne.

Hvor sa/ sem truer/ ad Jesus er sa
Christi/ hann er * af Gude fædd
ur. Og hvor sem elskar þann/
sem hann gat / elskar og þann/ sem
fæddur er af honum. * Joh. 1. 12/ 13.
2 Þar af þeckium vier/ ad vier elskum
born Guds / nær vier Gud elskum / og
hans bodord vardveitum. * c. 3/ 19.
3 Þvi þesse er sa kiærleike Guds / ad
vier * hans bodord vardveitum/ og hans
bodord eru * * ecke þung.
* Joh. 14. 23/ 24. ** Matth. 11/ 30.

(Pistillenn 1. S. D. epter Paaska.)

4 Þvi allt þad / sem er fædt af Gude/
* yfervinnur heimenn / og þesse er
su yfervinning/ sem hefur yfervunned heim
enn/ vor tru. * Joh. 16/ 33.
5 Hvor er sa/ sem * yfervinnur heimenn/
nema sa / sem truer/ ad Jesus er Son
Guds? * c. 4/ 4. 1. Cor. 15/ 57.
6 Þesse er sa/ sem * kom med vatne og
bloode / Jesus sa Christus / ecke med
vatne alleina/ helldur med vatne og bloo
de/ og þad er Andenn/ sa sem vitnar/ ad
andenn er sannleikur. * Joh. 19. 34/ 35
7 Þvi * þryr eru þr/ sem vitna i himn
enum/ Faderenn/ Orded/ og Heilagur Ande/
og þesser þryr eru eitt. * Matth. 28/ 19.
ps. 33/ 6.
8 Og þryr eru þeir / sem vitna a jord
unne/ andenn/ vatned og blooded/ og þeir
þryr eru eitt.
9 Ef vier * vitnesburd mannanna medtok
um / þa er vitnesburdur Guds meire/
þvi þesse er sa vitnesburdur Guds / er
hann hefur vitnad um Son sinn.
* Joh. 8/ 17.
10 Hvor sem truer a Son Guds/ hef
ur * þennann vitnesburd i sier sialfum /
** Hvor sem ecke truer Gude / hefur
giort hann ad lygara / af þvi hann truде
ei a þann vitnesburd/ sem Gud vitnade
um Son sinn.) * Rom. 8/ 16.
** Joh. 3/ 35.
11 Og þesse er sa vitnesburdur/ ad Gud
hefur oss þad eilijfa lijfed giefed / og
þetta * lijf er i Syne hans. * Joh. 1/ 4.
12 Hvor sem * hefur Sonenn/ sa hefur
lijfed/ hvor sem ei hefur Son Guds/ sa
hefur ei lijfed. * Joh. 3/ 36.
13 Þetta hefe eg skrifad ydur til / sem
trued a nafn Sonar Guds/ so ad þier
vited / ad þier hafed eilijft lijf og trued
a nafn Sonar Guds.
14 Og þesse er * su diorfung/ er vier hof
um til hans/ ad ef vier bidium nockurs
epter hans vilia/ þa heyrer hann oss.
* C. 3/ 21. etc.
15 Og med þvi vier vitum / ad hann
heyrer oss/ hvors vier bidium/ þa vitum
vier/ ad vier hofum þær bæner / hvorra
vier hofum beded af honum.
16 Ef nockur sier brodur sinn syndga
einhvoria synd / ecke til dauda / sa
ma bidia og hann mun gefa honum lijf/
(eg seige) þeim/ sem syndga ecke til dauda.
Þar er * ein synd til dauda/ fyrer hana
seige eg ecke ad nockur skule bidia.
* Matth. 12/ 31. etc.
17 Allt * ranglæte er synd/ og þar er
synd/ ecke til dauda. * c. 3/ 4.
18 Vier * vitum / ad hvor sa sem er
fæddur af Gude / syndgar ecke / helldur
hvor sa sem er fæddur af Gude / **
vardveiter sig sialfann/ og sa vonde snert
er hann ecke. * c. 3/ 9. ** 2. Thess. 3/ 3.
19 Vier vitum/ ad vier erum af Gude/
og allur heimurenn liggur i illskunne.
20 Enn vier vitum / ad Son Guds er
komenn / og hefur giefed oss þad sinne/ ad
vier (gietum) þeckt þann sanna/ og vier
erum i þeim sanna / i Syne hans Jesu
Christo / þesse er * sa sanne Gud/ og ei
lijft lijf. * Rom. 9/ 5. 1. Tim 3/ 16.
Ebr. 1/ 8.
21 Sonakorn/ * vared ydur sialfa vid
afgudum / amen.
* 2. Mos 20/ 3.

# II St. Johañis Pistill.

Stødugleike i Lærdoomenum.

NUlldungurenñ/ hiñe utvøl
du fru/og børnū heñar/
hvør * eg elska i sañlei-
ka/og ecke eg einsamañ/
helldur og aller/ sm̄ ha-
fa * * þeckt sañleikañ.
* 3. Joh. v. 1 ** 1. Tim. 2/4.
2 Fyrer sañleikans saker / sem blijfur
i oss/og mun vera med oss ad eilijfu.
3 * Nand/myskun/fridur af Gude Fød
ur og Drottne Jesu Christo/Syne Fød
ursens/ i sañleika og kiærleika/ sie med
ydur. * 1. Tim. 1/ 2.
4 Eg em ordeñ næsta gladur / ad eg
hefe funded af børnum þijnum / þa sem
um̄gangast i sañleika/so sem vier høf-
um eitt bodord medteked af Fødurnum.
5 Og nu bid eg þig/fru/ ecke so sem eg
skrife þier eitt nytt bodord/helldur þad
sem vier høfdum af upphafe/ * ad vier
elskum hvørter adra * Marc. 12/31. etc
6 Og * þsse er kiærleikurenñ/ad vier um̄
gaungunst epter bodordū hn̄s. Þetta er
bodorded/ sem þier heyrdud af upphafe/
so ad þier i þvi ganged. * 1. Joh. 5/ 3.
7 Þvi * marger afvega-leidendur eru
iñkomner i Heimeñ/sem ecke vidurkieña
Jesum Christum ad hafa komed i holld
enu / Þesse er sa afvega-leidare / og sa
Antechristur. * 1. Joh. 2/ 18.
8 Sieed ydur fyrer/ ad vier * tapum
ecke þeim hlutum er vier høfum verkad /
helldur fullkomeñ laun ødlunst.
* Gal. 3/ 4.
9 Hvør sem yferfredur/og ecke blijfur i
lærdoome Christi / sa hefur ecke Gud /
hvør sem blijfur i lærdoome Christi /
hefur bæde Fødureñ og Soneñ.
10 Ef nockur kiemur til ydar / og flyt-
ur ei þeñañ lærdoom med sier / þañ *
hijsed ecke / og heilsed hønum ecke.
* 2. Thess. 3/ 6 etc.
11 Þvi hvør sem hønū heilsar/verdur
hlutttakare i vondū verkum hans.
12 Þo eg hafe margt ad skrifa ydur
til/þa villde eg * ecke med brefe og bleke/
helldur vona eg ad koma til ydar / og
tala muñlega (vid ydur/) uppa þad vor
fognudur sie fullkomeñ. * 3. Joh. v. 13.
13 Þier heilsa børn systur þiñar/hiñ-
ar utvøldu/ amen.

# III. S. Johañis Pistill.

Klogun yfer Diotrephes/ og Deme-
trii Hroosan.

ALlldungurenñ/ Gaio hin-
um elskulega/hvørn * eg
elska i sañleika.
* 2. Joh. v. 1.
2 Þu elskulege/eg oska/
ad þier i øllum hlutum
vel vegne/og sierd heilbrigdur/so sem og
þiñe sælu vel vegnar.
3 Þvi eg vard næsta gladur / þa bræd-
urner komu / og vitnudu um̄ þiñ sañ-
leika/so sem * þu i sañleikanum geing-
ur. * 2. Joh. v. 4.
4 Eg hefe eingañ meire fognud / eñ
þañ/ ad * eg heyre ad min børn ganga
i sañleikanum. * 2. Joh. v. 4.
5 Þu elskulege/ þu gjører trulega/ þad
sem þu gjører vid bræburnar / og vid
þa framande/
6 Hvørier ed hafa vitnad um̄ þiñ kiær
leika fyrer søfnudenū/ og þu munt giø-
ra vel / ef þu fær þa fyrer Gude verd-
uglega * a veg leidt. * Tit. 3/ 13.
7 Þvi þeir eru fyrer hn̄s nafns saker
utfarner / og * hafa eckert þeiged af
heidingiunum. * Matth. 10/ 8.
8 So erum vier skylldúger ad medtaka
þvilijka / so ad vier sieum medhiælpar-
ar sañleikans.

9 Eg hefe skrifad til söfnudenū. Eñ
Diotrephes / sem vill feigeñ vera mest
meteñ a medal þra / medtekur oss ecke.
10 Fyrer þui / nær eg kiem / vil eg
miña hñ a sijn verk / sm̃ hñ gioret / hvør
ed þvætter med vondum ordum i gegn
oss / og lætur sier ecke þar med nægia.
Hañ * medtekur og ecke sialfur brædur-
nar / og meinar þm̄ / sem (þad) vilia / og
utrekur (þa) af söfnudenum.
* Matth. 23/ 13.
11 Þu elskanlege / * epterfilg ecke þvi
vonda / hellour þvi gooda / * * Hvør sem
gott giører / sa er af Gude / Hvør sem
vondt giører / hefur ei sied Gud.
* Ps. 37/ 27. * * 1. Joh. 3. 6/ 9.
12 Demetrio er giefeñ vitnesburdur
af øllum / og af sialfum sañleikanū / eñ
vier vitnum ogso / og * þier vited / ad vor
vitnesburdur er sañur. * Joh. 19/ 35.
C. 21/ 24.
13 Eg hafde margt ad skrifa / eñ * vil
ecke skrifa þier til med bleke og peña.
* 2. Joh. v. 12.
14 Eñ vona snart ad sia þig / og vid
vilium muñlega vidtalast.
15 * Fridur sie med þier. Þier heilsa vin-
erner. Heilsa þu vinunū med nafne.
* 1. Pet. 5/ 14.

# St. Judæ almennelegur Pistill

Striid Truareñar.

Iudas / Jesu Christi þion /
eñ * brooder Jakobs / þm̄
kolludū / (sm̄ eru) i Gude
Fodur helgader / og i Jesu
Christo vardveitter.
* Matth. 13/ 55.
2 Miskuñ * og fridur ꝛ kiærleike marg-
falldest ydur. * 2. Pet. 1/ 2.
3 Þier elskanleger / med þvi eg legg allt
kapp a ad skrifa ydur til um̄ sameigen-
legt hiælpræde / þa var mier naudsyn-
legt ad skrifa ydur til eina amiñing /
ad * striida framveiges fyrer þa tru /
(sm̄ er) eitt siñe a hendurfaleñ þeim
helogu. * Phil. 1/ 27. 1. Tim. 1/ 18.
4 Þvi nockrer meñ hafa iñsmeigt sier /
sem eru fordum urskurdader til þessa
dooms / * ogudleger / sm̄ umhverfa naad
Guds vors i munadarlijfe / ꝛ þeim einka
Drottne Gude / og Drottne vorū Jesu
Christo afneita. * Tit. 1/ 16.
5 Eñ eg vil miña ydur a / þier sm̄ vit-
ed þetta eitt siñe / ad Drotteñ / þa hañ
hafde folked af Egyptalande frelsad /
hefur * i añad siñ / þa sem ecke trudu /
fordiarfad. * 4. Mos. 14/ 35.
1. Cor. 10/ 5.
6 Og * einglana / sem ecke vardveittu
siñ eigeñ hofdingia-doom / helldur yfer-
gafu sitt eiged heimile / hefur hñ vard-
veitt til dooms þess hins mikla dags /
med eilijfum bondū under myrkrunum.
* 2. Pet. 2/ 4.
7 So sm̄ * Sodoma og Gomorra / og
umliggande borger / hvørkar þa þær
med sama hætte og þessar uthoorast
hofdu / og voru geingnar epter ødru
hollde / eru þær settar til epterdæmes / ꝛ
þui þær lijda kvøl eilijfs ellds.
* 1. Mos. 19. 24/ 25. etc.
8 Sømuleides og þesser / nær þa drei-
mer / saurga þeir ad sønu holldeð / eñ
foragta herradoomeñ / sm̄ tala hædug-
lega um̄ magtarvoldeñ.
* 2. Pet. 2. 10. 11.
9 Eñ * Michael sa Hofud-Eingell / þa
hñ kiepte vid dioffuleñ / og þrattade um̄
Moses lijkama / dirfdest hañ ecke doom
hædungareñar ad uppkveda / helldur
sagde: * * Drotteñ straffe þig.
* Dan. 12/ 1. * * Zach. 3/ 2.
10 Eñ þesser lasta þa hlute er þr ecke
af vita / eñ i þeim * nattúrlegu / hvørja
þm̄ skinlausu dyreñ vita / i þm̄ fordiorf-
udu þeir sig. * 2. Pet. 2/ 12.
11 Vei þeim / þvi þeir hafa a * veige
Cains geinged / og eru i villu * * Bala-
ams launa uthellter / og i mootmoglan
+ Core eydelagder. * 1. Mos. 4/ 8. etc/

+ Openb. 2/14. etc. ** 4. Moſ. 16. 1/31. etc
12 Þeir eru lijke i ydar kiærleiks (mal-
tijdū) nær þeir giora ſig glada med (ydur/)
fædande ſig ſialfa an otta / * ſky an
vatns/ ſm̄ af vindū hrekiaſt um̄ kring/
foravide/ofriodſamer/ tviſvar dauder/
uppræktter: * 2. Pet. 2/ 17.
13 * Grim̄ar ſiafar bylgiur/ utlødrande
ſijnum eigē vanſemdum/ villar ſtiørn-
ur/ hvøriū dym̄a myrkrañ ad eilijfu
vardveitt er. * Eſ. 57/20.
14 Eñ * Enoch/ ſa ſiøunde fra Adam/
hefur ⁊ ſpad um̄ þeſſa/ ſeigiande: ſia/
Drotteñ kiemur med ſijnum heiløgu
mørgu þuſundum/ * 1. Moſ. 5/12.
15 Ad * hallda doom i moote øllum/ og
ſtraffa alla ogudlega/ ꝑ øll verk þra o-
gudlegleika/ i hvørium þeir hafa vered
ogudleger/ ⁊ fyrer alla þa harda hlute/
ſm̄ þeir ogudlegu ſyndarar hafa * * tal
ad i giegn honum. * Matth. 25/ 31.
** Matth. 12/ 36.
16 Þeſſer eru (þeir) ſm̄ møgla/ ſm̄ klaga/
ſm̄ epter ſijnū gyrndum ganga/ ⁊ * þra
muñur talar uppblaſna hlute / ſem
furda ſig a perſoonum fyrer gagnſemd-
ar ſaker. * Pſ. 17/ 10. 2. Pet. 2/ 18.
17 Eñ þier elſkanleger / miñeſt þeirra
orda/ ſm̄ eru fyrrum ſøgd af poſtulum
Drottens vors Jeſu Chriſti.
18 Þvi þeir ſøgdu til ydar/ ad * a þm̄
ſijdaſta tijma munde verda ſpottarar /
ſem ganga epter gyrndum ſijns ogud-
legs athæfes. * 1. Tim. 4/ 1. etc.
19 Þeſſer eru þeir / ſm̄ fraſkilia ſig
ſialfa/ lijkamleger / ſm̄ hafa ecke anda.
20 Eñ þier/ elſkanleger/ ſem uppbygg-
ed ydur ſialfa uppa ydar heiløguſtu
tru/ og biided i Heiløgum Anda /
21 Vardveited ydur ſialfa i aſtſeme
Guds/ * vænkande (eñ nu) myſkunſeme
Drottens vors Jeſu Chriſti til þeſſ ei-
lijfa lijfſens. * 1. Cor. 1/ 7.
22 Og aumkeſt yfer ſuma/ (þo) med
miſmun.
23 Og * frelſed ſuma med otta/ rick-
iande þeim ut af elldenum / hatande og
þañ kyrtel/ ſm̄ af holldenu er ſaurgad-
ur. * Jak. 5. 19/ 20.
24 Eñ * þeim/ ſm̄ er matkugur til ad
vardveita ydur an hrøſunar / og ſetia
(ydur) fyrer auglit ſiñar dijrdar oſtraff-
anlega med glede: * Rom. 16/ 25.
25 Honum / * alleina vijſum Gude /
Frelſara vorum/ (ſie) dyrd og majeſtat/
kraptur og vellde/ bæde nu og um̄ allar
allder/ Amen. * Rom. 16/ 27.
1. Tim. 1/ 17.

# Openberan S. Johañis Theologi

## I. Capitule.

Þeir Siø Gull-legu Lioosa-Stiakar.

Openberan Jeſu Chriſti /
hvøria Gud gaf honū/
ad kuñgiøra þioonū ſijn-
um þa hlute/ * hvørium
byriar ad ſkie iñañ ſkam̄s.
Og hñ teiknade þad/ ſend-
ande fyrer ſiñ eingel til þienara ſijns
Johañis/ * v. 19. c. 22. 6/ 7.
2 Sem hefur vitnad * þad ord Guds/
og þañ vitnesburdeñ Jeſu Chriſti / og
** hvøria hellſt hlute hañ hefur ſied.
* C. 6/ 9. ** 1. Joh. 1/ 1.
3 * Sæll er ſa/ ſem les/ ⁊ þeir/ ſm̄ hey-
ra ord ſpadoomſens/ og vardveita ſkrif-
ada hlute i honum / * * þvi tijmeñ er
nalægur. * c. 22/ 7. ** Rom. 13/ 11.
4 Johañes / þeim ſiø ſøfnudum / ſem
eru i Aſia. Nad (ſie) med ydur/ og frid-
ur/ af þeim/ (ſm̄ he itei :) * Hañ ſm̄ er/
og hañ ſem var/ og hoñ ſm̄ kiemur/ og
af þeim ſiø øndum/ ſm̄ eru fram̄e fyrer
hans ſtoole/ * 1. Moſ. /14. Ebr. 13/ 1.
5 Og af Jeſu Chriſto / ſm̄ er trur *
vottur/ ſa + frumgietne af daudum/ og
høfdinge konunga jardarenar / ſm̄ * *
elſkade oſſ/ og + + þvode oſſ af ſyndum
vorum med ſijnu bloode/ * c. 3/ 14. etc.
+ P. G.

✠ P. G. 26/ 93. etc. ✠✠ Gal. 2/ 20.
✠✠ Ebr. 9/ 14. etc.
6 Og * giørde oss til konga og kieñe
mañ a fyrer Gude Fødur sijnum/ Honū
(sie) dyrd og kraptur um̄ allder allda/
amen. * 1. Pet. 2/ 5.
7 Sia hañ kiemur med skyiunum/ og
sierhvørt auga * mun sia hañ/ ꝛ þeir/
sm̄ hañ i giegnum stungu / og allar kyn
kvijsler jardareñar munu kveina / ia /
amen. * Zach. 12/ 10.
8 Eg * em alpha og omega/ (þad er)
upphaf og ender/ seiger Drottēn: sa sm̄
er/ og sa sem var/ og sa sm̄ kiemur/ sa
Almattuge. * Openb. 22/ 13.
9 Eg Johañes/ sm̄ og er brooder ydar
og * samhluttakare i þreingingūñe/ og i
rijkenu / og i þolenmæde Jesu Christi /
var a þeirre eyu/ sem kallast Pathmos/
saker ords Guds/ og vegna vitnesburdar
Jesu Christi. * Rom. 8/ 17.
10 Eg var i anda a Drottens dege/ og
heyrde a bak mier raust mikla / sm̄ eirn-
rar basunu/
11 Sem sagde: * eg em alpha ꝛ omega
sa fyrste ꝛ sijdaste/ Og þad þu sier/ þad
skrifa þu i eina book/ ꝛ send til þeirra
safnada/ sm̄ eru i Asia/ til Ephesum/
ꝛ til Smyrnam/ ꝛ til Pergamum og til
Thyatira/ ꝛ til Sarden / ꝛ til Phila-
delphiam / og til Laodiceam.
* C. 22/ 13. etc.
12 Og eg snere mier vid ad sia raust-
ena/ sm̄ talade vid mig. Og þa eg snere
mier vid/ sa eg * sio liosastiaka gullega
* 2. Mos. 25/ 37.
13 Og * mitt a mille þra sio lioosa-
stiaka / eirn ** lijkañ mañsens syne/ i
klæddañ (skoo-)sijdum kyrtle/ ꝛ spentañ
um̄ briostenū gullegu bellte.
* C. 2/ 1. ** Ezech. 1/ 26.
14 Eñ hn̄s hofud og hærlockar voru
hvijter sm̄ hvijt ull/ so sm̄ snioor/ ꝛ hn̄s
augu / so sem elldsloge.
15 Og hañs fætur / sm̄ fagurt latun/
eins og (þeir være) i ofne glooande.
Og hañs * raust / sem nydur margra
vatna. * C. 14/ 2.
16 Og hafde i siñe hægre hende sio
stiørnur. Og þar utgieck af hn̄s muñe
eitt tvyeggiad beitt sverd/ ꝛ hn̄s andlit
(var) sem soleñ / nær hun skijn sm̄ allra
fegurst.
17 Og er eg sa hn̄/ fiell eg nidur fyr-
er fætur hn̄s/ sm̄ daudur. Og hn̄ lagde
sijna hægre hond yfer mig/ seigiande til
mijn: ottast ecke/ eg em sa fyrste ꝛ hiñ
sijdaste.
18 Og * sa lifande/ og eg var daudur/
og sia / eg em lifande um allder allda/
amen / Og eg hefe likla helvijtes og
daudans. * Rom. 6/ 9.
19 * Skrifa þu þa hlute/ sm̄ þu hef-
ur sied/ ꝛ þa sm̄ eru/ og ** þa sm̄ munu
skie hier epter. * C. 14/ 13. ** C. 4/ 1.
20 Sa leindardoomur þra sio stiarna/
hvøriar þu hefur sied i miñe hægre
hende / ꝛ þeir sio gullegu lioosastiakar/
Þær sio stiørnur/ eru * einglar sio safn-
ada/ og þeir sio lioosastiakar / sem þu
hefur sied/ eru sio søfnuder. * Mal. 2/ 7

II. Capitule.

Brief til Eingla Safnadañа i Ephe-
so/ Smyrna/ Pergamo og Thyatiris.

Þeim eingle safnadarens i Ephe-
so / skrifa þu: þessa hlute
seiger sa * / sm̄ helldur þeim sio
stiørnū stadfastlega i siñe hæg-
re hende / hañ sm̄ geingur midt a mille
þeirra sio gullegu lioosa-stiaka/
* C. 1. 13/ 16/ 20.
2 Eg veit þijn * verk/ ꝛ þitt erfide/ og
þijna þolenmæde / og ad þu kant ei ad
umlijda hina vondu/ og þu ** reinder
þa / sem seigia (sig) ad vera postula/
og eru ecke / og fanst þa liugara.
* 1. Thess. 1/3. ** 1. Joh. 4/ 2.
3 Og þu leidst (þad) og hefur þolen-
mæde / og erfidader fyrer mijns nafns
saker/ og þreyttest ecke.
4 Eñ * eg hefe (þad) i mooti þier/ ad
þu hefur þiñ fyrsta kiærleika yfergief-
ed. * C. 2 14/ 20.
5 Minstu þar fyrer / hvar fra þu ert
falleñ / og * gior ydran / og gior þau
fyrstu verk / Eñ verde (þad) ecke/
þa kiem eg til þijn snarlega/ ꝛ vil færa

þinn lioosa-stiaka ur sijnu stad / ef þu ecke ydran giorer. * Matth. 3/ 2.

6 Enn þetta hefur þu/ad þu * hatar verk * * Nicolaitanna/ hvør eg og hata.
* Ps. 139. 21/ 22. ** Openb. 2/ 15.

7 Sa sem * hefur eyra/hann heyre/ hvad Andenn seiger søfnudunum / Honum sem yfervinnur / vil eg giefa ad eta af lijfsens trie / sem er midt i paradijs Guds.
* Matth. 11/ 15.

8 Og þeim eingle safnadarens i Smyrna skrifa þu: þessa hlute seiger * sa fyrste og sijdaste/sem var daudur/og er ordenn lifande. * c. 22/ 13 etc.

9 Eg veit þijn verk/og þreinging og fatækt / þo þu siert rijkur / og gudlastan þeirra/sem * seigia sig sialfa Juda ad vera/ og eru þo ecke/ helldur samkunda satans. * c. 3/ 9.

10 Ottastu * ecke fyrer þeim hlutum / sem þu munt lijda/Sia/ diøfullenn mun kasta (nockrum) af ydur i fangelse / uppa pad þier freistader verded / og hafed þreinging i tiju daga. Vertu * * trur allt til daudans / og mun eg giefa þier koronu lijfsens. * Matth. 10/28.
** Openb. 3/ 11.

11 Sa sem * hefur eyra/ hann heyre/ hvad Andenn seiger søfnudenum: sa sem yfervinnur / þeim skal eckert mein skie af þeim ødrum dauda. * Matth. 11/ 15.

12 Og eingle þess safnadar i Pergamo skrifa þu: þessa hlute seiger sa/ * sem hefur pad tvieggiada bitra sverd:
* Ebr. 4/ 12

13 Eg veit þijn verk/ og hvar þu bijr/ þar sem er * sæte satans/og þu * * helldur vid nafn mitt/og afneitader ecke tru minne/ jafnvel a þeim døgum/ a hvørium Antipas minn trur vottur var/sem var i hel sleigenn hia ydur/þar sem satan bijr. * c. 13/ 2. ** c. 3/ 8.

14 Enn eg hefe (nockra) fæeina hlute a moote þier/ad þu hefur þar þa/sem * hallda vid lærdoom Balaams / hvør ed kiende Balak / ad setia hneixle fyrer sonu Israels ad eta skurgoda forner/ og drijga hoor. * 4. Mos. 25/2. c. 32/16.
2. Pet. 2. 15/ 16. Jud. v. 11.

15 So hefur þu og þa / sem hallda vid lærdoom * Nicolaitanna/ hvad eg hata.
* v. 6.

16 Giør ydran/ Enn ef (pad skier) ecke/ kiem eg snarlega til þijn/og skal * strijda vid þa med sverde mijns munns.
* C. 19. 15/ 21.

17 Sa sem hefur eyra/hann heyre hvad Andenn seger samkundunni: þeim sem yfervinnur / honum vil eg giefa ad eta af þvi foolgna manna/ og eg vil giefa honum eitt hvijtann stein / og a steinenn eitt nijtt nafn skrifad/hvørt eingenn þecker/ utann sa pad med tekur.

18 Og eingle þess safnadar i Thyatiris skrifa þu: þessa hlute seiger Sonur Guds/sa ed hefur augu sijn/so sem elldsloga/og hans fætur so sem fagurt latun.

19 Eg * veit þijn verk/ og kiærleika/ og þionustu/og tru/og þijna þolenmæde/ og þijn verk/ og þau sijdustu fleire enn þau fyrstu. * v. 2/9/ 13.

20 Enn * eg hefe (nockra) fæeina hlute i moote þier/ad þu lætur þa kvinnu ** Jesabel/ sem seiger sig sialfa (ad vera) eina spakonu/kienna/og villa mijna þioona til ad drijga hoor / og eta skurgoda foorner. * v. 4. ** 1. Kong 16/31.

21 Og eg hefe * giefed henne tijma/ ad hun skillde snua sier fra sijnu hoordoome/og hun hefur ecke ydrast.
* Spek. 12/ 10. Rom. 2/ 4.

22 Sia/ eg kasta henne i reckiu/og þa/ sem drijga * hoor med henne/i stoora hørmung / nema þeir snue sier fra verkum sijnum. * c. 18/ 9.

23 Og hennar børn vil eg dauda deyda. Og allar samkundurnar skulu þeckia/ad * eg er sa/ sem ransaka nijrun og hiørtun/ og mun giefa ydur/ sierhvørium epter verkum ydar. * Ps. 7/ 10. etc.

24 Enn eg seige ydur/og hinum ødrum/ sem eru i Thyatiris/ hvørier ecke hafa þennan lærdoom/og þeir sem ecke þeckia diup satans/ so sem ad þeir seigia: eg vil ecke kasta a ydur ødrum þunga.

25 Þo * hvad þier hafed hallded þvi/ þar til eg kiem. * c. 3/ 11.

26 Og

26 Og sa/ sem yfervinnur/ og vardveiter
allt til enda verk mijn/ * honum mun eg
giefa valld yfer heidingiunum. * Ps. 2/8
27 Og hann skal * stijra þeim med jarn-
vende / so sem leyr-ker skulu þeir sund-
urmolast/ so sem eg og * * hefe medteked
af mijnum Fodur. * C. 12/ 5.
** Luc. 22. 29.
28 Og eg mun giefa honum morgun-
stiørnuna.
29 Sa sem * hefur eyra/ hann heyre/ hvad
Andenn seiger samkundunum. * C. 3/ 6.

III. Capitule.

Bref til Safnadanna Eingla i Sar-
des/ Philadelphia og Laodicea.

Og eingle þess safnadar i Sar-
des/ skrifa þu : þetta seiger
sa / sem hefur þa sio anda
Guds/ og þær * sio stiørnur :
eg veit þijn verk/ ad þu hefur þad nafn/
ad þu lifer / og ert dauður. * C. 1/ 16.
2 Vert vakande/ og styrk þa adra hlute/
sem deya vilia / þvi eg hefe ecke funded
þijn verk fullkomenn fyrer Gude.
3 Minnstu þess vegna/ hvornenn þu hef-
ur medteked og heyrt/ og vardveitt (þad)
og * gior ydran. Ef þu villt nu ecke
vaka/ * * mun eg koma yfer þig/ so sem
þioofur/ og þu skallt ecke vita a hvorre
stundu eg mun koma yfer þig. * C. 2/ 5.
* * 1. Thess. 5/ 2. etc.
4 Þu hefur og faar personur i Sardes/
sem ecke hafa saurgad klæde sijn / og þær
munu ganga med mier i hvijtum (klæd-
um/) þvi þeir eru verduger (þess.)
5 Sa sem yfervinnur/ hann skal skrydast
hvijtum skruda / og eg mun ecke afmaa
nafn hans af * book lijfsens/ og mun vid-
urkienna hans nafn fyrer mijnum Fodur
og fyrer einglum hans. * Phil. 4/ 3. etc.
6 Sa sem * hefur eyra/ hann heyre/ hvad
Andenn seiger samkundunum. * C. 2/ 29.
7 Og eingle þess safnadar i Philadel-
phia/ skrifa þu : þessa hlute seiger hinn
heilage/ sa sanne / sa sem * hefur lykelenn
Davids / hver ed upplijkur / og eingenn
apturlokar/ hver ed apturlokar/ og eing-
enn upplijkur. * Joh. 12/ 14.

8 Eg * veit þijn verk/ sia / eg liet fyrer
þier dyr opnar/ og eingenn kann loka þeim/
þvi þu hefur lijtenn krapt/ og hefur vard-
veitt mitt ord/ og afneitader ecke nafne
mijnu. * C. 2. 2/ 5.
9 Sia/ eg mun giefa (þa) ut af sam-
kundu satans / sem seigia sig sialfa *
Juda ad vera/ og eru ecke/ helldur liuga :
sia/ eg vil giora þeim/ ad þeir kome/ og
tilbidie fyrer þijnum footum / og þecke
þad / ad eg hefe elskad þig * C. 2/ 9.
10 Med þvi þu geimder ord minnar þol-
inmæde / mun eg eirnenn þig vardveita
fra stund freistingarennar/ sem koma mun
yfer alla heims bygdena / til ad freista
þeirra sem a jordu bua.
11 Sia/ eg kiem snarlega / Halltu þvi
þu hefur / so þad eingenn take þijna
koronu.
12 Sa sem * yfervinnur / þann mun eg
giora ad stolpa i musterе Guds mijns/
og hann mun ei framar utganga/ og eg
mun skrifa a hann nafn Guds mijns/ og
nafn borgar Guds mijns / þeirrar nyju
Jerusalem/ hver ed ofann kiemur af him-
ne fra Gude mijnum / og mitt þad hid
nyja nafn. * C. 2. 7/ 11/ 17.
13 Sa sem * hefur eyra/ hann heyre/ hvad
Andenn seiger samkundunum. * C. 2/ 7.
14 Og eingle þess safnadar i Laodicea
skrifa þu : þessa hlute seiger : a (sem
heiter) amen/ sa true og * sanne vottur/
(sem er) upphaf skiepnu Guds
* C. 1/ 5 C. 3/ 7.
15 Eg * veit þijn verk/ ad þu ert hvor-
ke kalldur nie heitur/ Eg villde þu vær-
er kalldur eda heitur. * C. 2. 2/ 9/ 13/ 19.
16 Enn med þvi þu ert volgur/ og hvor-
ke kalldur nie heitur / skal eg utspyta
þier af mijnum munne.
17 Þvi ad þu seiger : * eg em rijkur /
og er ordenn audugur / og hefe einkes
þorf/ og þu veist ecke/ ad þu ert vesall
og aumur/ og fatækur/ og blindur og
nakenn. * 1. Cor. 4/ 8.
18 Eg ræd þier/ ad þu kauper gull af
mier * (sem er) eldt af ellde/ ad þu kunn-
er verda rijkur/ og * * hvijt klæde/ ad þu

klædest þeim / ad ecke openber verde
Bligdan þijns fatleises / og smyr þijn
augu med augna-smyrslum / so ad þu
siaer. * 1. Pet. 1/ 7. ** Openb. 16/ 15.
19 Hvoria hellst * eg elska/ þa straffa
eg og typta. Verk þvi vandlætinga-
samur / og giør ydran. * Job. 5/ 17.
Ordsk. 3/ 12. Ebr. 12/ 6. Jak. 1/ 12.
20 Sia/ eg stood * fyrer dyrunum/og
klappa uppa / Ef nockur heyrer mijna
rødd/ og upplijkur dyrunū/ til hans mun
eg inganga/ og kvølldverd med hønum
hallda/ og hañ med mier. * Lopk. 5/ 2.
21 Sa sem yferviñur / hønū * vil eg
giefa ad sitia med mier a mijnū stoole /
lijka sem eg hefe og yferuñed / og sett
mig hia mijnū Fødur a hans stoole.
* Matth. 19/ 28.
22 Sa sem hefur eyra/ hañ heyre/ hvad
Andeñ seiger samkundunum.

## IV. Capitule.

### Þeir XXIV. Ølldungar tilbidia þañ sem situr a Stoolnum.

Epter þetta sa eg/ og sia/ (þar
voru) dyr upplæknar i himnen
um/ og hin * fyrsta rødden /
hvøria eg hafde heyrt/ so sem
eirntar basunu / er talade vid mig/ hun
sagde: stijg upp hijngad / og eg vil sijna
þier þa hlute / sem eiga ad skie hier
epter. * c. 1/ 10.
2 Og safnsnart var eg i anda / Og
sia / eirn stooll var settur a himeneñ /
og a stoolnum sat eirn.
3 Og * sa sem sat/ var lijkur tilsijndar
steinenū jaspis og sardis/ og (þar var)
regnboge allt i kringū stooleñ/ lijkur til-
sijndar smarago. * Ezech. 1/ 26.
4 Og allt i kringum stooleñ (voru)
tuttugu og fioorer stoolar/og a stoolunū
sa eg * tuttugu og fioora ølldunga sit-
iande/ skrijdda hvijtum klædum/ og þeir
høfdu a sijnū høfdum gull-koronur.
* C. 11/ 16.
5 Og af stoolnū utgeingu * elldingar/
og reidar þrumur/ og radder/og siø blis
med ellde brunu frame fyrer stoolnum/
sem eru þeir siø andar Guds. * c. 11/ 19.
6 Og frame fyrer stoolnū var eirn *
gler-sioor/ lijkur cristall/og midt a stool
num/og i kringū stooleñ/ fiogur dijr/ full
af augum i fyrer og a bak. * c. 15/ 2.
7 Og þad fyrsta dijred (var) lijkt * le-
one/ og hid añad dijred (var) lijkt kalfe/
og hid þridia dijred hafde anlit so sem
madur / og hid fioorda dijred var lijkt
fliugande erne. * Ezech. 1/ 10.
8 Og þau fiogur dijr/ hvørt fyrer sig/
hafde hvørt eitt sex vænge allt um
kring / og (þau voru) iñañ til full af
augū/ og høfdu ei hvijld dag nie noott /
seigiande: * heilagur/ heilagur/ heilag-
ur / Drotteñ Gud sa Almattuge / sa
sem var/ og sa sem er / og sa sem kiem-
ur. * Es. 6/ 3.
9 Og er dijreñ skylldu giefa (hønum)
dijrd og heidur og þackargiørd/ sem sat a
stoolnū/ hønū sem lifer um allder allda:
10 Þa skilldu framfalla þeir tuttugu
og fioorer ølldungar fyrer þeim sem sat
a stoolnū/ og tilbidia hañ/ * sem lifer um
allder allda / og snara sijnum koronum
fram fyrer stooleñ / seigiande: Drott-
eñ/ * c. 15/ 14.
11 Þu * ert verdugur ad medtaka dijrd
og heidur og krapt / þvi ** þu hefur
skapad alla hlute / og fyrer þiñ vilia eru
þeir/ og eru skapader. * c. 5/ 12.
** C. 10/ 6.

## V. Capitule.

### Lambed upplijkur þeirre iñsiglūdu Book.

Og eg sa i hægre hende þess/ *
sem sat a stoolnū/ eina book/
** skrifada iñañ og utañ/ iñ-
siglada med siø iñsiglum.
* C. 4/ 2. ** Esa. 29/ 10.
2 Og eg sa * eirn sterkañ eingel / sem
predikade med mikellre raust: hver er
verdugur ad uppluka bookeñe / og
brioota heñar iñsigle? * c. 10/ 1.
3 Og eingeñ kuñe a himne/ nie a jørdu/
nie under jørduñe ad uppluka bookeñe/
ecke helldur sia hana.
4 Og eg griet miøg / ad eingeñ vard
verdugur fundeñ ad uppluka / og lesa

hit

bokena/ nie ad lyka i hana.
5 Og einn af olldungunum seiger til
min: graat þu ecke/ sia/ leoned hefr yf-
erunned/ * s er af ætt Juda/ su * * root
Davids/ til ad opna bokena/ og briota
hennar sio innsigle. * 1. Mos. 49/ 10.
** Es. 11. 1/ 10.
6 Og eg saa/ og sia/ midt a mille stool
sens og þeirra fiogra dyra/ og midt a
mille olldunganna stood eitt lamb eins
sem slatrad/ sem hafde sio horn og sio
augu/ hvor ad eru þeir sio andar Gu
ds/ sem eru utsender um oll lond.
7 Og þad kom/ og took bookena ur *
hægre hende þess/ sem sat a stoolnum.
* C. 4. 2/ 9.
8 Og er þad hafde teked bookena/
fiellu þau fiogur dyrenn/ og þeir fioorer
og tuttugu * olldungar fram fyrer
Lambenu/ ** hafande sierhvor horpur
og gullskaaler fullar med reykelse/ hvor
ad eru bæner heilagra. * Es. 24/ 23.
** Openb. 14/ 2. † C. 8/ 3.
9 Og þeir sungu * nyian saung/ seig-
iande: þu ert verdugur ad medtaka book-
ena/ og opna hennar innsigle/ þvi ad þu ert
slatradur/ og hefur endurkeypt oss Gude
med þinu bloode / af ollum kynkvislum/
og tungumaalum/ og foolke/ og heiding-
ium/ * C. 14/ 3.
10 Og giort oss * Gude vorum til kon-
unga og kiennemanna / og vier munum
rikia yfer jordunne. * C. 1/ 6.
11 Og eg saa og heyrde rodd * margra
Engla/ umhverfes stoolenn/ og dyrenn/ og
olldungana/ og ** þeirra tala var tiu
þusund sinnum tiu þusunder/ og þusund
þusunda. * C. 7/ 11. ** Dan. 7/ 10.
Ebr. 12/ 22.
12 Sem sogdu med stoorre raust: *
verdugt er ** Lambed/ s er slatrad/ ad
medtaka krapt/ og rikdoom/ og vitsku/
og styrk/ og dyrd/ og heidur/ og blessan.
* C. 4/ 11. C. 7/ 10. ** C. 13/ 8.
13 Og * sierhvoria skepnu/ sem er a
himne/ og a jordu/ og under jordunne/ og i
sioonum/ þa hlute/ sem eru/ og þa hlute/
sem eru i þeim / heyrda eg seigia: þeim
sem situr a stoolnum/ og Lambenu/ (sie)
blessan / og dyrd/ og heidur/ og styrkur
um allder allda. * Ps. 148/ 1. etc.
Phil. 2/ 10.
14 Og þau fiogur dyrenn sogdu: *
amen. Og þeir tuttugu og fioorer olldung
ar fiellu fram/ og tilbaadu þann/ sem lif-
er um allder allda. * C. 19/ 4.

## VI. Capitule.

### Þaug Sex Innsigle eru opnud.

Og eg saa/ ad Lambed opnade eitt
af innsiglunum / og eg heyrde
eitt af þeim fioorum dyrum
um seigia/ lyka sem raust reid
arþrumu: kom og sia.
2 Og eg saa/ og sia/ einn hvitur hestur/
og sa sem sat a honum hafde einn boga/
og honum var giefenn korona / og hann
foor ut og yfervann / og ad hann skyllde
yfervinna.
3 Og þa þad opnade hid annad innsigl-
ed / heyrda eg hid * annad dyred seigia :
kom/ og sia. * C. 4/ 7.
4 Og þar gieck ut annar hestur/ * raud-
ur / og þeim er sat a honum var giefed i burt
ad taka frid af jordu/ so hvorier dræpu
adra / og honum var giefed eitt stoort
sverd. * Zach. 1/ 8.
5 Og þa þad opnade hid þridia innsigl-
ed / heyrda eg hid * þridia dyred seigia:
kom/ og sia. Og eg saa/ og sia/ einn brunn
hestur / og sa sem sat a honum / hafde
met i sinne hende. * C. 4/ 7.
6 Og eg heyrde eina raust / a medal
þeirra fiogra dyra * seigande: eitt mæl
er hveites fyrer einn pening / og þry
mæler af byggs fyrer einn pening / Og
vidsmiorenu og vininu skalltu ecke skada
giora. * C. 9/ 4.
7 Og þa þad opnade hid fioorda inn-
sigled/ heyrde eg * rodd hins fioorda dyr-
sens seigiande. kom og sia. * C. 4/ 7.
8 Og eg saa og sia/ einn bleikur hestur/
og sa sem sat a honum/ hiet * daude/ og
helvijte fylgde honum. Og honum var
giefenn magt yfer þeim fioorda parte
jardarennar/ ad deyda med sverde/ og med
hungre/ og med drepe/ og fyrer dyrenn a
jordunne. * C. 20/ 14.

9 Og þa þad opnade hid fimta iñsigl
ed / sa eg under * altarenu saaler þra/
hvorium slatrad var fyr er Guds ords
saker/ og saker þess vitnesburdar/ sem
þeir hofdu. * c. 8/ 3. c. 9/ 13.
10 Og þær * kolludu med mikellre
raust/ seigiande: Drottenn/ þu hiñ hei-
lage og sañarlege/ hvørsu leinge dæmer
og hefner þu ecke vors bloods a þeim /
sem bua a jørduñe? * Luc. 18/ 7.
11 Og þeim sierhvørium einum voru
giefner * hvyter kyrtlar / og til þeirra
var sagt / ad þeir skylldu hvijla sig eñ
nu nockra stund/ þangad til þeirra sam
þioonar / og þeirra brædur kiæmu og
fullkomlega (þar til/) hvorier lijflat-
ner munde verda/ eins og þeir.
* L. 3/ 5. C. 7/ 9.
12 Og eg sa/ þa þad opnade hid siøtta
iñsigled/ og sia/ þar vard * stoor jard-
skialfte/ Og ** soolenn vard svørt sem
hærusecku r/ og tungled vard sem blood.
* C. 16/ 18. ** Joel. 2/ 10.
13 Og stiørnur himensins hrundu a
jørdena / sem þa eitt fijkiu-trie feller
sijnar ofullvoxnu fijkiur / nær þad af
miklum vinde hristest.
14 Og himenenn * veik i burt / sem ein
book/ hvør samañ er vafenn / og hvørt
fiall og ey hrærdust ur sijnu stødum.
* Ps. 102/ 27.
15 Og kongar jardarennar/ og stoor-høfd
ingiar / og hiner rijku / og høfudsmeñ
yfer þusund/ og þeir vollduga/ og hvør
þræll/ og hvør frelsinge földu sig siaal-
fa i holum & i klettum fiallanna/
16 Og * sogdu til fiallaña og klett-
aña: falled yfer oss / og hyled oss fyrer
auglite þess/ sem situr a stoolnum / og
fyrer reide Lambsens * Luc. 23/ 30. etc.
17 Þviad hiñ mikle dagur hañs reide er
komeñ/ og hvør fær stadest?

## VII. Capitule.

Þær Hundrad/ Fiorutiju og Fioorar
Þusunder verda iñsigladar.

(Lectiañ a Allra Heilagra Messu.)

Og epter þetta sa eg fioora eing-
la standa a fioorum hornū jard-
areñar/ sem hielldu fioorū vindum
jardareñar / so þar skyllde ecke blaasa
vindur a jørdena / nie a sioenn / nie a
nockurt trie.
2 Og eg sa añañ eingel uppstijga fra
uppgaungu soolar / sem hafde iñsigle
Guds lifanda/ Og hañ kallade med mikell
re raust til þeirra fiogra eingla/ hvøriū
giefed var ad granda jørduñe & sioonū.
3 Seigiande: granded ecke jørdeñe nie
sioonum / nie triaanum / * þangad til
vier faaum iñsiglad þioona Guds vors i
(enn)ne þeirra eñum. * Ezech. 9/ 4. etc.
4 Og eg heyrde tølu þeirra / sem voru
iñsiglader/ hundrad fiorutiju (og) fioor
ar þusunder iñsiglader / af øllum kyn-
kvijslum Israels sona.
5 Af kyne Juda/ toolf þusunder iñsigl-
ader/ Af kyne Ruben/ tolf þusunder iñ
sigladet/ Af kyne Gad / toolf þusund-
er iñsiglader.
6 Af kyne Aser / toolf þusunder iñ-
sigladet/ Af kyne Nephthalim/ toolf þu
sunder iñsiglader / Af kyne Manasse /
toolf þusunder iñsiglader.
7 Af kyne Simeon/ toolf þusunder iñ
siglader/ Af kyne Levi/ toolf þusunder
iñsiglader / Af kyne Jsaschar / toolf
þusunder iñsiglader.
8 Af kyne Sabulon / toolf þusunder
iñsiglader/ Af kyne Josephs/ toolf þus-
under iñsiglader / Af kyne Benjamin/
toolf þusunder iñsiglader.
9 Þar epter sa eg / og sia / eirn stoor
skare/ hvørn eingeñ fieck taled/ af øllū
heidingiuñ/ og ættum / og foolke / og
tungumaalum / sem stoodu frame fyrer
stoolnum og frame fyrer Lambenu /
skrydder * hvijtū (sijdum) klædum / og
paalmavider i þra høndum. * c. 6/ 12.
10 Og sm hroopudu med mikellre rødd/
seigiande: heill a sie Gude vorum/ sm sit
ur a stoolnum/ & Lambenu.
11 Og aller * einglar stoodu umhverfes
stooleñ/ & øldungana/ & þau fiogur dijr
eñ/ & fiellu nidur frame ꝥ stoolnū a sijn
ar asioonur/ og tilbaadu Gud/ * c. 5/ 11.
12 Og sogdu: Amen/ * blessan/ og heid-
ur/ og speke/ og þackargiørd/ og dijrd/
og

vg magt / og styrkur (sie) Gude vorum/
um alder allda/ amen.) * c. 5/ 12.
13 Og eirn af ølldungunū svarade/ seig
iande til mijn: þesser/ sem eru skrydder
þeim (sijdu) hvijtu kyrtlum/ hvorier eru
þeir? og hvadan eru þeir komner?
14 Og eg sagde til hans: Herra/ þu*
veist (þad.) Og hn̄ sagde til mijn: þess
er eru þeir/ sem eru komner ur þre stooru
þreingingu/ z hafa þvegid sijna (sijdu)
kyrtla/ og hvijtfægad sijna (sijdu) kyrtla
** i bloode Lambsens. * Joh. 21/ 15.
** Ebr. 9/ 14.
15 Þar fyrer eru þeir frame fyrer stoo-
le Guds / og dyrka hañ dag og nott i
hans mustere / og sa/ sem situr a stooln-
um/ mun skyla þeim.
16 * Þa mun ecke hungra framar/ nie
þyrsta framar/ sooleñ mun ** ei hello-
ur yfer þa falla / nie nockur ofurhite.
* Es. 49/ 10. ** Ps. 121/ 6.
17 Þvi* Lambed/ sem er midt a stooln-
um mun fæda þa / og ** leida þa til
lifande vatns bruña / og + Gud mun af
þerra øll taar af þeirra augum.
* c. 5/ 6. ** Ps. 23/ 2. + Es. 25/ 8.
Openb. 21/ 4.

## VIII. Capitule.

Þad Siounda Iñsigle verdur opnad.

Og þa þad opnade hid siøunda
iñsigled/ giørdest * kyrd a him-
ne hier um̄ hálfa stund.
* Es. 32/ 17.
2 Og eg sa þa sio eingla / sem fyrer
Gude stoodu/ og þeim voru giefnar * sio
bæsunur. * 1. Cor. 15/ 52.
3 Og añar eingell kom/ og stood vid al-
tared/ sem hafde eitt gulllegt reykelses
ker / og honū voru giefeñ mikel reykel-
se/ ad hn̄ giæfe til bæna allra heilagra
uppa gull altared / sem er framm fyrer
stoolnum.
4 Og reikur * reykelsesens upp stie
(til) bæna þeirra heilogu af hende ein-
gelsens fyrer Gude. * Ps. 141/ 2.
5 Og eingelleñ took reykelses-kiered/
og fillte þad med * elld altaresens/ og
kastade (þvi) a jordena. Og þar urdu
reidar þrumur og ** radder/ og elldinge
ar og jardskialftar. * P. G. 42/ 1. etc.
** Openb. 4/ 19.
6 Og þeir sio einglar/ sem høfdu þær
sio bæsunur/ høfdu tilbued sig sialfa /
ad þeir skylldu bæsuna.
7 Og sa fyrste eingell bæsunade / og
þar vard hagl og elldur blandadur med
bloode/ og þvi vard kastad a jordena/ og
pridie partur triaña brañ upp/ og allt
græna grased brañ upp.
8 Og sa añar eingell bæsunade/ og þar
vard sem einu stooru fialle / sem af ellde
breñur / kastad i siooeñ / og pridiungur
siafarens vard blood.
9 Og pridie partur af skiepnunum
drapst / sem voru i hafenu / sem høfdu
lijf / og pridie partur af skipunum
fyrerfoorust.
10 Og hiñ pridie eingell bæsunade/ og
þar fiell af himnenū * stiarna mikel /
logande sem blis / og fiell yfer pridia
parteñ af fliootunū / og yfer vatns
bruñana. * c. 9/ 1.
11 Og nafn stiørnuñar kalladest mal-
urt / og pridie partur af vøtnunum
vard ad malurt/ og marger meñ doou af
vøtnunū/ þvi þau voru rom̄ ordeñ.
12 Og hiñ fioorde eingell bæsunade /
og pridiungur (af) sooleñe vard sleigeñ/
z pridiungur (af) tunglenu/ og pridiung
ur (af) stiørnunū / so ad formyrkvadest
pridiungur (af) þeim/ og dagureñ lijste
ecke siñ pridia (part/) og noottiñ i sa-
ma maata.
13 Og eg sa og heyrde eirn eingel fliu-
ga midt i giegnū himeneñ/ seigiande med
mikellre raust: * vei/ vei/ vei þeim/ sem
bua a jørdu / fram yfer þær adrar bæ-
sunu radder þeirra þriggia eingla/ sem
bæsuna munu. * c. 9/ 12. c. 11/ 14.

## IX. Capitule.

Þad fyrsta Vei kiemur yfer þa/ sem a
Jørdu bua.

Og hiñ fimte eingell bæsunade/
og eg sa * eina stiørnu (vera)
fallna af himne a jørdena /
og honum vard giefeñ lijkell
ad

ad* * pitte afgrunnsens. * c. 8/ 10.
** C. 17/ 8.
2 Og hann upplauk pitte afgrunnsens/
og þar uppgieck reikur af pittenū / so
sem reikur eins mikels ofns / og sooleñ
og loptid * formyrkvadest af reik pitt-
sens. * C. 8/ 12.
3 Og ut af reiknū komu * grashoppr
a iordena/ z þm̄ vard giefeñ magt/ eins
sem magt hafa scorpionar jardareñar.
* 2. Mos. 10/ 14. etc.
4 Og þar vard sagt til þeirra/ad þær
skilldu ei granda grase jardareñar / nie
nockru grænu / nie nockru tre / helldur
þeim moñum alleina / sem ecke hafa
þetta * innsigle Guds i synū eñum.
* C. 7/ 3.
5 Og þad vard giefed þeim / ad þær
skilldu ecke aflyfa þa / helldur ad þær
skilldu kvelia i fim̄ manude / og þeirra
kvøl var sem eins scorpions kvøl / nær
hañ styngur mañ.
6 Og a þ ū somu døgum * munu meñ
leita daudans/ z ei fiña hañ/ og gyrnast
ad deyia / og daudeñ mun flya fra þm̄.
* Luc. 23/ 30. etc.
7 Og * myndter grashoppnaña (voru)
lykar hestum/ er buner eru til bardaga/
z a hofdum þeirra/ sem koronur/ lykar
gulle / og þeirra andlit sem maña and-
lit. * Joel. 2/ 4.
8 Og þær høfdu locka/so sm̄ kveñahaar
locka / og þra teñur voru so sem leona.
9 Og þær høfdu bryniur / sem iarn-
brynıur/ og þytur þra vængia / so sem
* gnyr vagna/nær marger hestar hlau-
pa (fyrer þeim) i striid. * Jer. 47/ 3.
10 Og þær høfdu hala/ sm̄ scorpion-
ar/ z þar voru broddar i þeirra hølū /
Og þra magt (var) til ad granda møñ-
unū i fim̄ manude.
11 Og þær høfdu kong yfer sier / *
þañ eingel afgrunnsens / hñs nafn er a
ebræsku abaddon / og a grysku hefur hñ
nafn apollyon. * v 1.
12 Þad eina * vei er umlided/siaa/ þar
koma eñ tvo vei epter þetta. * c. 8/ 13.
13 Og hiñ siøtte eingell basunade / og
eg heyrde eina rødd ut af fiorū horn-
um gull-altaresens/sem var frañe fyr-
er Gude/
14 Hvør ed sagde til hins siøtta eing-
els/er hafde basunuña : * leys þa fiora
eingla / sem bundner eru hiaa þvi mikla
stroote Euphrates. * c. 20/ 7.
15 Og þeir fiorer einglar urdu laus-
er/sm̄ voru reidubuner til stundar / og
dags/og manadar/ z ars/ ad þeir lyf-
letu þridiung(af)moñunum.
16 Og tala ryddaralidsens * var tvis-
var siñum tyu þusunder tyu þusunda/
z eg heyrde þeirra tølu. * Ps. 68/ 18.
Dan. 7/ 10.
17 Og so saa eg hestana i syn/og þa/er
saatu a þeim / sm̄ høfdu gloodande / og
heidblaar/og breñesteinslegar brynıur/
og høfud hestaña (voru) sm̄ leona høf-
ud/ og ut af þeirra muñum gieck elldur
og reikur og breñesteiñ.
18 Af þessu þreñu vard þridiungur
(af)moñunum i helsleigeñ / af elldenū/
og af reiknum/ og breñesteinenum/ sem
utgieck af muñum þeirra.
19 Þvi þeirra (hin mikla) magt var i
þeirra muñe/ þvi þra halar (voru) lyk
er høggormum / sm̄ høfdu høfud / og
med þeim giøra þeir skada.
20 Og hiner adrer af moñunū / sm̄ ei
voru i helslegner i þessū plaagū / þeir *
hvorke snieru sier fra verkū siña handa/
ad þeir tilbade ecke diøflana og skurgod
eñ * * þau af gulle/ og af silfre / og af
kopar/og af steine/og af tre/er hvorke
kuña ad siaa/ nie ad heyra/ nie ad gan-
ga. * C. 16. 11/ 21.
** Ps. 115/ 4. Ps. 135/ 15.
21 Og ei snieru þeir sier fra synū mañ-
drapum/nie fra synu fiølkinge/nie fra
synum hoordoome / nie fra synū stulde.

X. Capitule.

Johañi byriar ad Spaa.

Og eg saa eirn añañ * sterkañ
eingel / ofañkoma af himne/
(sm̄ var)kladdur skye/ og * *
regnboge a hans høfde z hñs
andlit (var) sem sool / og hans fætur
sm̄ elldsstoolpar. * C. 5/ 2. * * C. 4/ 3.

2 Og

2 Og hañ hafde * i sine Hende eina lit
la book opna/ z hñ sette siñ hægra foot
a ** sioen / eñ hiñ vinstre a jordena.
* C. 5/ 1. ** Ps. 72/ 8.
3 Og hañ hroopade med storre rodd/
sem þa leon greniar / og þa hañ hafde
hroopad/ toludu þær sio reidarþrumur
sijnar radder.
4 Og er þær sio reidarþrumur hofdu
talad sijnar radder/ vilda eg hafa skrif-
ad/ z eg heyrde rodd af himne/ sem sagde
til mijn: * innsigla þa hlute/ er þær sio
reidarþrumur toludu/ og þu skallt ecke
skrifa þa. * Dan. 8/ 26. c. 12. 4/ 9.
5 Og eingelleñ/ sem eg sa standa a sioon
um z a jordune/ * hoof upp sijna hond
til himens/ * 1. Mos. 14/ 22.
6 Og * soor vid þañ/ sem lifer um allder
allda/ sem skapade himeneñ/ og þa hlute
þar iñe / og jordena/ og þa hlute þar
iñe/ og sioen/ og þa hlute þar iñe/ ad
þar skule ei framar tijme vera.
* 5. Mos. 32/ 40. etc.
7 Eñ a dogum raddar * hins siounda
eingelsens/ nær hañ mun basuna/ mun
fullkomnast sa ** leindardoomur Guds
so sem hñ bodade þioonum sijnum/ spa-
moñunum * C. 11/ 15. ** 1. Cor. 15/ 51.
8 Og su rodd / hvoria eg hafde heyrt
af himne/ talade eñ aptur vid mig/ og
sagde: gack burt/ * tak þa litlu book /
sem er opeñ i hende eingelsens/ er stend-
ur a sioonum og a jordune. * v. 2.
9 Og eg gieck burt til eingelsens / og
sagde til hñs: gief mier þa litlu book.
Og hañ sagde til mijn: * tak og svelg
hana/ Og hun skal beiskia þiñ kvid/ eñ
i mijnum muñe skal hun vera sæt sem
hunang. * Ezech. 3. 1/ 2/ 3.
10 Og eg took þa litlu book af hende
eingelsens/ z svelgde hana/ og hun var
i mijnum muñe sæt sem hunang/ Og nær
eg hafde eted hana / vard miñ kvidur
beiskur.
11 Og hañ sagde til mijn: þier byriar
eñ aptur ad spa fyrer foolkenu/ z heid-
ingiunum/ og tungumalunum/ z morgū
konungum.

XI. Capitule.

Þad añad Vei kiemur yfer.

Og mier var giefeñ eirn reyr-
leggur/ lijkur staf/ z hñ sagde:
statt upp/ z mæl mustere Guds/
og altared/ og þa/ sem tilbidia
þar iñe.
2 Eñ forgardenum / sem er utañ fyrer
musterenu/ kasta þu ut/ og hañ skalltu
ei mæla. Þvi hñ er giefeñ heidingiunum/
z þa heilogu borg munu þeir * foot-
troda i ** fioruttiju og tvo mænude.
* Luc. 21/ 24. ** Openb. 13/ 5.
3 Og eg vil giefa mijnum tveimur vott-
um / z þeir skulu spa i þusund * tvo
hundrud og sextiju daga / klædder sec-
kum. * c. 12/ 6.
4 Þesser eru þau * tvo vidsmiors trie/
og þeir tveir liioosastiakar / sem standa
frame fyrer Gude jardareñar.
* Zach. 4. 2/ 3/ 11/ 14.
5 Og ef nockur vill granda þeim / þa
utgeingur * elldur af þeirra muñe/ og
uppetur þeirra ovine / z ef nockur vill
granda þeim/ þa byriar hoñum so ad ver-
da lijflatnum. * 2. Kong. 1. 10/ 12.
6 Þesser hafa magt * ad aptur loka
himnenum/ so þar rigne ecke regne a dog-
um þeirra spadooms/ z þeir hafa **
magt yfer votnunum / ad snua þeim i
blood/ z ad sla jordena med alls hattad-
re plagu/ so opt sem þeir vilia.
* 1. Kong. 17/ 1. ** 2. Mos. 7. 19/ 20.
7 Og nær þeir hafa endad siñ vitnes-
burd/ mun * dyred/ þad sem uppstijgur ur
afgrunnenu/ ** hallda vid þa strijd/ og
yfervinna þa/ og sla þa i hel. * C. 13/ 1.
** C. 13/ 7.
8 Og þeirra lijkamer (munu liggia)
a gotum hinar * miklu borgar / sem kall
ast andlega / Sodoma z Ægyptus/ þar
sem z Drotteñ vor er krossfestur.
* C. 18/ 10.
9 Og (nockrer) af ætkvijslum/ z foolk-
enu / z tungumalunum/ og heidingiunum
munu sia þeirra lijkame i þria daga z
eirn halfañ/ z ecke lofa ad þeirra lijkam
er sieu lagder i grafer.
10 Og þeir * sem bua a jordu / munu
fagna

fagna yfer þeim/og gledia sig/ ⁊ skipt-
ast giøfum vid/þvad þesser tveir spæ-
meñ kvøldu þa/sem bua a jørdu.
* C. 8/13.
11 Og epter þria daga og eirn hälf-
añ / foor ande lijffsens af Gude i þa /
og þeir stoodu a sijnar fætur/ ⁊ * mik-
ell otte fiell yfer þa/sem sau þa.
* Luc. 7/ 16.
12 Og þeir heyrdu rødd mikla af him-
ne/seigiande til þeirra: stijged upp hijng
ad. Og þeir stigu upp til himens i skije/
og þeirra oviner sau þa.
13 Og a sømu stundu vard jardskiälf-
te mikell / ⁊ tijunde partur borgareñar
hrunde / og þar lietust i jardskiälft
anum persoonur siø þusund/⁊ þeir ad-
rer urdu hrædder / og gäfu dijrd Gude
himensens.
14 Pad * añad vei er umlided/og siä/
hid þridia vei kiemur snart. * c. 8/13.
C. 9/12.
15 Og hiñ siøunde eingell bäsunade/ ⁊
þar urdu * miklar radder a himne/sem
søgdu: rijke þessarar veralldar eru ord-
eñ vors Drottens ⁊ hñs Christs / og
hñ mun rijkia um allder allda. * c. 19/6
16 Og þeir * tuttugu ⁊ fioorer øld-
ungar / sem sätu frame fyrer Gude a
sijnum stoolū / fiellu fram a sijnar a-
sioonur/ ⁊ tilbädu Gud. * c. 4. 4/10.
17 Seigiande: þacker giørum vier þier
Drotteñ/(þu sem ert)Gud Almättug
ur/ * sa sm̄ er / sa sem var/ og sa sem
kiemur/ad þu hefur medteked þiñ mik-
la krapt/⁊ rijkter. * c. 1/4/ 8. c. 4/8.
18 Og heidingiarner eru reider ordner/
⁊ * þijn reide er komeñ/og tijme framlid-
eña / til ad dæmast ⁊ til ad giefa laun
þioonū sijnum/ spämøñunum/ og þm̄
heiløgu / ⁊ þeim er ottast þitt nafn /
smäum ⁊ stoorum / og til ad fordiar-
fa þa/sem fordiarfa jørdena.
* C. 6. 16. 17.
19 Og * þar vard upploked mustere
Guds a himnum / og þar vard sien ørk
hñs testamentes i hñs mustere/⁊ þar ur
du elldingar ⁊ radder ⁊ reidarþrumur ⁊
jardskiälftar/⁊ hagl miked. * c. 15/5.

## XII. Capitule.

Strijd a mille Michaels ⁊ Drekans.

Og eitt stoort teikn säst a him
ne/ ein kvinna iklædd soolunñe/
og tungled under heñar foot-
um / ⁊ a heñar høfde korona
af toolf stiørnum.
2 Og hun sem var þungud/ hropade/
þar hun var joodsiuk/ og hafde * fæd-
ingar kuider. * Mich. 4/ 10.
3 Og þar säst eitt añad teikn a him-
ne/og siä/dreke mikell raudur/ sm̄ haf-
de siø høfud/⁊ tiju horn/og a hñs høfd
um siø koronur.
4 Og hans hale droo þridiung (af)
stiørnum himensens / og fleigde þeim a
jørdena. Og drekeñ stood frame fyrer
kvinuñe/ sem skillde fæda / so nær hun
hefde fædt sitt barn/ * ad hñ (þa) kyñe
ad svelgia (þad.) * Matth 2/ 13.
5 Og hun fædde eirn son / eitt svein-
barn/sem skillde stioorna øllum heiding
ium * med järn-vende/ ⁊ þvi heñar bar-
ne var burtrickt til Guds og hans
stools. * Ps. 2/ 9.
6 Og konañ * flijde a eydemørk/hvar
hun hefur samastad tilbueñ af Gude /
ad þeir fæde hana þar * * þusund tvø
hundrud ⁊ sextiju daga. * Matth. 2/13
** Openb. 11/ 3.

(Lectiañ a Michaels Messu.)

7 Og þar * giørdest strijd a himne /
Michael og hans einglar børdust
vid drekañ/⁊ drekeñ bardest/og hñs eing
lar. * Dan. 10. 13/ 21. c. 12/ 1.
8 Og þr feingu ei yferhønd/ þra stad-
ur vard og ei fundeñ framar a himne.
9 Og * sa mikle dreke vard utsnarad-
ur/sa * * gamle høggormur/sem kallast
diøfull og satan/sem viller alla jardar-
krijngluna/hañ vard utsnaradur a jørd-
ena / ⁊ hñs einglar med hønū urdu ut-
snarader. * Luc. 10/ 18.
** 1. Mos. 3. 1/ 4/ 15.
10 Og eg heyrde rødd mikla i himnen-
um/seigiande: * nu er heilsañ/⁊ krapt-
ureñ/og rijked orded Guds vors/og vall
ed hñs Christs/ þviad nu er utsnarad-
ur

